maade skall vdtage. besuerer hand seg therfore att staa. effter som j ydermere haffue att forfare aff hanns breff vij ether her hoss tilskicke. Thij bede vij ether och begiere. attj wille lade giøre huad breff forschreffne borger till Lubeck skall haffue. paa hues hannd saa till vortt behoff till forschreffne Islandtz reigse wdtagenndis worder. och j ville førdre. att thett motthe gaa for seg och bliffue bestillitt. hues ther till skall. att thidenn icke skall forløbe och reigsen bliffuer tilbage. ther med och saa the fattige wore vnndersotthe paa Island ther offuer med tilføringe. skicke skulle. j aar som j forgangitt aar skede. forsømmes. Ther med giøre j oss synnderligen till villige. Datum Frederichsborg thennd xviij dag aprilis aar etc 1568.

---

68. 19. apríl 1568. á Hóli.

VITNISBURÐR um sonu Solveigar Björnsdóttur, þá er hún átti með Jóni Þorlákssyni, og að Magnús Jónsson var sonr Jóns Þorlákssonar yngra.

AM. Apogr. 1064 „Ex orig. Sæmundar Magnússonar ä Holi i Bolungarvik“ m. h. Árna Magnússonar. „A þessum vitnisburdi er sama hønd sem nockru i Sirpu Arna Gislasonar. Eg meina þad sie hans eigin hønd“ (AM.).

Svofelldan vitnisburd ber eg Olof Biornsdotter. ath eg heyrda opt j minum ungdomi. svo og ei sidur þa eg var thil alldurs komin. ath Einar heitinn Jonsson hefdi haft Hol j Bolungarvik thil lans af Þorleifi Paalssyni brodr[1]) sinum. Svo og saumuleidiss vissi eg og veit fyrir full sannindi ath Jon heitinn Solveigarson. sonur Solveigar heitinnar Biornsdottur og Jons Þorlaakssonar atti alldrei þann son sem Magnus hiet. Svo og vissa eg minn elskuligann faudr.[1]) Biorn heitinn Gudnason. godrar minningar. gud hans saal naadi. hallda uppaa greindan Jon fimm utlegdarverk. sem

1) Svo.

eg hygg dandi manna domur muni fyrir siaast. ath greindur Jon muni utlægr dæmdr hafua verid og fyrir þær sakier hiellt minn fadir ath adrnefndr Jon hefdi alldrei med laugum mätt giptast. Svo og vissi eg fyrir full sannindi ath Jon Þorlaaksson hinn yngri. brodir þess Jons sem Solveig Biornsdotter aatti baurnin med. Saa sami Jon aatti þann son er Magnus hiet. og voru þeir brædra synir nefndr Magnus og Einar Jonsson. enn ei var Magnus Jonsson brodrsonr[1]) Einars Jonssonar. Svo og var þa rædt af maurgum monnum ath sa sami Magnus hefdi ecki skilgetinn verid fyrir þaa grein ath hann hefdi gietinn verid efter þat er fadir hans vard segtugur um þa toku er hann hafdi tekid med audrum fleirum ur kirkiunni j Skalhollti. og thil sanninda hier um ath eg hefi hier ei heyrt tvimæli aa leika þvi sem hier fyrrskrifvad stendr þaa set eg mitt innsigli fyrir þetta brief er skrifad var aa Holi j Bolungarvik þann ix. dag Apriliss arum eftir gudz burd M. D. lx. viij.

---

69. 25. apríl 1568. á **Þingeyrum.**

VITNISBURÐR um eignir síra Bjarnar Jónssonar 1550—1 (sbr. Dipl. Isl. XII. nr. 89).

AM. 234, 4to., bls. 557—8, skr. ca. 1600.

Vitnisburdur vppa þennann reikningskap.[2])

Þad giørum vid Ejrekur Magnusson. og Fimmboge Gijslason prestar godum mønnum kunnugt med þessu ockar opnu briefe. ad vid høfum sied og yferlesid suo felldann reikningsskap. nær ord eptter ord sem hier fyrir ofann skrifadur stendur. og vitum vid ecke betur enn suo ad allann þennann reikningskap hafe skrifad sira Sigurdr heitenn Nikulasson sem verid hafde handgeingenn skrifare og þienare. sera Bjarnar heitens Jonssonar. og til sannenda hier vmm setium vid

---

1) Svo. 2) þ. e. um peninga síra Bjarnar Jónssonar 1550—51.

ockar jnnsiglle. fyrer þetta ockar vitnisburdar brief huertt giortt og skrifad var. a Þijngeyrum j Vatzdal. sunnudagenn j paska viku anno 1568.

---

70. 26. apríl 1568. á Sveinsstöðum.

HÉRAÐSDÓMR dæmir Sigurði Jónssyni að greiða Jóni Björnssyni og systkinum hans sinn part af því fé, sem Jón Magnússon var þeim skuldugr.

AM. 234, 4to., bls. 559—62, skr. ca. 1600.

Sueinstada Domur.

Þad giørum vier Einar Sigurdsson. Sigurdr Þormödsson. Þörarinn Gijslason. Jon Gudmundsson. Ellendur Jonsson Jon Gijslason Magnus Gunnsteinsson. suarner løgriettumenn. Gudmundr Gijslason Olafur Þorsteinsson Gijsle Brandsson Jon Þorgrijmson. og Philipus Jonsson gödum monnum kunnugtt. med þessu voru opnnu briefe. ad þa lidit var fra hijngad burde. vors herra Jesu Christi 1568 är. ä Sueinstodum j Vatzdal manudagenn næstann eptter paska viku. a almennelegu hieradz þijnge. vorum vier j dom nefnder. af heidrligum manne. Þorvallde Bonda Biørnssyne. er þa hafde kongsins syslu og vmbod j Hünavatz syslu til ad skoda og rannsaka og fullnadar doms atkuæde ä ad leggia. vm þä ägreining sem var a medal þeirra frænda. Sigurdar Jonssonar. og Jons Biørnssonar. voru þesser menn bäder. med alþijnges döme dæmder j sagdann stad og dag. ad þeim bädum vel vitanda. än sannra og løgligra forfalla sem domurinn þar vm hlyder. og fyrir oss var vpplesenn med godra manna jnnsiglum. Vnm huxudum vier vorar samvitzkur. og veralldligtt løgmal. þad bädum þessum portunnum vidvijkur. Kom þar framm af hende Sigurdar Jonssonar. sendebrief Magnusar Bonda Jonssonar. hlijdande ad Jon Biørnsson hefde gefid Jon heitenn Magnusson kuittann. og var þetta ecke suo skilvijslega bijvijsad. ad oss nægia þætte. þar med j sama brefe. bad Magnus Jonsson Þor-

ualld Biornsson ad läta dæma sama mäl til alþijngis. huad oss virtist epter vorre samvitzku ecke løg til standa. Vændist og Sigurdur Jonsson j sijnu briefe. ad Magnus hefde Brief og jnnsiglle þeirra brædra. og villdi ecke þeim sleppa. kom einginn ønnur loglig forføll þar framm fyrir oss af hende Sigurdar Jonssonar þau ed oss þætte hann ej sialfur sitt suar meiga framm läta. eda hanns vmmbodz madur. helldur meira ad draga fra hinum er soktte. og firra hann so riettindunum. Og þui dæmdum vier hann riettilega fyrerkalladann. eptter þui sem adrgreindr domur jnnehelldur. J fyrstu grein kom þar framm. af hende Jöns Biørnssonar. bref vors allra nädugasta herra kongsins fovitum hijngat j landit jnnskickudum vtgiefid af Christophor Thrandsyne. og Axil Jül suo lätande. ad þeir bader vnnttu. og naduglega vppa häleita konglig Maijst. vegna til lietu. Ad helftin allra lausra aura. sera Bjarnar heitens Jonssonar. vtann gull. silfur. Reidu peninga og jarder. var af þeim skickad hanns børnum øllum til vppfædis og bestu medhiälpar. Hlyda suo vor landz log. ad þær giafer skule halldast sem kongur giefur oss. og vier hønum. Somuleidis vissum vier fyrer full sannende. ad Jon heitenn Magnusson. moder[1]) fader Jons Biornssonar. og hans syskena. hefde ad sier tekid øll half gotz. sera Biarnar heitens Jonssonar sem þeim hafde adur af konglig Maijestets høfudz mønnum skickad verid. J þridiu grein birte Jön Biørnsson þar fyrir oss. Brief Jöns heitenns Magnussonar. mödrfødr[1]) sijns. med hanns eiginn signete ad hann hefde giørtt fieskiptte med sonum sijnum. þä ed hann gieck til kaups vid Gudnyiu Grijmsdottur. J odru lage kom þar framm fyrir oss. skilvijsra manna vitnisburdur. so latande. ad adrnefndr Jon heitenn Magnusson. modur fader Jons Biornssonar yferlyste. ad hann ætte vjc. hundrada. þa hann medtok peninga sera Biarnar heitens Jonssonar. med ødrum fleirum vitnisburdum sem þar vmm hliöd-

1) Svo.

udu. ad fyrrnefndur Jon Magnusson hefde fie og peninga ätt fyrir greindum gotzum. Og virtist oss sem huers brefin hliödudu j möte ødru. Jtem avijkur suo løgmälid. ad vela kaup skal ad vettugie hafa. J fiordu grein kom þar framm fyrir oss. danumanna dömur med jnnsiglum þeirra. suolätande Ad Jon Biornsson mætte rietteliga sækia. syne Jons Magnussnoar. mödrfødrs[1]) Jons Biornssonar þa sem fie hefde medtekid. ädur nefndz Jöns Magnussonar. sijdan peningar Jons Biørnssonar og hanns syskina. jnn komu hia Jöne heitnum Magnussyne. Modur fødur barnna sera Bjarnar heitinns Jonssonar. þo ad fiär skiptenn hafe giord verid. þa virtist oss ad Arfe eige j ondvegie ad setiast. sem vier hølldum syne Jons Magnussonar. þa arfa hafa eptter hann tekid. sijdann peningar Jons Biornssonar. og hans syskena jnn kömu. og þeim hanns erfingium hafi borid ad giøra skullda monnum· stefnnu. hueria vær reiknum Jon Biørnsson og hanns syskenn. Jtem avijkur suo riettarbot Häkonar köngs. j einne grein, er hliödar suo. Biodum vier logmonnum og syslumonnum ad leggia suo huers manns mal. sem brief þeirra votta og epter gognüm og vitnum skal huertt mal dæma. Og þui j Gudz nafne Amenn. ad heilax anda näd med oss til kalladre. Og ad suo profudu og fyrir oss komnu. og fyrir þessar fyrrskrifadar greiner laganna. og þær fleire sem j løgmalenu standa. og hier ad hnijga. þa dæmdum vier fyrr sagdir doms menn. med fullu doms atkuæde Sigurd Jonsson mödur brodur Jons Biornssonar skylldugann ad greida Jone Biørnssyne suo mykla peninga. sem Jone Biornssyne fullnadist vitnne til ad ogolldner være. og Sigurde Jonssyne bære. sijnum systur syne Jöne Biornssyne ad greida. fyrer sinn partt af sogdum peningum. sem þrattskrifadur Jon heitenn Magnusson var skylldugur ordinn sijnum dottur bornum. Jone Biornssyne og hans syskenum þeirra sem honum ber vmbod ad løgum. vtann logmonnum og logriettumonnum lijt-

---

1) Svo.

ist annat logligra vmm þennann vornn fyrrskrifadann döm. þa setium vier þad j þeirra forsiö og vmböt med þeirra skilvijsra manna rade sem þeir þar til nefnna. Samþycktte þennann vornn döm med oss fyrrnefnndum domzmonnum adurnefndur valldzmann. og sette sitt jnnsiglle med vorum jnnsiglum fyrir þetta döms bref. huertt ed skrifad var ä sama are og deige sem fyrr seiger.

---

**71. 27. apríl 1568. á Hólum.**

JARÐASKIPTABRÉF á Hrólfsvöllum í Fljótum fyrir Bárðartjörn í Höfðahverfi.

AM. Fasc. LVI, 13, frumrit á skinni úr skjalasafni Hólastóls (nú í þjóðskjalasafni). Af 4 innsiglum eru 3 fyrstu innsiglin fyrir bréfinu. — AM. Apogr. 3455.

Vm Hrolfsvalle 1568.[1])

Þad giorum vid Jon Sæmundsson oc Þorsteinn Jonsson. gödum monnum kunnigtt med þessu ockrü opnü briefi ad aarum epter Gudz bürd. M. D. lx og viij j biskupsbadstofunne aa Holum xx og vij dag Aprilis. vorum vid j hia. saaum og heyrdum ä ord oc handaband þessara manna: af eirne aalfu herra Oläfs Hiallttasonar Superintendens Hölabiskupsdæmis: Enn af annare älfü Thumasar bönda Brandssonar, med samþycke sinnar dande küinnu Güdrünar Þorsteinsdöttur. ad süo fyrir skildü. ad herra Oläfur sellde greindum Thümaase Bönda dömkirkiünnar jord. Hrolfsvelle j Fliotum j Hollts kirckiusöckn. vndan sier oc domkirckiünnar formonnum. enn vnder greindan Thümas bönda Brandsson. hans küinnü. og þeirra erfingia fyrir xij$^{c}$. oc þar til iij$^{c}$ sem þeim vm semde. med aüllüm þeim gaügnum og giædum er greindre jordu aa ad fylgia med laügum. ad fornü oc nyiu. og Holastadar Registrum inne helldur. wt ad Eyuitraraa. og inn ä

1) Utan á bréfinu m. h. Guðbrands byskups.

mötz vid Hraunaland. sem hun aa med laugum. og Smidiubrecku. kaüllud er. oc Hölakirckia var fremst eigande ad ordinn. Hier j möt gaf greindur Thümas bondi jord konu sinnar nefndrar Güdrünar Þorsteinsdottur. haalfa Baardartiorn er liggur j Grytübacka kirkiu söckn. fyrir xvc. med þeim gaügnum aüllum oc giædum. er greindre jordü fylgier og fylgtt hefur ad fornü oc nyiu. oc hann vard[1]) fremst eigande ad ordinn.[1]) sinnar kuinnu vegna. vndan sier oc sijnum erfingium. enn vnder greindann biskup Oläf. eda þann sem hann villde hana selia edur faa. Skyllde hüor hallda sijnu kaupe til laga er keypte. enn saa süara lagaripttingü er sellde. Og til sanninda hier vm setti fyrr greindur herra Olaafur. oc greindur Thumas bönde sijn jnnsigli med ockrum jnnsiglum fyrir þetta jardakaupsbref er giortt var j sama stad. deigi oc aare sem fyrr seiger.

Þessa Bardartiorn hefur herra Olafur sellt Halldore Sijgurdssyne. eda giefit. so kirkian hefur huorki verd nie anduirde. hef eg þad vmlidit fyrer goduilldar saker. enn þo ahrært. ad eg hef ecki tekid aptur domkirkiunnar jord. Hrolfsvalli. sem hun a med rettu. huad eg þui skrifa. ad eingin seigi jeg hafe þar kuittan a giefit. þui meiga kirkiunnar formenn þar vm tala med rettü. ef vilia. og aptur taka Domkirkiunnar jord. þo þar faest ecki domur aa. þui Hrolfsvalle a hun med rettu.

Datum þad är 1589.
Gudbrandur Thorlaksson.[2])

---

72. 27. apríl 1568. í Kaupmannahöfn.

VERNDARBRÉF konungs handa Ormi Sturlusyni.

Ágrip í ríkisskjalasafni Dana, Reg. p. a. L.10, 528. (Uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 493, 4to., en Laursens ríkisskjalavarðar í þjóðskjalasafni).

1) Svo. 2) Öll þessi klausa er aftan á bréfið rituð með eiginhendi Guðbrands byskups.

Ormaar Studlassen paa Jsland.

Ormar Studlassen bleff tagen wdj Kongens fred wern handhaffning att forsuarris- och fordagtinges till all rette.

Haffniæ 27 Aprilis 68.

---

73. 30. apríl 1568. í Kaupmannahöfn.

KONUNGR ritar Henrik hirðstjóra Krag að gæta vel vörzlu á höfnum á Íslandi, með því að hann hafi heyrt, að enskir víkingar með leyfi Svíakonungs hafi búið skip til árása á Ísland.

Rikisskjalasafn Dana, Tegn p. a. L. 10, 16. — Pr. i FJ. Hist. Eccl. Isl., bls. 78, og i MKet. II, bls. 62—3.

Henrik Krag, embitzmand paa Islannd fick
breff som effter følger.
Frederich etc.

Wor gunst tilfornn. Wiid att wii ere kommenn vti forfaring huorledis nogne Engelscke Frybytther som haffue bestilling aff Kongenn aff Suerig. skulle haffve tilrustidtt nogen skibe med huilcke the skulle vnderstaa thennom att giøre Indfald wtj wortt land Island. oc andre omliggendis øer. oc wore vndersotthe ther sammestedtz skade tilföie. Tha paa thett sligtt maa forekommis. bede wii theg oc wille. att thu med altingest oc vti alle haffnerne ther for landitt. lader haffue godtt opseende. oc ther som nogenn wille vnnderstaa thennom att giøre ther nogitt Indfald. att thennom motthe tha skee modstand oc affbreck. thett meste mugligtt er. saa the icke skulle tilføie wore vnndersotthe skade. Sammeledis bede wii theg oc wille. att thu bestiller thet saa att worc skibe som vij thid till Landitt haffue forskickidtt. med thett første mue bekomme theris lad. oc siden bliffue afferdigitt paa hiemreigssen egienn. Ther med skeer wor wilge. Datum Kiøbnehaffn thend xxx dag Aprilis Aar etc. 1568.

---

74. 4. maí 1568. á Hóli.

SJÖTTARDÓMR, kvaddr af Árna Gíslasyni, kongs umbaðsmanni í Ísafjarðarsýslu, ógildir kvittun Magnúsar Jónssonar (er dagsett var 18. mars sama ár) og dæmir konung eiga sök fyrir aðtektir í Smiðjuvík þeirra manna, er þar eru nefndir.

Lbs. 65, 4to., I, bl. 99 a—100 b, m. h. Jóns dans Magnússonar ca. 1640. — Ny kgl. Saml. 1945, 4to., bl. 403 b—4 b, m. m. Hannesar Gunnlaugssonar í Reykjarfirði 1666, lakari og meira vikið við. Sbr. kvittunarbréf 18. mars 1568 og Alþingisbækur Ísl. I. 132.

Domur vm [þessa firrskriffada[1]) þriä Jöna [og þeirra adtekt j Smidiuvijk. hvorium Magnus s[aluge] Jonsson hafde kuittun utgefed. og dæmdest þo onyt af Arna Gijslasyne.[2])

vj menn til döms[3]) nefnder [af Arna Gijslasyne. kongs vmbodsmanni j Jsafiardarsyslu.[4]) 1568. 4 Maij ä Höle j Bolungarvijk.[5]) vm þad huora suara edur sekta þeir menn jrde sektuger. er B[ondenn] Arne hafde þangad stefnt. huora nøfn voru Jön Jonsson. Jön Biarnarson.[6]) og Jon Einarsson. vm þä adtekt, er greinder menn høfdu hafft. þad fyrra ärid ä jørdunne Smidiuvijk ä Strøndum. j so mäta ad þeir høfdu hafft þadan nockud busgagn. og burt borid ad ölæstum husum. er søgd jørd var j eyde. huort busgagn þar var framm borid. oss äsiäøndum. sømuleidis virding ä løgd. effter tilnefnd Arna Gijslasonar. ad vj skinsømum skilvijsum monnum. voru fiorer af oss domsmonnum j sømu virdingu. J firstu þad busgagn sem [Jon Jonsson og Jön Einarsson[7]) medtekid høfdu. var virdt 4 älna virde. huad huor nefndra manna hafde hafft. so þad sem Jön Biarnarson[8]) medtekid hafde var virdt ii½ alinn. þui monnum leist greint büsgagn ad litlum koste. [og liettum efnum[4]) smijdad. [og miøg ecki mathellt[9])

1) [65, því að á undan er kvittun frá 18. mars 1568. 2) [b. v. 1945. 3) b. v. 1945. 4) [sl. 1945. 5) Buðlungavík 1945. 6) Biornsson 1945. 7) [Jónar þessir 1945. 8) Biarnason 1945. 9) matheillt, 65.

vera.[1]) J fyrstu baru greinder menn fram. ad bondinn Magnus hefde sijna eign kallad allt þad sem j Smidiuvijk var. effter þad Jön Jönsson. sem þad firra ärid hafde ä jørdunne [Smidiuvijk[1]) [buid og[2]) leigid med vatn og fisk. [sømuleijdis var[3]) samhlioda søgn greindra manna sialfs[4]) handskrifft og signetad bref greinds Magnusar er hann hafde Birne[5]) Biarnarsyne.[6]) vm greint mälefne. til skrifad. þui ädur nefnder iij Jönar voru þienarar ädurnefnds Bijorns.[7]) J annare grein kom þar framm firer oss ad nefndur Jön Jönsson. sem j Smidiuvijk hafde verid. kallade og sijna eign. þad sem greinder menn høfdu hond ä hafft. So og kom þar framm fyrer oss nefnda dömsmenn kuijttunarbref. er tijtt nefnder iij Jönar vændust. ad nefndur Magnus hafde þeim vt gefid. med hans zignete og sierligre handskrifft. huad vier [jnne skodudum. läsum og jnne[8]) gaumgiæfdum. huort so var hliodande medal annara. [og hann B[irne] so Brefid skrifad[9]) hefur.[10]) ad hann firer sinn manndöm og dreingskap og med[11]) kraffte þessa brefs giæfe hann greindra manna tiltæke. þad þeir vr[12]) Smidiuvijk høfdu. j valld [Biarnar Biarnassonar.[13]) og lyser þui ad sijn eign sie allt þad. sem j Smidiuvijk var effter fardaga. og einginn meige edur skule frä þeim deige nefnda menn klaga edur kæra j nockurn mäta. huorke med lagasoknum nie döms vtnefningum. Enn þö þar nockud vmm dæma vilie. þä lyser hann bondinn þad med øllu dautt og macktarlaust. med þessu sijnu brefe. önytt og ad øngu halldande. med nockrum fleijrum ordum. er hier um skrifud eru. huad ädurnefnt kuittunarbref til synis er. og sialft[14]) vitne vm[11]) ber. vissum vier og ecki ad nefndur Magnus j þann tijma. hann nefnda kuijttun vtgaf. hefde nockud kongcvalld j hende. so hann mætte þar fyrer neina kuijttan kongdömsins

---

1) [sl. 1945. 2) [b. v. 1945. 3) [Svo og vard 1945. 4) sjálf 1945. 5) Svo bæði. 6) Biarnasyne 1945. 7) Biarnar 1945. 8) [65; yfirlásum og 1945. 9) tvíritað í 65. 10) [að nefndur Magnús hefur svo B[irni] skrifað 1945. 11) b. v. 1945. 12) í 1945. 13) [Biorns Biarnarsonar 1945. 14) 1945; sialf 65.

vegna utgefa. J annare grein høfum vier ecki heyrt ad Magnus Jönsson skyllde eiga.[1]) edur hefde til dæmdar verid. alner þær sem Jön Jönsson effter skilde j Smidiuvijk. og hans eign var. og fyrir hans forfalla saker kunne ecki j burt ad flitia. þui þar kom fram firer oss. ad tijttnefndur Jön hefde huorke ätt færleijk til sios nie lands. sitt j burt ad flitia. j nefndan tijma effter løgum. ef hann skyllde ad løgum leigulide heita. So og ei sijdur kom firer oss. ad þesse þrättnefndur Jon og hans kuinna hefde firer biargleyse frä þessare firrnefndre jørdu farid Smidiuvijk. og so frä sinne fätækre eign ordid ad ganga. firer ädurgreind forføll. vanefne og naudsyniar vijsar[2]) j vijdustum stødum. þar so vid vijkur j løgmälinu. ad naudsyniar og forføll skule meta. stadfester. aliktar og vmbæter ädurnefndar greiner su klausa sem kongsins ordinantia jnnehelldur. þar so seiger. hier skrifum vier naudsyn aungua Reglu. þuij hun hefur einginn løg. Jtem þar Magnus bonde[3]) þad allt sijna eign kallar. sem j Smidiuvijk var effter fardaga. so og hafde kalldakol ä greijndre jørdu verid.[4]) virdtist oss sem greijnd jørd Smidiuvijk hefde þad fyrer farande är. er Jön þadan för. ecki med løgum greindum Jöne bigd hafa verid. Sømuleijdis jnnehelldur so Pijningsdömur. kalladur er. j eirne grein. ad aunguer budarsetumenn skulu j landinu vera. þeir sem ei hafa af bue ad fæda sig. þuij leist oss sem tijtt nefndur Jön hefde büsetumadur[5]) verid ä nefndre jørdu enn ecki ad logum leigulide heita meiga. effter þui sem landslaga[6]) bökinn räd firer giører [j] bunadarbælke. Þuij virdist oss tijtt nefndum domsmonnum sem offtskrifadur Jön hefde ecke madur verid skrifadre jørdu Smidiuvijk løgbyle ad veijta. edur løgskilum fyrer ad svara.[7]) so og honum full forføll ä hondum verid hafa. vm þad sitt j burt ad[3]) flitia frä Smidiuvijk. effter þui sem skrifad er [fyrr. væri[8]) so

1) b. v.; vantar í 65 og 1945. 2) segir 1945.3) b. v. 1945. 4) giord, b. v. 1945. 5) Svo bæði. 6) leiðrétt; landsleigu 65; sl. 1945 og vikr hér við máli og styttir. 7) 1945; veria 65. 8) [sl. 1945.

ad sannpröfud jrde forføll Jöns Jonssonar sem hann hafde[1]) þann tijma. er hann burt frä Smidiuvijk för. huorke ätte hann[1]) skip nie kapal. þä virdtist oss j aunguann mäta hushelge fallid hafa ä þær älner. sem Jön Jönsson effter j Smidiuvijk skilde. Þuij ad h[eilags] anda näd til kalladre. ad aullu so sannlega pröfudu. sem framm fyrer oss hefur komid. dæmdum vier med fullu doms atkuæde offtnefnda iij Jöna rietteliga fyrer kallada. þuij þeir sialfer stefnuna medkendust oss äheyrundum. stendur so skrifad j Kaupa B[ælke] 1 capitula. ad sa sem firer audrum tekur skal afftur færa. Sømuleijdis j Þiöfab[ælke] 3 capitula. Nu er madur stolinn fie sijnu. þä ä sä stolinn er full giølld fia[r] sijns. af fie hins seka. J þridiu grein stendur so j sama b[ælke] sama capitula. ad sa sem firer audrum tekur og ef madur verdur sannur ad søk.[1]) giallde konge ij aura. Enn þeim Eyrer er ätte. so og dæmdum vier med fullu doms atkuæde tijttnefnda menn Jön Jonsson og[2]) B[ondann] Jön Einarsson[3]) skillduga ad giallda kongenum ij aura enn þeim eyrer er ätte. og þeim sijna eign er att hafde. þad nefnder Jönar høfdu frä sama Magnuse hafft. so og var þar framm fyrer oss borinn lijtill stedie og vadarhaunk. er Jön Nichulasson hafde [handhafe ad ordid[4]) j Smidiuvijk. og Andries Jönsson att haffde. og lied tijttnefndum Jöne. dæmdum vier Arna Gijslasyne til eignar. j hans landskylld. þä sem hann haffde ätt ad nefndum Andriese j næstu 6 är. huad ed var 4 ærgillde er Andres nefndur var Arna G[ijslasyne] skylldugur j landskylld af jørdinne Furufirde. þä hann þar biö. so og ad sannpröfudum forføllum Jöns Jönssonar. þeim sem firr standa skrifud. dæmdum vier og med fullu döms atkuæde þä kuijttun sem Magnus Jonsson gaf tijtt nefndum Jönum[5]) med øllu onyta og eckert affl haffa. Effter þeirre grein sem stendur j Mannhelge 20 capitula. Einginn skal gefa søk ä Annars sæmdum. þui meige madur ecke søkina

1) b. v. 1945. 2) 1945; j 65. 3) 1945; E. 65. 4) [hønd á haft 1945. 5) Jön. 65; mønnum 1945.

gefa. huorsu mä þä su kuijttun løglig vera. sem sama efne ä hrærer. stendur og so j løgmälinu. ad einginn skal annars döm vnder sitt valld taka. vissum vier þar einginn løg til standa. ad Magnus Jönsson mætte nockra kuijttun vtgefa. vm nein þau mäl sem Arna Gijslasyne ber kløgun ä ad hafa. kongdömsins vegna effter hans breffs hlydelse. hier med leggium vier vora liufa bæn til. ad H[erra] Eggert logmann vilie þennan vorn döm älijta. rietteliga. og jnneliga vmbæta med bestu manna räde. þad honum og þeim virdist oss yfersiest haffa.

Samþyckte [med oss[1]) et cetera.

---

75. 4. maí 1568. á Bakka.

JARÐASKIPTABRÉF.

Jbsk. AM., Eyjaf. 9.

Þat giorum vær Olafur Tumasson. og Jon Jonsson prestar. Benedikt Halldorsson. Petur Philippusson. og Jon Sigmundsson leikmenn godum monnum kunnugt med þessu voru opnu brefi. at arum epter Gudz burd M D Lxviij ä Sydre Dunhaga j Horgardal næsta Dag epter tueggia postula messu Philippi og Jacobi.[2]) vorum vær hia säum og heyrdum ä ord oc handaband Siera Biarnar Gijslasonar. og Gudnijar Grijmsdottur. at suo fyrer skildu. at nefnd Gudny selldi. sogdumm sera Birne. Jordina Þuerbrecku. er liggur j Oxnadal j Backa kirkiusokn med ollum þeim gognum og giædum er greindre jordu fylger og fylgt hefur at fornu og nyiu. vndan sier og sijnum erfingium. enn vnder fyrrnefndan sera Biorn og hans erfingia. med þessum landamerkium: Rædur Merkegil fyrer framan. Enn Randholl[3]) fyrer vtann. og þadan vpp j midiann Aullduhrygg. Geirhilldarreijtur med þessum vmmerki-

---

1) [b. v. 1945. 2) þ. e. 2. mai. 3) Þetta orð er svo ritað, að ekki verðr með vissu séð, hvort það sé heldur Randholl eða Raudholl, og er þó líkara Randhóll.

um. Gidialækur fyrir vtann Midskrijdugil fyrir framann. og halfan Vatzdal. fiordung j almenninge. manadarbeijt ä vetur j Kiosarhlijd. kiemur þar j mote torfskurdur sem Fagranes þarfar. j Þuerbrecku jord. hier j mote gaf fyrr nefndur sera Biorn adurnefndre Gudniju Jordina Kamphöl ä Galmastrond er liggur j Modruvallaklausturz kirkiusokn. med ollum þeim gognum og giædum er þeirri jordu fijlger og fylgt hefur at fornu og niju. og greindur sera Biorn vard fremst eigande at. vndan sier og sijnum erfingiumm. En vnder greinda Gudniju og hennar erfingia med þessum landamerkium og jtokum. halfsmanadarteijg sudur j Kiarnajord. Enn landamerkiumm Rædur Lækiargil fyrir sunnann til fialls. og Riettsyne ur nedann verdu gilinu og ofan j vatned. A hun Reka ein vid sig fra nauste hinu austasta til mots vid Fagraskog. Enn austur fra naustinu til mots vid Arnarnes. Reiknade þrattnefndur sera Biorn. at Modruuallastadur ætte halfan vidreka og hualreka j möts vid Höl. og þar til skilldi optnefndur sera Biorn. Giefa þrattnefndre Gudniju j mille jardanna tiju hundrud. voru þar vpp j tilskilin iij malnytu kugillde. ij hestar fyrir ij^c. ij naut gomul fyrir iiij^c. og þar til eitt fulluirdiss hundrad. skilde þesser peningar vtgreijdast aa þremur arumm enum næstum. Suo tilskilde optnefnd Gudny. at hann skilde eignast landskulld af jordunne Þuerbrecku vm næstu iij är Epterkomande. Enn tijttnefndur sera Biorn skilde Eignast landskulldena af Kamphole. vm þau iij är skilde huort vm sig Greijndra manna sera Biorn og Gudnij suara lagaRiptingum ä þeirrj jordu er sellde. Enn hallda til laga þeirre sem keijpte. og til sanninda hier vm. setium vær vor Jnnsigle fyrer þetta brief er skrifad var ä Backa j OxnaDal tueimur Dogum sijdar Enn fyrr seiger.

Enn þa framar þessu saumm vær þennann Original skrifadann A kalfskinn. og þar vid þriju hängande Jnnsijgle hlijodande so sem Effterfylger. fyrsta siera Olafur Thuma: + annad Benedigt. Hald + þrijdia Jon Sigmundsson. þetta so ordRijett Coperad

vottum vær wnderskrifader og medkiennumm satt ad vera þad framast ad komast kunnum.
ad Modruvollum dag 22 Junij Anno 1704.
Sigfus Þorkielzson. Þorvalldur Runolfsson
egh. eh.

---

76. 14. maí 1568. á Hóli.

KAUPLOFORÐ fyrir hálfu Laugabóli í Ísafirði.

AM. Apogr. 4725 b. 3., m. h. Hans Beckers eftir 4 samföstum kálfskinnsbréfum óinnsigluðum (sjá bréf frá 20. eða 21. maí 1568).

Þat medkenunst vid Sueirn Jonsson og Jon Þorlakxson fyrer aullum monnum sem þetta bref sia edur heyra. aa Holi i Bolungarvijk. þann xiiij dag Majus manadar voru vid i hia saum og heyrdum aa ord og handaband þessara manna. Olafs Jonssonar og Arna Gislasonar. at suo fyrer skildu at nefndur Olafur lofadi Arna Gislasyne med handsolum at greindur Arne skyllde kost aa eiga. at kaupa at þrattnefndum Olafi jordina halfa Laugaböl. er liggur i Jsafirde i Kirkiubols kirkiusokn. lofadi optnefndur Olafur at selia Arna Gislasyne fyrstum nefnda halfua jordina Laugabol nær sem hann villde selia. hier i mot skylldi Arne Gislason giallda og greida nefndum Olafi. xx$^{c}$. i suo ordnum peningum. xij$^{c}$ iord og iiij malnytu kuillde og .iiij$^{c}$. i godum peningum. edur xuj$^{c}$ jord og þar til iiij malnytu kuillde. skyllde greind jord gialldast i Jsafiardarsyslu. Og til sannenda hier vm settium[1]) vid ockur jnnsigle fyrer þetta ockartt vittnisburdarbref. hvertt at skrifat var aa sama are og deige sem fyrr seigir.

---

77. 14. maí 1568. á Hóli.

VIDIMUS.

1) Svo.

AM. Fasc. LXVIII, 10, frumritað vidisse á pappír, læst með 2 innsiglum (hið fyrra er nú brákað) saman við 2 pappírsskrár Fasc. LXVIII, 11 og 12. — Sbr. AM. Apogr. 1065.

[Giørningsbref og vitnisBurder ymsra manna.[1])
[Kiarlagsstadabref og witnissburdir wmm manndauda j sottinne.[2])

Þath medkiennust wid Ormur Jonsson og Jon Þorsteinsson fyrir aullum monnum þeim sem þetta ockart bref siaa edr heyra ath wid haufum sied og yfuerlesid suo laatandi Bʀef ord Efter ord sem þau bref inne hallda Er nu eru med fest þessu ockar witnissburdarbrefi. Og ath suo j sannleika Er setium wid fyʀnefnder menn ockar innsigli fyrir þetta medkienningarbref Er skrifad war aa Holi i Bolungarwijk þann fiortanda dag mäius maanadar Arum efter Guds burd M d lxviij.

Þá kemr í LXVIII, 11:

1. Vitnisburðr Jóns Halldórssonar frá 22. febr. 1567 um manndauða á Auðkúlu í plágunni 1495 (= frumrit í Fasc. LXXII, 18).
2. Vitnisburðr Ingibjargar Salamonsdóttur frá 13. apr. 1567 um sama efni (= frumrit í Fasc. LXXIII, 17).

   En í LXVIII, 12 koma, og eru fyrirsagnirnar skrifaðar utanmáls m. annarri samtíða h., líklega hendi Árna Gíslasonar:

3. „Giorningsbref Orms Stullasonar“ frá 19. mai 1560 um Kjarlaksstaði og Ormsstaði (= frumrit LXXII, 15).
4. „Witnisburdur Jons Marteinssonar og Bessa Biornssonar“ frá 23. dec. 1566 (= frumrit LXXII, 15).
5. „Witnisburdur Gunlaugs Kodranssonar“ frá 6. febr. 1563 (= frumrit LXXII, 17).
6. „Witnisburdur Fusa Jonssonar“ frá 6. febr. 1563 (= frumrit LXXII, 17).
7. „Witnisburdur Gudlaugar Ormzdottur“ 6. febr. 1563 (= frumrit LXVIII, 8).
8. „Witnisburdur Sijra Finnboga og Sigmundar“ 20. sept. 1566 (= frumrit LXVIII, 9).
9. „Witnissburdur Sijra Finnboga og Runolfs“ 9. nóv. 1566 —13. jan. 1567 (= frumrit LXXII, 17).

---

1) [Utan á vidisse m. h. frá 16. öld, þó annarri en þeirri á því, sem eftir fer. 2) [m. sömu h. sem er utan á mörgum bréfum, er varða Árna Gíslason frá þessum tímum.

78. 14. maí 1568. á Borg.

DÓMR um fátækan dreng, sem úti varð.

Lbs. 788, 4to., bl. 122 b—123, skr. ca. 1640. — Lbs. 63, 4to., bl. 76, ágrip, skr. ca 1640. — Lbs. 65, 4to., I, 84 a, ágrip með ártali 1569, m. h. Jóns dans Magnússonar ca. 1640. — Bibl. Bodl. Oxf. FM. 127, 4to., bl. 278 a (brot aftan af), skr. ca 1640. — Lbs. 832, 4to., skr. ca 1700 (nokkuð afbakað). — Steph. 61, 4to., bls. 242—4, skr. ca. 1680 (styttir dóminn). — Steph. 61, 4to., bls. 242—4, skr. ca. 1680 (styttir dóminn). — Ny kgl. Saml. 1945 (lök uppskrift, sleppir dómsmönnum og dagsetningu og styttir dóminn mjög).

Domur wm faatækann pilltt er vte vard.

Aullum monnum sem þetta brief sia edur heyra senda Pall Eiolffsson. Sigvatur Biarnarson. Olaffur Eiolfsson. Jon Gijslason. Magnus Pietursson. Hinreck Vilchinsson. Oddur Oddsson. Eigell Einarsson. suarner løgriettumenn. Magnus Magnusson. Jon Sigurdsson. Olaffur Arnason og Brandur Sigurdsson. kuediu guds og sijna kunnigt giørande. ad Anno 1568.[1]) ä faustudægenn j. 5. viku sumars ä Borgarþijnge ä þijngstad riettum vorum vier j dom neffnder aff h[eidarligum] m[anne] Gijsla Sueinssyne kongligrar Mayestatis syslumanne j Arnesþijnge ad skoda og fullnadardoms atkuæde a ad leggia vm þä äkiæru er syslumadurinn klagade thil Holmfastz Brandzsonar huorre äklogun suo var hattad ad fraa hanns Bæ haffde fared x vetra gamall piltur j vetur a langafostu og orded vte og fanst daudur Bæia ä mille. huor piltur eij var logkomenn thil sueitarinnar þo honum være skipud filld vm sueitena vetrarlangt. J fyrstu kom framm firer oss med fullum sannenndum ad fader þessa pilltz. heitande Jon Jonsson. hliop j Burtt vr þessare adurschriffadre Arnessyslu offann jffer fiall. lagdest þar med konu og villde eiga hana. Sijdan hliop hann þadann og austur j Vestmannaeyiar. enn skillde effter sijna qonu j þessare Arnessyslu og þetta sitt Barn sem vte vard. J annare grein skodudum vier og rannsokudum

---

1) 1569, 832.

huad þesse adurskriffadur madur Holmfastur matti hier ad valldur vera. Kom þar framm vnder dom lysijng hanz konu og suo vitnesburdur hanns vinnukonu ad hun sagdist haffa skipad piltenum ad fara vpp i Basenn mille nautanna eda jnn j hloduna. Þuij þar mun þig eij kala og ad mier ovitande for þesse pilltur j Burtt. og effter þessum ordum sagdist hun vilia sueria eff þorff giordest. Þuij dæmdum vier henne lirittareijd effter sijnum frammburde og skillde med henne sueria 2 skilrijkar konur. og ad eijdnum vnnum dæmdum vier þennan Holmfast og hans konu skilenn vid þetta maal. Stendur suo j vorre Landzlaga Bok: Eff madur vijsar fatækum manni frä sier og vill eij herbergia hann. og deyr hann firer þad. sa er ad slijku verdur vitnisfastur. sem gud late ønguan verda. þä skal hann Bæta þann mann fullum Botum Erffingia hinns dauda och suo þegn effter skynsamra manna dome og atvijkum. Stendur och suo j audrum stad. ad aller fätæker menn eru skillder ad Bera Born sijn edur annann veg ad flitia effter þvij sem skynsamer menn siä þeir fä jffer orckad. Þuij ad H[eilags] anda nad thil kalladre. ad øllu suo proffudu og fyrir oss komnu dæmdum vier fyrrnefnder domsmenn med fullu doms atkuæde þennan adur skriffadann Jon Jonsson fødur þessa Barns hapt haffua alla aabyr[g]d ä þessu sijnu Barne. suo sem øllum christnum forelldrum Ber och hæffuer sinna Barna. ad giæta og þaug ad vardveita.

Samþickte [þennan vorn dom med oss Adur greindur valldzmann og sette sitt jnnsigle med uorum fyrir þetta domzbrief huert skrifad (var) j Midfelle j Runamannahrepp A sama Are deige sijdar enn fyrr seiger.[1])

---

79. 14. maí 1568. að Hóli.

TRANSSKRIPT sjö bréfa um jarðamál Þorleifs lögmanns Pálssonar.

1) [127; et cetera 788.

AM. Fasc. LXVIII, 14, frumrit transskriptsins á pappír. — Sbr. AM. Apogr. 1066 (m. h. Árna Magnússonar).

[Hér kemr fyrst:
1. Alþingisdómr Erlends lögmanns um Hól í Bolungarvík frá 30. júní 1543.
2. Vitnisburðr Sveins Jónssonar um Hól 2. sept. 1541.
3. Vitnisburðr Jóns Þórarinssonar um sama 2. sept 1541.
4. Vitnisburðr Gríms Jónssonar og Svarts Bjarnasonar um sama efni 17. júní 1542.
5. Vitnisburðr Ólafs Guðmundssonar um sama 2. sept. 1541.
6. Vitnisburðr Tómasar Jónssonar um sama 2. sept. 1541.
7. Alþingisdómr Þorleifs lögmanns Pálssonar um Skálavíkrjarðir (Skálavíkrdómr) 30. júní 1542].

Þath medkiennust wid Gudmundur Helgason og Jon Þorsteinsson at wid haufum sied og yferlesid suo laatande bref ord efter ord med heilum og öskoddum hängandi innsiglum sem þetta bref inne helldur er hier fyrir ofan skrifad er og suo[1]) þat sem hier er nu medfest þessu brefi. Og til sanninda hier vmm setium wid nefnder menn ockur innsigli fyrir þessi bref og suo þessa ockra medkienning huer skrifud war aa Holi i Bolungarwijk þann fiortanda dag maaij mänadar arum Efter Gudz burd[2]) M d lxviij.

---

80. 14. maí 1568. í Kálfholti.

AFHENDING staðarins í Kálfholti í Rangárþingi, þá er síra Jón Jónsson tók við, en síra Símon Jónsson afhenti.

Add. British Museum 11, 245, 4to., bl. 226 a (FM. 402) tekið upp í máldagabók Odds byskups frá 1590.

Kalfhollt.

Anno 1568 þann 14. dag maij manadar afhenti sera Simon Jonsson kirkiunne j Kalfhollte. enn sera Jon Jonsson med tok suo micla peninga [sem hier seiger].

---

1) tvískrifað; nú er ekkert bréf meðfest. 2) Þetta orð vantar í hdr.

Jn primis ornamenta kirkiunnar ein messuklædi. og einn sloppur ermalaus vondur.

Jtem kaleikur. iij. koparpijpur. glodarker. Baksturjarn. ij. kluckur og hin þridia brakud kolflaus.

Jtem ein korbialla.

Jtem met og nockrar bokaskrædur til einskis.

Suo micit j frijdum peningum.

Jn primis .x. kyr og fiogra vetra gamallt naut og ij naut ij vetur. þreuett naut. veturgamallt naut.

Jtem asaudarkugilldi .x. v. sauder gellder þrevetrer. tuævetrer .8. xij veturgamler.

Jtem sex vetra gamall hestur. Annar þrevetur.

Jtem xv aura hross.

Suo micil j ofridu.

vj fiordunga ketill. vndan botninn.

Jtem .v. trog gomul.

Jtem jarnkall litill suo sem skipnagli.

hægindi fullt med sinu.

Jtem var kirkian virt .ixc. skalinn med fiorum sængar stodum og þilium tueimur firir .vc.

Jtem badstofan firir þriu hundrud. Burid firir .ijc. vidernir j stofunne firir .ijc. gaungin og vtidyrnar firir hundrad. Elldaskalinn og husid þar firir .ijc. fiosid og hladan firir .iijc.

Jtem suo margar hurder. Burhurd. badstofuhurd. vtidyrahurd. elldaskalahurd.

Jtem fann eg seirna j kirkiunne ij klucku hrijnga med kopar.

Porcio þess sama ars vod vadmalz og iij alner betur.

---

**81.** 20. eða 21. maí 1568. **á Hóli.**

KAUPLOFORÐ fyrir Laugalandi í Ísafirði.

AM. Apogr. 4725 b, m. h. Hans Beckers „Epter 4 samføstum kalfskinnsbrefum, sem alldri hafa innsiglud vered. Utan ä brefunum stendr þess innehalld med hende Arna Gislasonar (ä Hlidarenda). Brefen eru komin fra Borg i Borgarfirde til Sira Þordar Jonssonar ä stadarstad“. — AM. Apogr. 4727 b m. h. Hans

Beckers „Epter kälfskinnsbrefe sem alldri hefur innsiglad vered‘; utan á það var einnig skrifað m. h. Árna Gíslasonar, og það var einnig komið frá Borg til síra Þórðar á Staðastað.

Þad medkennust[1]) vier Jon Þorhalldzson.[2]) Jon Gudmundzson oc Einar Ellindzson fyrer aullum [godum monnum[3]) þeim sem þetta [vort[3]) bref sia edur heyra. aa Holi i Bolungarvijk þann xvij.[4]) dag Maii [manadar[3]) arum epter gudz burd M d. lx oc viij. vorum vier i hia saum og heyrdum aa ord og handaband þessara manna af eirne alfu Oddz[5]) Jonssonar.[6]) enn af annare Arna[7]) Gislasonar.[6]) at suo fyrir skilldu. at nefndur[8]) Oddur Jonsson lofadi greindum Arna Gislasyne med handsaulum. at hann skylldi eiga kost [aa[3]) at kaupa fyrstur af adur nefndum Oddi Jonssyne jordina alla[8]) Laugarland[9]) er liggur i Kirkiubols kirkiusokn fyrer xujc. nær og þaa Oddur villde selia oc hann liete fyrrnefnda iord fala og þaa Oddur villde greinda jord selia. lofadi [adur nefndur[3]) Arne [Gislason[3]) at giallda tijttnefndum Oddi [Jonssyne[3]) fyrer nefnda jord Laugarland.[9]) xvj.c i þridiungapeningum. i malnytu. gelldum peningum og ofridum [peningum.[3]) suo sem [þeim semdi opttnefndum Arna og Odde.[10]) Og til sannenda hier vm setium vier vor jnnsigle fyrer þetta [vort vitnisburdar[3]) bref huort[11]) skrifat var i sama stad [og aare[12]) .iij. daugum sijdar enn fyrr seiger.

---

82. 21. maí 1568. á Hóli.

VITNISBURÐR um sonu Solveigar Björnsdóttur og Jóns Þorlákssonar eldra, og að Magnús Jónsson hafi verið sonr Jóns Þorlákssonar yngra.

AM. Apogr. 1063 „Ex orig. Sæmundar Magnussonar ä Holi i Bolungarvik“ m. h. Árna Magnússonar. „Þesse vitnisburdr mun

---

1) -unst 4727. 2) Þorlaksson 4727. 3) [sl. 4727. 4) xviij. 4727. 5) -ur 4727. 6) -son 4727. 7) Arne 4727. 8) b. v. 4727. 9) Laugaland 4727. 10) [optnefndum Arna og Odde vel semde sin i mille 4727 11) er 4727. 12) [b. v. 4727.

öefad vera tekin ad forlage Arna Gislasonar. Mier synist og med hendi Arna þad sem annoterad er utan ä honum" (AM.).

Svo felldan vitnisburd ber eg Jon Hauskullson at eg hefi uppalist j Bolungarvik og Skälavïk. svo og var eg vistfastr madr hia Einare heitnum Jonssyne sem bio aa Hole j Bolungarvik. Svo og vissa eg fyrer full sannende at Jon heitinn Jonsson. sonur Jons heitins Þorlakssonar og Solveigar Biornsdottur atte alldri þann son sem Magnus hiet og alldre var honum kendr sa madr at syne sem Magnus hiet. visse eg þo giorla til allra barna Jons Þorlakssonar og Solveigar Biornsdottur. og svo til þeirra barnabarna. Atte Solveig þessa epterskrifada syne med Jone Þorlakssyne. J fyrst[u] Biorn. Einar og Jon. Svo og vissa eg og veit fyrir full sannendi at sa same Magnus sem biskup Augmund skyllde hafa latid dæma erfingia epter Einar heitinn Jonsson. sa same Magnus var sonur Jons heitins Þorlakssonar ens yngra. sem var broder þess Jons Þorlakssonar sem Solveig atte baurnen med. þvi voru þeir brædra syner Einar Jonsson og Magnus Jonsson. en ecki var Magnus brodrsonur[1]) Einars Jonssonar. Svo og var i þann tima er eg var ungur miog margt rætt um þad at nefndur Magnus hefdi ecki skilgetinn verid fyrir þa sauk at fadir hans Jon Þorlaksson hefdi verit j taukune j Skalhollti þaa tekid var ur kirkiunne. þa hefi eg nu xiiij. vetur um sextugt og um þetta fyrrskrifada efni hefi eg alldri heyrt tuimæle leika. Hier eptir vil eg sveria ef þurfa þieker. Og til sannenda hier um sett[1]) eg mitt insigle fyrir þetta bref er skrifat var a Holi j Bolungarvïk þann eirn og xxta dag Majus anno M. D. lx viii. aar.

---

23. 28. maí 1568. á Hóli.

LÝSING lögmála i Laugaból og Laugaland.

A.

AM. Apogr. 4725 b m. h. Hans Beckers eftir 4 samføstum kálf-

1) Svo.

skinnsbréfum (sjá bréf frá 20. eða 21. mai 1568). — Sbr. bréf frá sama degi sama efnis með öðrum hætti.

Þat medkennunst vier Sueinn Jonsson. Jon Þorlaksson. Vilialmur Gudmundzson. Jon Steffnisson og Jon Biarnarson fyrer aullum monnum þeim sem þetta vortt bref sia edur heyra. grannar Arna Gislasonar. at fyrrnefndur Arne Gislason hefur lyst fyrer oss þeim laugmala sem hann hefur lagtt i jordina Laugabol og Laugarland er liggia i Jsafirde i Kirkiubols kirkiusokn. Suo oc hefur greindur Arne lesit fyrer oss þad bref sem hier fyrer ofan skrifat er. oc suo þat bref er nu er med fest þessu voru brefi. huer greindur laugmali innskrifadur er i fyrr nefnd bref. Og til sanninda hier vm setium vier vor jnsigle fyrer þetta medkenningarbref er skrifat var aa Holi i Bolungarvijk þann viij og xxta dag Maij. arum epter gudz burd M d. lx og viij aar.

B.

AM. Apogr. 4728 b, m. h. Hans Beckers „Epter kälfskinnsbrefe sem alldri hefur innsiglad vered. Utan ä brefinu stendur þess innehalld med hendi Arna Gislasonar (ä Hlidarenda). Brefed er komid fra Borg i Borgarfirdi til Sira Þordar Jonssonar ä Stadarstad."

Þat medkennunst vier Sveinn Jonsson. Jon Þorlaksson. Villhialmur Gudmundzson. Jon Stefnisson. Jon Jonsso og Jon Biarnason. grannar Arna Gislasonar. fyrer ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra. a Holi i Bolungaruijk þann xxviij dag Maii arum epter gudz sonar fæding m. d. lxviij. lysti Arne Gislason fyrer os[s] þeim laugmala. er hann hefur lagt i jardirnar Laugaland og Laugaböl er liggur i Jsafirde i Kirkiubols kirkiusokn. Suo og hefur nefndur Arne lesit fyrer oss þau bref sem greindann logmala innihallda. Og thil sanninda hier vm setium vier fyrrskrifader menn vor jnsigli fyrer þetta bref skrifat i sama stad deigie og aare sem fyrr seiger.

84. 29. maí 1568. á Hraksstöðum.

SAMÞYKKI Odds Helgasonar á samningi þeim, er móðir hans hafði gert við Andrés Arason um peninga þá, er faðir hans hafði gefið honum.

Bæjarskjalabók, bls. 117—18, skr. ca. 1730—40 stafrétt eftir frumriti á kálfskinn.

Jhesus.

Þat giore eg Oddur Helgason godum monnum kvnnigt med þessv minv opnv brefi ad eg medkennvnnzt þat at eg helld og samþycki þann giorninng allan stodvgann og mynndvgann sem moder min Sigridur [Andresdotter giordi vit Anndres Arason brodur sinn[1]) vm svmarit ä alþingi þa er danndimenn somdv med þeim sem var vm þaa peninnga sem Are heitenn Andresson fader hans hafdi honum gefit sem þeirra giorningsbref þar um giort jnnehelldr og vtvisar. skulv þær jarder og peninngar aller fri og kuitter fyrir mier og minvm epterkomendvm og adur skrifadur Andres þær hafa og hallda til frials forræðis og fvllrar eignar ævennliga vpp hiedan og hans erfingiar epter hann. Og til sanninda hier vm heinger ec mitt jnncigli fyrir þetta mitt giorningsbref huert er skrifad var ä Hrakstodvm aa Bardastrond laugardæginn næsta epter vppstigningardag vm vorid aarvm epter guds bvrd. M. D. lx. og viij. aar.

---

85. 31. maí og 1. júní 1568. að Ósi.
24. mars og 29. júní 1571. í Ljáskógum.
2. ágúst 1573. í Ljáskógum.

KAUPBRÉF fyrir Skarði í Bjarnarfirði (ágrip).

AM. Apogr. 4737 b, m. h. Árna Magnússonar „Ex tabulis pergamenis Eggerts Sæmundzsonar ä Sæbole ä Jngialldzsande.“

Anno 1568. manudaginn i fardagaviku um vorid a Ose i Steingrimsfirde i Stadarkirkiusokn. selldi Þor-

1) [Svo; rétt: brodurson sinn.

lakur bondi Jonsson Arnore Loptzsyne jordina *Skard* er liggur i Biarnarfirdi i Kalldadarnes kirkiusokn fyrer halft ed tiunda hundrad. med samþycke kvinnu sinnar Kristinar Jndridadottur. itakalaust. Hier i moti gaf Arnor 4. malnytukugillde. og 5½c i fridum peningum og fridvirdtum. Vottar voru Ottar Ottarson. Audun Audunarson og Þorsteinn Þordarson. hverra bref hier um skrifad er i Liarskogum i Laxardalshrepp i Hiardarholltz kirkiu sokn. laugardag næstan fyrir annuciatio Mariæ 1571.

fyrer brefinu hafa alldri nein innsigle vered.

1568. þridiudagen i fardagaviku um vored samþyckti Kristin Jndridadotter kona Þorlaks bonda Jonssonar kaup Arnors a Skardi i Biarnarfirdi er Kristin reiknadi sina heimangiøf ur faudurgardi. *Lagdi optnefnd Kristin Jndridadotter upp allann sinn vedmala sem hun atti a fyrrskrifadri iørdu.* Til sannenda etc. fyrer þetta upplagsbref. Datum Liarskogum føstud. næstan fyrer visitatio Mariæ 1571.

fyrer þetta bref hafa alldri innsigle komed. Vottarner eru fyrer þad skrifader Jon Ottarson og Audun Audunarson.

1573. Sunnud. næstan fyrir Olafsmesso seirne um sumared i Liarskogum i Laxardalshrepp i Hiardarholltzkirkiusokn gaf Þorlakr Jonsson Arnor bonda Loptsson kvittan um alla þa peninga sem Arnor atti honum ad giallda fyrir iørdina Skard i Biarnarfirde. og medkendi sig þä medtekid hafa. 3 vottar voro nalæger. og under þeirra nafne er kvittunarbref giørt loco et die ut supra.

Enn alldri hafa þar fyrer innsigle komid.

---

**86. [í fardögum] 1568.**

SÍRA Bjarni Gíslason lætr af prestskap í Haffjarðarey.

Lbs. 108, 4to., bls. 462 m. h. sira Jóns Halldórssonar í Hítardal, líklega eftir bréfabók Gísla byskups Jónssonar.

Um Hafursfiardar Ey.

Sira Biarne Gijslason hiellt Haffiardar Ey um langaun tijma enn nu i elle sinne sagdest hann ecke geta þar leingur hialpast. og afhendti greindann stad Anno 1568 og þar med iiij kyr og xij ær.

Jtem med Humluholltum Haffiardar Eyar jørdu ij kyr og xij ær.

Þetta høfdu prestarner til aftekta. þar til høfudzmadurinn Johann Bucholt skickade ødruvijs.

---

87. í fardögum 1568.

AFHENDING Staðar i Steingrímsfirði.

JS. 143, 4to., bls. 287, skr. ca. 1600. — Lbs. 108, 4to., bls. 497 (nokkuð stytt).

Stadur j Steingrimsfirdi.

Anno domini 1568 voru suo micler peningar med Stad j Steingrimsfirdi þaa sera Þordur Olafsson afhentti. enn sera Erlendur Þordarson med tok.

Jn primis xiij kyr og xiiij asaudar kugilldi. xij saudir veturgamler jc. iij sauder þreuetrer og iij tuævetrer jc. ij hundradzhestar. ein sleggia. hamar litill. ein kuern gomul og klofrifinn j gegnum. xv trog og xv smakeraulld. eitt storker mathelltt.[1]) annad leckt og gamalltt vantar ä botngiordina et cetera.

---

88. [í fardögum 1568].

1601.

STAÐARAFHENDING á Húsafelli i Borgarfirði, þegar Grímr Jónsson tók við, eftir meðkenningu Jóns Grímssonar.

JS. 143, 4to., bls. 227—8 á pappír, skr. ca. 1628.

---

1) matheilltt, hdr.

Wmm Hwsafellz peninga medkien[n]ing Jonz Grijmssonar Anno. 1601.

Suo mijkla peninga medtok Grijmur Jonsson med Husafelle sem stadnum var ejgnad og hier sejger.

J fyrstu .v. kyr og .v. asaudar kugillde. hross med veturgomlu j hundrad. voru kirkiunne þar af ejgnud .ij. asaudarkugilldi. ejn kyr. og þetta kapla hundrad.

Jnnann stockz. ij. ker. ejtt stockhrof vppgefet .ij. trog mathelld og þridia lasid. ejtt keralld mathelldt. ejrn strockur fänytur .vij. hurder aa jarnum med kyrkiuhurdu. ejtt ketilhrof vtbrentt. enn so ad vexte sem taka munde .ij. fiordunga .ij. bord forn og annad brakad. og þridia matbord. ejrn Rumstockur. med øngre brijk. pallur forn. Einginn beckur. Husn aull lasin.

---

89. [í fardögum] 1568.

AFHENDING Setbergs.

Lbs. 108, 4to., bls. 459—60 (máldagasafn síra Jóns Halldórssonar í Hítardal).

Anno 1568 afgreiddi sira Asmundur Nichulasson ä Sethberge sira Þorde Halldorssyne eins mikla peninga sem hier fyrir framann segir.[1])

Þar vid staddir voru Herra Marteirn Einarsson.
Asmus Søfrinsson.
Sira Asmundur Nichulasson.
Gudmundur Gijslason.
Þordur Jonsson og
Skapte Loptsson.

---

90. 4. júní 1568. á Helgastöðum.

VITNISBURÐR Kolbeins Jónssonar, að hann hafi eigi heyrt né til vitað, að Jón Björnsson hafi gefið Jóni Magnússyni kvittun um umboð fjár síns og systkina sinna.

1) Sjá afhending frá 1566.

AM. Apogr. 4731 b „Ex originali Sira Þorleifs Arnasonar ä Kalfafelli. 2 innsigle hanga vid brefed.“ (AM.).

Þeim godum monnum sem þetta bref sia edur heyra sendum vid Einar Sigurdsson og Olafur Arnason prestar kvediu Gudz oc ockra kunnigt giorandi at arum epter Gudz burd M d lx og viij a Helgastad[1]) j Reykiadal a almenneligu hieradsþingi a friadagin næstan fyrir huijtasunnu sem ed var fiordi dagur Junij vorum vid i hia. oc heyrdum upp a ad sira Sigurdur Jonsson a Greniadarstodum spurdi Kolbein Jonsson þann sem nu byr a Grænavatne huort Kolbeinn hefdi nockurn tima heyrt Jon Biornson brodurson sinn kuittan gefa Jon heitinn Magnusson modurfodur sinn um þa peninga sem Jon Magnusson hafdi haft til umbods oc Joni Biornssyni oc hans syskinum voru epter sinn fodur Sira Biorn heitinn Jonsson skickader af donskum til eignar. enn Kolbeinn adur greindur neitadi oc sagdist alldri heyrt hafa Jon Biornsson nockra kuittan gefit hafa Joni Magnussyni adurnefndum um fyrrskrifada peninga edur nockra adra peninga huorki sinn part þad hann atti oc ei helldur sinna syskina huorki j Skridu ne annarstadar oc ei sagdist hann helldur heima j Skridu verid hafa þa Jon Biornsson var þar. Og til sanninnda hier um setium vid fyrr skrifader prestar ockar jnncigli fyrir þetta ockart vitnisburdarbref er skrifad var .vij. nottum sidar enn fyrr seiger.[2])

---

91. 5. júní 1568. í Múla.

SÍRA Jón Þorleifsson vitnar, að hann hafi lesið skjal um það, að kirkjan í Alviðru ætti jörðina Skaga í Dýrafirði.

AM. Fasc. LVI, 14, frumrit á skinni, og er innsiglið fyrir.

Wittnesburdur sera Jons Þorleifssonar vm Fiallaskaga ad halfkirkiann j Aluidru eigi hann.[3])

---

1) Svo. 2) þ. e. 11. júni. 3) Utan á bréfinu m. gamalli h. (Eggerts).

Jhesus.

Þad giaure eg Jon prestur Þorleifsson godum monnum kunnigtt med þessu minu opnu Brefi: þad ad eg medkennuzt ad eg fann j þeim Brefum sem minn fader Þorleifur heitinn Gudmundzson hafdi med haundum haftt og kaullud uoru Gudmundar Bref suo hliodandi eitt Bref med audrum med þriggia manna jnnsiglum. enn þeirra manna naufn man eg nu ecki. ad kirkian j Aluidru ætti land og jaurdina Skaga j Dyrafirdi. Enn eigi kann eg þad helldur ad muna med hueriv moti hun uære under þessa kirkiu komin. Medkennunzt eg og Jon prestur Þorleifsson ad eg las þetta fyrskrifat Bref med audrum Brefum fleirum þeim sem minn saaligi fader godrar minningar hafdi med haundum haftt og hann hafdi medtekit epter sinn faudur Gudmund heitinn Andriesson og þad til merk[i]s hier um ad þetta fyrgreintt Bref uar Bundit til samans og þad giaurnings Bref med audrum fleirum Brefum sem hlioda vppa giaurninng j millum þeirra Brædra Gudmundar og Ara Andriessona vm Saurbæ a Raudasandi. og hier epter uil eg sueria ef þurfa þicker. Og til sanninda hier um þa festi eg sijra Jon Þorleifsson mitt innsigli fyrir þetta mitt uittnisburdarBref huertt skrifat uar [j Mula[1]) j Kollafirdi þann fimtta dag Junij manadar anno dominj M D lx viij.

---

92. 10. júní 1568. í Kaupmannahöfn.

KONUNGR ritar Hans Nielsen að ferma tvö skip með brennisteini og lýsi norðanlands á Íslandi.

Ríkisskjalasafn Dana, Reg. p. a. L. 10, 531. — Uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 493, 4to. (Laursens ríkisskjalavarðar í þjóðskjalasafni).

Hans Nielsen ij Kiøbenhaffn.

Hanns Nielssøn. kongens kiøbmand. feck breff till

---

1) [tvíritað.

dem for norden paa Island. att ther lade tho skib met suagell oc traun. Datum Haffniæ x junij 68.

---

93. 1. júlí 1568. við Öxará.

LÝSING lögmála í Laugaból og Laugaland í Ísafirði.

AM. Apogr. 4725 b. 4. m. h. Hans Beckers „Epter 4 samføstum kalfskinnsbrefum, sem aldri hafa innsiglud vered“ (sjá bréf frá 20. eða 21. maí 1568). — AM. Apogr. 4729 b, einnig m. h. Hans Beckers „Epter kälfskinsbrefe sem alldri hefur innsiglad vered. Utan ä brefinu stendur þess innehalld med hende Arna Gislasonar (ä Hlidarenda). Brefed er komid frä Borg i Borgarfirdi til Sira Þordar Jonssonar ä Stadarstad.“

Þat medkennust[1]) vid Einar Sigurdzson og Gunlaugur Kodransson fyrer aullum monnum þeim sem þetta ockartt bref sia edur heyra. at[2]) arum eptter gudz burd M. d. lx viij. fimtudaginn næstan[3]) epter Peturs messu og Pals aa almenniligu Auxaraarþinge. vorum vid i hia. saum og heyrdum aa. at Arne Gislason lysti fyrer Paali Vigfussyne laugmanne fyrer[3]) sunnann og austan aa Jslande. [suo og[4]) fyrer Eggertt Hannessyne [er þaa þad aar af lagdí laugmannzdæme fyrer nordan og vestan aa Jslande.[5]) suo og fyrer Orme Stullasyne er [þaa hafdi kongsins bref feingit vppa laugmannzdæmid fyrer[6]) nordan og vestan aa Jslandi. þeim laugmala er [greindur Arne[7]) hafdi lagtt i jardinnar[8]) [Laugabol og Laugaland[9]) er liggia i Jsafirde i Kirkiubols kirkiusokn. [suo og las opttnefndur Arne Gislason fyrer adurgreindum laugmonnum þau bref sem nu eru med fest þessu ockru vittnisburdarbrefe huerier greinder laugmaalar inne skrifader eru i adur nefnd bref.[10]) Vissu vid fyrer full sannendi at adur nefnder laugmenn

---

1) -unst 4729. 2) sl. 4729. 3) b. v. 4729. 4) [saumuleidis 4729. 5) [sem þad fyrer faranda är hafdi laugmadur verid 4729. 6) [þad är kom vt med kongsins bref fyrer laugmannsdæmi 4729. 7) [hann 4729. 8) jordina 4729. 9) [Laugaland og hälft Laugabol 4729. 10) þ. e. bréf frá 20. eða 21. maí 1568, bréf frá 28. maí 1568 og bréf frá 14. maí 1568.

heyrdu þau bædi bref sem tijtt nefndur Arne fyrer þeim las og adur nefnder laugmalar inne skrifader eru.[1]) Og til sanninda hier vm setium vid ockur jnnsigle fyrer þetta [vittnisburdar[1]) bref [skrifat i sama stad[2]) deige og aare sem fyrr seiger.

---

94. 2. júlí 1568. [á Öxarárþingi].

FYRIRMENN landsins á alþingi biðja konung lífsgriða handa Joni Fúsasyni og Kristínu Gisladóttur, móðursystur hans, er gerzt höfðu sek um barneign.

Bibl. Bodl. Oxford, Collect. FM. 55, 4to., bls. 132—4, m. h. sira Guðbrands Jónssonar í Vatnsfirði (d. 1690).

Suplicatia til kongsens Friderichz 2. af Jslande ad þeir Bidia vm lijf fyrer tuær personur sem j Barneignar obotamal eru fallinn.

Haborne Stormegttugaste Nadugaste Herra Herra Friderich Danmerkur. Noregss. Vendiss og Gottiss kongur. hertugi j Slessvijk. Hollstein. Stormarin og Ditmerschen. greijfue j Olldinborg og Delmenhorst. vier eptterskrifader menn Pall Vigfusson. Biorn Þorleijfsson. Halldor Skulason. Petur Þorleijfsson. Pall Eyolfsson. Þorgrijmur Oddsson. Þorbergur Bessason. Magnus Arnason. Þorualldur Biornsson. Jon Biornsson. Arni Gijslason og Gunnar Gijslason jdar verdugustu nadar fatækir vndersatar sem Byggia og Bua a jdru landi Jslandi vilium jdar nadar haugmegttugheijt audmiuklega vndervijsa þaug hormuleg og sargrætileg tijdendi sem hia oss jdrum tatækum vndersatum landss jnbiggiurum nu nylega skied hafa huad med gudss lofi og ydar nadar nefnileg missferli eru ad ij manneskiur af þeirra vngleijka og ogiæfulegri favitsku ad alldri 18 edur 17 vetra gomul huortt vm sig hafa sijn ä milli Brotleg ordid med opinnberlegri Barneign huorra naufn ad eru Jon Fusasson og Kristijn Gijsladotter. huor en sama Kristijn er modursyster nefndss Jonss. Nu fyrer þä greijn

1) [sl. 4729. 2) [er skrifad var vid Auxarä ä sama 4729.

ad jdar ñadar Befalnijngssmann Pall Stijgsson godrar minnijngar liet dom ä alþijngi ganga hier ä Jslandi eptter Riettum landssløgum ad[1]) slijker væri obotamenn er slijktt verk skiedu.[2]) Enn saker þess ad þessar faʀadar manneschiur eru af gödum sleckttum komenn. þo nu fatækumm sier til adstødu hialpar eijgi.[3]) og þui hier fyrir erum vier jdar høgmegttugasta og nadarlegasta milldiheijt[3]) vpp a gudss vegna jnelega og audmiuklega Bidiandi ad jdar stormeckttugheijt villdud fyrir Jesu Christi dauda og pijnu skulld þessar Aumar manneschiur nädarsamlega ad alijta. svo þaug Bædi sijnu lijfi hallda meijgi og þar eptter mætti þaug Bædi til gudss nadar og christilegrar vidurkiennijngar komast. og kunne suo skie ad þessar veslu manneskiur meigi nockra adstodu hier af fä þä vilium vier giarnann eptter voru fatæklegu megne hid Besta til siä med jdar hogmegttugustu nadarsamlegu og lijknsamlegu alijti huoria vægd jdar[4]) nadarleg milldiheijt þar vtij sijna vill huad vier af jdar milldhed audmiuklega og med[5]) voru fatæku hiarttnæmu þacklæti giarnann medtaka villdum og vilium vier jdar nadar fatæker vndersatar eptter voru fremsta lijtilmegni skilldugier. plickttugier Audmiuker vndervorpnijngu med jdar stormeckttugustu nad voru fatæku fadernisslandi til frelsiss og nada. þetta og alltt annad gott þad fremsta forþientt kand[6]) jdar nadar haugmegttugheijdss Bijfalnijngssmann Herich Crag jdar nadar haugmeckttugheijt hier nockud meijri auijsann ä ad giora enn þad vier kunnum nu so ad schrifa. Hier med jdar stormegttugustu näd og jdar[7]) stormegttugustu nadar Regementt erum vier þeim eijnumm eijlijfum. odaudlegum. almattugasta gudi Befalandi Amen. og eptter þess[a]ri vorri Audmiukri Bæn og Begerijng setium vier firrschrifader menn vor jnzigli fyrir þetta Brief er schrifad var Anann dag Julij Arumm eptter gudss burd 1568.

1) og, hdr. 2) Svo = skiedur = hendir. 3) Svo. 4) edur, hdr. 5) b. v.; vantar i hdr. 6) leiðrétt; þaug(!), hdr. 7) leiðrétt; nadar(!), hdr.

95. 2. júlí 1568. á Hvanneyri.

GÍSLI byskup Jónsson fær Hvanneyrarkirkju átölulaust af sér og formönnum dómkirkjunnar þá veiði í Grímsá, sem innsigluð vitnisburðarbréf greina.

Jbsk. AM., Borgarf. 2.

Þad giorum vier Þordur Jonsson. Jon Magnusson prestar. Hallur Olafsson. Þorer Sueinsson leikmenn gödum monnum kunnigt med þessu voru opnu briefe. þann þrettanda dag Maijmänadar ä Hvanneyre vorum vier j hia. saum og heirdum ä. ad herra Gijsle Jonson S[uperintendens] S[kalholts]stiktis til skichade og skipade Einare Eyrekssyne. med fullnadarhandabande ad hafa og hallda þa veide i Grijmzä Hvanneyrarkyrkiu vegna. sem jnnsiglad vitnisburdar brief bäru. Hver at hann biskupenum og oss þar synde äkløgunarlaust fyrer sier og odrum dömkyrkiunnar formonnum. og til sanninnda her umm þrickium vier vor innsigle fyrer þetta vitnisburdarbrief. huort ed giørt og skrifad var in vicitasione dive virginis Marie Arum etc. MDLxviij.

(L S) (L S).

Þetta ad vera riett Coperad eftter originalnum votta underskrifader
Stadastad d. 2 Julij 1703.
Gunnar Eyreksson m e h.
Jon Olaffsson m. e h.

---

96. 2. júlí 1568. á Þingvelli.

HENRIK KRAG staðfestir bréf Páls Stigssonar, dags. 2. júlí 1563, um framfæri uppgefinna presta.

Eftir uppskrift á pappír frá 1607 í þjóðskjalasafninu, gerðri á Hólum. Sbr. bréf frá 2. júlí 1563.

Þad medkiennunst vier Gijsli Jonsson. Superintendens Skalholltzstiktis. Eggert Hanness son og Magnus Jonsson. ad vier vorum þar j hia. säum og heyrdum aa ad hofudzmadurinn Heinrek Krag styrkti og stadfesti med

fullkomligu handabandi vid herra Olaf Biskup ä Holum þad bref og giorning sem hanz salugi broder Pall heitinn Stijgzsson hafdi adur vt gefid med beggia Biskupanna Rädi vm vpphelldi og frammfæri þeirra prestmanna sem vppgefnir og vannfærir kynni ad verda. og vel og truliga hafa stadid j sinni kallann. og ad hann skylldi hallda þui til laga fyrer syslumanni og profasti. ef nockrer villdu þar ecki vel viliugier vnder ganga. Og til sanninda hier vm þryckium vier vor Cignet a þetta bref skrifad ä Þingvelli. in die visitationis Mariæ virginis Anno Domini 1568.

---

97. 2. júlí 1568. á Hvanneyri.

SKIPAN byskups um að halda veiði í Grímsá undir Hvanneyrarkirkju.

AM. Apogr. 1741, eftir uppskrift Páls alþingisskrifara Gíslasonar af Hvanneyrarskjölum. „Þetta bref med tveimur jnnciglum.“

Um veide j Grimsa. Biskups skickun.

Þad giørum vier Þordur Jonsson. Jon Magnusson prestar. Hallur Olafsson. Þorer Sveinsson leikmenn godum monnum kunnugt med þessu voru opnu brefe þann 13 dag Maji mänadar ä HvannEyre vorum vier j hiä saum og heyrdum ä at Herra Gisle Jonsson S[uperintendens] S[kalhollts] Sticktis tilskickade og skipade Einare Eirekssyne med fullnadar handabande ad hafa og hallda þä veide j Grimzä Hvanneyrar kyrkiu vegna sem jnnciglud vitnisburdarbref bäru. hvør ad hann Biskupenum og oss þar synde äklogunarlaust fyrir sier og ødrum domkirkiunnar formønnum. Og til sannenda hier um þrickium vier vor jnnsigle fyrer þetta vitnisburdarbref. hvort ed giort og skrifad var in visitatione divæ virginis Mariæ äre 1568.

---

**98. 6. júlí 1568. á Grenjaðarstöðum.**

KAUPBRÉF fyrir Leifsstöðum í Öxarfirði.

AM. Apogr. 82 „Ex originali fra Sira Skula Þorlakssyne“. Árni lýsir innsiglum. — AM. 255, 4to., bls. 125—6, bréfabók sira Skúla Þorlákssonar, skr. 1687—98.

Kaupbrieff fyrer Leiffstódum j Øxarfirde med þremur hangande jnnciglum 1568.[1])

Þad giorum vier Olafur prestur Arnason. Magnus Biornsson oc Thomas Þorkelsson godum mønnum kunnigt med þessu voru opnu brefi. ad arum epter gudz burd. M. d. lx oc viij. þann iij. dag Iulijmanadar a Greniadarstodum i Adalreijkiadal vorum vier i hia. saum oc heyrdum vppa ord oc handsol þessara manna heidursamligs manns sira Sigurdar Jonssonar af eirne alfu. enn Gunnvarar Jonsdottur af annari. ad suo fyrir skildu ad greind Gunnvor fieck nefndum Sira Sigurdi Jonssyni til fullrar eignar og frials forrædis þa strax alla iordina Leifstadi er liggur i Oxarfirdi i Skinnastada kirkiusokn. huer iord Gunnvor lysti ad komid hefdi fyrir sina mala iord er hun hafdi ur fodurgardi haft med ollum þeim gognum og giædum er greindri iordu Leifstodum fylger oc fylgt hefur ad fornu oc nyu oc henne a med logum framast ad fylgia. lysti Gunnvor þui þa oc. ad þessa iord Leifstadi hefdi hun alldri giofum gefit ne solum sellt oc ei helldur uedsett fyrir nockrum skulldum nockurs manns oc ei helldur samþycki edur leyfi til lagt ad Leifstader þesser skylldi fast edur gefast nockrum manne huorki fyrir skullder þær sem menn þikiast eiga hia Þordi heitnum Peturssyni sem verid hafdi hennar bondi oc ei helldur med nockru odru moti ad fra skildum þeim giorningi sem hun þa giort hafdi vid sira Sigurd oc hun medkendist þa ad hun lofad hefdi ad fa sira Sigurdi fyrrskrifada iord Leifstadi adur enn Þordur heitinn hennar bondi fra fiell. Hier i mot lofadi sira Sigurdur ad taka til uppfædis son Gunnuarar þann sem þar hia oss var uid staddur oc Ion heiter. oc giallda honum þa hann væri xx ara gamall

---

1) 255.

fyrir þessa iord .v. malnytu kugilldi oc iij^c i þarfligum peningum sem i fullum aurum stædi enn þau x hundrud sem Gunnvor reiknade ad epter stædi af Klifshaga verdi oc Þorgerdi hafdi þa avænt verid skylldi sira Sigurdur viij^c af þeim ut giallda Gunnvoru edur hennar umbodsmanne ad næstum fardogum enn fyrrskrifudum Joni elldra syni Gunnvarar skylldi hann giallda ij^c þau sem þa standa epter þa hann utgijlldi Leifstada verd. skylldi sira Sigurdur hallda sinu kaupi Leifstøðum til laga. enn Gunnvor suara lagariftingum. skylldi sira Sigurdur sierdeilis þa eignast hennar mala iord Læknisstadi sem Þordur gefit hafdi fyrir Leifstadi ef hun af honum geinge. Og til sanninda hier um setium vier fyrskrifader menn vor inncigli fyrir þetta bref. er skrifad uar i sama stad oc ari þremur nottum sidar enn fyrr seiger.

---

**99.** 13. júlí 1568. í Haga.

VIDISSE.

AM. Apogr. 1369, m. h. Styrs Þorvaldssonar „Ex orig. Ara Þorkelssonar.“

Jhesus.

Suo felldan vitnisburd beʀ eg Stephan prestur Hallkelsson at ec hefi sied og yferlesit giafabref Sira Magnusar Eyolfssonar med hans heilu og oskauddu jnsigle suo latanda ord epter ord sem hier epter stendr skrifat. Og til meire audsyningar hier um set eg mitt jnsigli nedan fyrir þetta Bref huert ed skrifat var j Haga ä Bardastraund aa þridiudagin næstan epter hinn fiorda sunnudag epter trinitatem anno domini. M. d. lx viij.

[Hér kemr bréf 2. nóv. 1566].

---

**100.** 13. júlí 1568. á Móbergi.

VITNISBURÐR um kvittunarbréf Jóns lögmanns Sigmundssonar.

AM. Apogr. 3980 m. h. Páls Hákonarsonar eftir transskripti á skinni 16. júlí 1568.

Suo felldann vitnisburd ber eg Þorbiorn Skulason ad eg heyrda minn faudur Skula heitinn Gudmundzson. hvers sal gud nadi. optsinnis seigia ad hann hefdi vitad ad Jon heitin Sigmundzson hefdi haft bref med jnsigli enn huort þad var utgefit af kongi edur legata þad sagdist hann ecki mynnast. Sagdist hann hafa heyrt og sied þad og yferlesid sama bref svo hlydanda ad Jon Sigmundzson giordi afbotun fyrer allar þær saker sem hann var borinn af biskup Gottskalk ad þeirre sok fratekinne sem hlyddi um beinbrot Olafs Gudmundzsonar huad Jon hafdi ecki kenst og minn fader sagdi ad Jon Sigmundzson hefdi suarit fyrer fullnadar bokareid ä Sueinstodum. Suo og heyrda eg minn faudur þad seigia ad epter sinu minne og þeim skilningi sem gud hefdi sier gefid. þa hefde hann ecki annad kunnat ad merkia enn þar hefdi inne stadit j fyrrnefndu brefi fullkomleg kuittann allra þeirra saka og aklaganna sem biskup Gottskalk hafdi a Joni Sigmundzsyni. Jtem hafdi og i sama brefi verit saugd skickud og skipud skilgetinn aull born Jons Sigmundzsonar og Biargar Þorualldzdotter.[1]) Og til sanninda hier um set eg greindur Þorbiorn mitt innsigli fyrer þetta vitnisburdarbref skrifat a Mobergi j Langadal 13 dag Julij Anno Domini 1563.

---

**101.** sumarið 1568. á Söndum.
20. febrúar 1570. á Hrafnseyri.

VITNISBURÐR um eign Jóns Jónssonar í garð föður síns, Jóns Þorgilssonar murta.

AM. Apogr. 4758 b „Ex originali, feingnum af Erlendi Jonssyne ä Hvole 1712. innsigled er burtu“ (AM.).

Þad Giaure eg Halldor prestur Einarsson godum

1) Svo.

monnum kunnigt med þessu minu opnu brefi. ad arum epter Gudz hingadburd. M. D dl. viij. um sumarid a Saundum j Dyrafirde. hafde Jon Þorgilsson. sem kendur er murte. svo felldar lysingar. ad þad barn. sem hann atte med Gudrunu heitinne Halldorsdottur. sællrar minningar. sinne logligre ekta kuinnu. og Jon heitir. ad þad sama barn ætti xxc i sinn gard. Lysti fyrrgreindur Jon Þorgilsson þessu mier a heyrandi. og suo fleirum odrum monnum. sem þar uoru þa hia uerande. Hier epter uil eg sveria ef þurfa þiker. Og til sanninda hier um. festi eg mitt jnnsigle fyrer þetta uitnisburdarbref. Skrifad a HrafnsEyre þann tuttugasta dag Februarij manadar. arum epter gudz burd. M. D lxx.

---

**102.** 16. júlí 1568. á Reykjahólum.

SÍRA Þorleifr Björnsson kvittar Pál Jónsson um andvirði Reykhóla.

AM. Apogr. 4732 b „Ex originali Gisla Jonssonar i Mafahlïd. Innsigled hefur hier under vered, enn er nu burtu. Brefed feck eg fra Midhusum, enn gaf þad Gisla Jonssyne. Þetta bref er specimen vitleyses Sira Þorleifs og brellustïls Pals Jonssonar“ (AM.). — AM. Apogr. 1228 „Ex originali Reykholensi in Islandia 1733.“

Frialsviliugur. siälfrädur. oneyddur. öþreyngdur. viela og underhyggiulaust j allann mata kennunnzt eg Þorleifur Biørnsson prestur. at um þann rög. uppaustur. undergrøft. wending. og lygar. sierdeilis um þær þriar .xxc. jarder jtem um þad logleysu ved Biarne Gudmundzson skyllde eiga aa gardinum Reykiahölum aa Reykianese. Jtem vittnesburde er eg sialfur teked og skrifad [hefe] um lysing sira Þordar Olafssonar um jørdina Saurhöl. Jtem um þad incigle er eg atte ad taka frä einum hieradzdome Þollaks Einarssonar. og setia fyrir annan ä alþingi. Jtem um þad samþycke er Pall Jonsson skyllde hafa att ad giefa til þess giørnings er gieck j haust ä Stadarholsþingi et cetera. Eda hvad

annad meira er. hefer Pall Jonsson mier til laga og underfylgeslausum riettlætisdome at eiga optliga bodet og bydur. Nu epter þui at villast. falla. uidurkennazt og upp aptur risa manligt. enn syndgast j at liggia. fram hallda og forsvara fiandligt er. þä jata og lyse eg mig fyrir aullum og einum sierhverium. þetta allt fyrir vondra manna räd umtaulur og aaeggian berlega rangt og alþingis j mote riettlætinu. skynsemenne. logum og brefum. alleina þess vegna giørt. at mætte eg koma kaupe Pals Jonssonar af greindum garde Reykiaholum. sem Gud fyrirgiefe mier og þeim mic upphvatt hafa. so hofum vid Pall Jonsson sættzt aa allar þessar greiner. j þann mäta. ad Pall Jonsson hefer mig fyrir sier og sinum erfingium og epterkomendum kvittann og äkiærulausann gefit med vottum og handsaulum. þo so framt sem eg synda honum og hans varnade hier epter aungvann prett ne kyndugskap. hvat eg hefe lofad. og lofa hier med upp aa mina tru og æru ut j eidz stad at vera honum og hanns kuinnu Helgu Aradottur hollur og trur. þar upp ä hafa þau Pall og Helga lied mier þetta lxa. og uiijda är leigulaust .ij. hluti af stadnum Reykiahölum. med allre kirkiunnar eign. ad undantekinne Staglley. hier med hefer opttnefndur Pall Jonsson innleyst apttur til sin jordina Saurhol epter sinum skilmala j ockru kaupbrefi til skildum. enn utgolldit mier j mina haund hin xuj. dag julij. x. malnytu kugillde gilld og god og ofan aa halfa leigu. ij. naut gelld. fim vetra hvort. fyrir .ccc. bædi. eitt þrevett fyrir .u. agillde. einn hrossakapal fyrir .xu. aura og at haustlagi a eg skilid. ij. saudi gamla. og einn þrevetrann og .vj. veturgamla .j. hundrat og maurk. allt til saman reiknad fyrir xvjc. stendur þä epter af sama jardarverde uiijc j þarflegum penningum til þess at eg vil taka. og honum er hentaugtt. Jtem stendur og epter af gamla giallde .iij. hundrut i gelldum penningum og .ijc. j. daudum penningum og. xxc. jord. Ad þessu golldnu gef eg Pal Jonsson. og hans erfingia og epterkomendur kvittann og aakiærulausann fyrir mier og minum erf-

ingium og epterkomendum um adur greindann gard Reykhöla og verd alþingis. Og til sanninda hier um heinge [eg] mitt ed nyia jncigle nedan fyrir þetta bref. hvert skrifat var .xvj. dag Julij mänadar aa Reykiahölum aa Reykianese. arum epter gudz burd. M. D. Lx. atta. med minne eigin hende skrifad.

---

103. 16. júlí 1568. á Bessastöðum.

TRANSSKRIPTARBRÉF.

AM. Apogr. 3981 m. h. Páls Hákonarsonar eftir transskriptinu á skinni.

Þat medkiennunst vier Gisle Jonsson Superintendens Skalholltz sticktis Gudmundr Þordarson og Grimur Skulason prestar med þessu voru opnu Brefi at vier haufum sied og yferlesed Bref med heilum og hangandi jnnsiglum svo hliodandi ord fyrer ord sem hier fyrer ofan skrifud standa.[1])

Og til sanninda hier vm setium vier vor jnnsigli fyrer þetta Transkriftar Bref. skrifad aa Bessastaudum aa Kongsnesi þann xvj dag Julij Anno et cetera 1568.

---

104. 19. júlí 1568. í Avensö.

KONUNGR ritar Jóhanni Friis og afbiðr, að Stefán Löitz sé í fyrirhugaðri sendisveit frá Póllandskonungi til sín, enda óski hann ekkert við hann að eiga.

Ríkisskjalasafn Dana, Tegn. p. a. L. 10, 118. — Uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 493, 4to. (Laursens ríkisskjalavarðar í þjóðskjalasafni).

---

1) Hér koma þessi bréf um Jón Sigmundsson:
1. Bréf 19. maí 1563.
2. — 15. jan. 1568 á Breiðabólstað.
3. — 15. jan. 1568 á Refsteinsstöðum.
4. — 13. júlí 1568 á Móbergi.

Johann Friess fick breff vt sequitur.
Friderich.

Vor synderlig gunst tiilforn. Wiider. att som y lader giffue tiilkiende om thend legation. som kongen aff Polen achter att lade affuerferdiige hiid ind y rigitt tiill oss oc ij beger att wiide. om vij kunde liide. att Steffan Løytze lod bruge siig ij same schickinge. tha er thenne vor mening. att epther thj koritt ther vdj staar hos oss. see wij heldst. att Løitze bliffue ther som hand er. thj wij inthiid wille haffue med hannom att schaffe. huilkitt wij ether naadigste icke wille forholle. Schriffuitt Auensö 19 Julij a. 68.

---

**105.** **24. júlí 1568.** **á Reykhólum.**

VIDISSE eða transscriptum.

AM. Fasc. LVI, 15, frumtransscriptum á skinni.

Hofudsmanns Samþycke vmm gijfting S[ira] Þorl[eifs].[1])

[Hér kemr:
1. Leyfisbréf Páls Stigssonar 30. júni 1564 (hér ranglega 1566; þá var Páll Stigsson andaðr).
2. Ættleiðslubréf síra Þorleifs Björnssonar til fjögurra barna sinna 13. sept. 1557.

Þat giorum uid Biarne Biornsson. Maggnus Sueinsson godum monnum kunnigtt med þessv ockru opnu brefi at vid havfum sied og heyrtt yferlesinn suo latande bref sem hier fyrir standa skrifud med heilum og oskoddum jnsiglum ord fra orde. Og til sanninda hier vmm heingium vid ockur jncigle fyrer þetta transkriftarbref huert at skrifad war aa Reykiaholum ä Reykianese fiorda og xxa dag Julij arum et cetera. M. d. lx. atta.

---

1) Utan á m. 17. aldar h.

106. 31. júlí 1568. á Kvennabrekku.

GÍSLI byskup Jónsson kvittar Svein Bjarnarson um reikningsskap hálfkirkjunnar á Jörfa í Haukadal.

Uppskrift í þjóðskjalasafninu, staðfest eftir frumriti á Skriðuklaustri þann 27. sept. 1713 af Bessa Guðmundssyni og Þorsteini Sigurðssyni.

Eg Gisle Jonsson superintendens Skalholltz sticktis giore godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefe. Eg medkiennunst at Erligur dandismann Sveirn Biarnarson hefur stadit mier glauggvan og greinugligann Reikningskap sinnar halfkirkiu vegna ä Iorfua af þeirri portio sem aa hefur falled sidan honum bar svari fyrir ad standa. og saükum þess hann hefur fulla forlijkan giort vid mic halfkirkiunnar vegna sem mier vel aanæger. þä gior[e] ec hann og gef aullungis kuittann og akiærulausann fyrir mier og aullum minum epterkomendum Skälholltz domkirkiu formonnum umm adurgreindann Reikningskap. Og i sannleika at svo er þrycki eg minu signete ä þetta bref. Skrifat aa Kvenna-Brecku i Daulum laugarkuelldit fyrir hinn vij. sunnudag epter trinitatis Anno Christi M. d. lx. og viij.

(L. S.)

---

107. 9. ágúst 1568. á Bakka.

KAUPBRÉF fyrir Syðra Vatni í Skagafirði.

AM. Apogr. 4730 b, m. h. Styrs Þorvaldssonar „Ex orig. fra Gunnsteinsstødum.“

Þat giorum vær Brandur Jonsson. Jon Jonsson. Arni Biørnson og annar Jon Jonsson godum monnum kunnugt med þessu voru opnu brefi. at ärum epter Gudz burd M. d. lx. viij. ä Myklabæ i Skagafirdi þridiudagin næstan fyrir Laurentiusmessu[1]) vorum vier hia saum og heyrdum ä ord og handaband Sijra Biarnar Gijslasonar og Jons Magnussonar. svo fyrir skildu. at Jon Magn-

1) þ. e. 3. ág.

usson med jäyrdi oc handsøludu samþycki sinnar kvinnu Bergliotar Þordardottur selldi fyrr nefndum Siera Birni jordina Sydra Vatn i Skagafirdi j Reykia kirkiu sokn med øllum þeim gøgnum og giædum sem greindre jørdu fylger og fylgt hefur at fornu og nyu. Hier i möt gaf fyrsagdur Siera Biorn adurnefndum Joni tuttugu og .ij. hundrud. skylldu þad vera .xij. mälnytu kugilldi. j naut fiøgra vetra. xij saudir veturgamlir. j hross fullordid. og eitt hross veturgamallt fyrir hundrad. lxxx alner sem opttnefndur Jon medkiendist at hann atti at giallda Sira Birni j landskylld. af jørdinni Þorsteinsstødum. og þar til .xl. alner j Büsgagni. Skylldu aller þesser fyrskrifader peningar utgialldast at næstum epterkomandi fardøgum. enn nu j haust fyrer framm skylldi greindur Sijra Biørn utgiallda og afgreida þrattnefndum Joni halft annat hundrat j smiøri. x. aura j hudarskinni. v. saudi gamla. x. saudi veturgamla fyrir hundrat. oc þar til .xij. fiordunga smiørs. skylldi þad smiør utgialldast at ødru sumri næsta epter komanda. hier med lofadi tijttnefndur Sijra Biorn at giefa adurnefndri Bergliotu fatzefni þad sem væri hundradz virdi eda annat fullvirdis hundrad fyrir hennar upplag ä ädurgreindri jørdu. Lofadi oftnefndur Jon at svara lagariftingum ä fyrrgreindri jørdu. enn þrättnefndur Sijra Biorn skylldi hallda til laga. Og til sanninda hier um setium vær vor jnsigli fyrir þetta bref er skrifad var ä Backa j Øxnadal næsta dag fyrir Laurentiusmesso ä sama äre sem fyr seiger.

---

108. 9. ágúst 1568. við Vallalaug.

TYLFTARDÓMR, kvaddr af Ormi lögmanni Sturlusyni, dæmir Þorbjörgu, konu Orms, dóttur Þorleifs Grímssonar, eina erfingja föður síns.

Lbs. 789, 4to., bls. 310—14, skr. ca. 1630. — Lbs. 65, 4to., II, 69—71, m. h. Jóns dans Magnússonar ca. 1640 (upphafi dómsins vikið við). — Ny kgl. Saml. 1945, 4to., bl. 292 b—3 b, m. h.

Hannesar Gunnlaugssonar 1666. — Upphafið einungis er í ÍB. 309, 8vo., bl. 150 b, skr. ca. 1620 (Öxnafellsbók). Sbr. Sýslumannasögur Boga Benediktss. I, 204.

Domur vmm arf eptter Þorleijf heijtinn Grijmsson sem Ormur Stullason villde klaga vegna sinnar kvinnu Þorbiargar.

Aullum gödum monnumm sem þetta Breff sia edur heyra. senndum vier Jon Grijmsson. Olafur Thumasson.[1]) Gottskalck Magnusson. Gottskalck Tummasson. Tume[2]) Þorgrijmsson. Arngrijmur[3]) Jonsson. svarner logriettumenn. Einar Þorarinnsson. Eiulffur Arngrijmsson. Hallur Magnusson. Þordur Þolleijffsson. Grijmur Einarsson og Oddur Halldorsson. kvediu[4]) Gudz og vora. kunnugtt giorannde ad [þa lided var frä hijngadburd vorss liuffa laussnara Jesu Christi[5]) 1568 aar manudaginn næstann fyrir [Laurentius[6])messo vid[7]) Vallalaug j Skagafirde a[8]) þijngstad riettum vorum vier j döm neffnder aff heidursamlegum herra [Orme Stullasyne[9]) logmanne nordan og vestan ä Jslannde til ad skoda. ransaka og fullnadardöm yffer[10]) ad seigia[11]) huorssu fara skyllde su äkiæra er Gudmundur Nikulasson kiærde j loglegu vmmbode Ormss Stullasonar. Enn[12]) hann gaf fyrrneffndum Gudmunde Nikulassyne. til ad sækia arf og peninga kvinnu sinnar Þorbiargar[13]) Þorleijffsdottur. Enn[14]) fyrrneffndur Ormur logmann hielldtt til Erfda falled hafa eptter Þorleijff Grijmsson fodur hennar. sem var Gardurinn Silffrastader i Skagafirde med þeim jordum og peningum sem Branndur Ormsson hielldtt vegna kvinnu sinnar [Hallottu Þorleiffsdottur.[15]) [er hann[16]) hielldtt henne[17]) til erfda falled haffa[18]) eptter fodur sinn Þorleijff Grijmsson.[9]) haffdi fyrrneffndur Branndur

1) 65, 1945; sl. 789. 2) 65, 1945; Tiorve 789. 3) Ásgrímur 1945. 4) kvedia 789. 5) [Anno 65, 1945. 6) Laurentij 1945. 7) [65, 1945; sl. (óvart) 789. 8) ad 65; sl. 1945. 9) [sl. 1945. 10) ad(!) 65; á 1945. 11) leggia 1945. 12) er 65, 1945. 13) 65, 1945; Gudbiargar(!) 789. 14) er 1945. 15 [65, 1945; Halldoru(!) 789. 16) s.l. 65. 17) 65; honum 789. 18) b. v. 65.

lagdtt þessa sømu[1]) kløgun viliuglega til laga[2]) med vottum og hanndsølum til Vallalaugar vid fyrrneffndann Gudmund Nikulasson.

J fyrstu kom þar framm fyrir oss aff hennde Brannds Ormssonar utskrifttar Breff med einu jnnsigle aff þeijm Tylffttardöme. sem Eggertt Hannesson haffdi utneffndtt. og dæma lated i Spialldhaga i Eyafirde. vmm skilgietninng og arftoku Hallottu Þorleijffsdottur. og suo annarra hennar samborinna syskina Barna Þorleijffs Grijmssonar og Solveigar Hallssdottur.[3]) hver suo hliödannde var. ad þeir dæmdtt hoffdu fyrrneffndre Hallottu og hennar sambornumm syskinum allann arff eptter faudur sinn Þorleijff. j huorium döme suo jnne[4]) stöd. ad þeir dæmdu klogun Ormz Stullasonar onyta. og sijdar meijr ecke heyrast meiga. fyrir huøria Greijn Arngrijmur Jonsson logriettumann. sem i fyrrgreindum döme haffdi vered. sagdi nei fyrer og sör fyrir Bokar Eijd oss dömssmonnum ä heyrannde. og sijdann med sex manna döme a alþijnge stadfestur af enumm[5]) sama Eggertt Hannessyne[6]) logmanne. ut neffndur og samþyckttur. Suo og vænndest þrattneffndur Branndur logmannss vrskurde vppa þennann hinn sama Erfdadöm. þott hann ecki valld yffer honumm hefde. og nockrum fleijrum Breffum [et cetera.[7])

Hier j möt framm kom af henndi Gudmundar Nikulassonar vitnisburder[8]) margra skilrijkra manna. sem var äbota Helga Hoskulldssonar gödrar minningar ä Þijngeyrumm. Sera Biarna[9]) Gijslasonar. Sera Þorgijlss[10]) Sigurdssonar. Gijsla Bonda Hakonarsonar. [Magnus Bonda[11]) Biornnssonar.[12]) Olaffs Bonda Ormssonar. og annara fleijre skynsamra[13]) manna. med jnnsiglum. huorier suo bäru. ad Solueig Halldsdotter.[14])

---

1) b. v. 65, 1945. 2) rietta 1945. 3) þ. e. Spjaldhagadómr dæmdr 4. okt. 1558, og bréfaðr á Helgafelli 18. okt. sama ár. 4) 65, 1945; jnn 789. 5) sl. 65. 6) b. v. 65. 7) [b. v. 65. 8) 65, 1945; vittnissburdur 789. 9) Svo 789, 65, 1945. 10) Þorkels 1945. 11) 65; B. 789. 12) [Björns bónda Magnússonar 1945. 13) skilvijssra dändis 65. 14) 789; Hallzdotter 65, 1945.

moder Hallottu og hennar syskina. hefde vered fiormenningur ad skylldugleijka vid Sigrijde Stulladottur Eiginnkvinnu Þorleijffs Grijmssonar. modur Þorbiargar kvinnu Ormss logmannss hoffdu þesser menn aller heyrdtt talda ættina[1]) og sialfer toldu þeir[2]) þennann skylldugleika suo lnie fyrer lnie sem hier seiger.

Jngebiorg Jonzdotter.
hennar dotter Helga.
hennar son Stulle.
hannss dotter Sigrijdur Eiginkvinna Þorleijffs. audru meiginn.
Margret Jonssdotter.
hennar dotter Solveig.
hennar dotter Þurijdur.

hennar dotter Solveig Hallssdotter. moder fyrrskrifadrar Hallottu. og hennar syskina. huorer tueijr af ädurgreindum uottum söru fullnadar Eijd. eptter sijnum jnnsigludum[3]) vittnissburdum vmm fyrrgreijnda meijnbuge. oss nockrum dömssmonnumm [hia støddum og a heyrannde.[4]) sem voru Magnus Biornsson. og Olafur Ormsson. Suo og bar Gudmundur þar framm fyrer oss. ad Þorleijffur Grijmsson hefdi ätt [14 edur 15[5]) Bornn vid somu Solveigu Hallsdottur j þessum mægdaspiollum. j[6]) forbode og frijllulifnade. hvad vier vissum fyrer full sanninde. ad aull þau Bornn er margneffndur[7]) Þorleijffur[8]) ätte vid Solveigu. voru gietinn og fædd fyrr en vorss nädugasta herra kongssinns Ordinantzia var jnn kominn j lannded. awijsar suo [lanndsslaga[9]) bökin j Magnusar kongz[10]) Brefe.[11]) þui ad mycklu vardar þä[12]) sem[13]) thil arfanna kalla. ad þeir sie j loglegum hiuskap gietner. J annare Greijn. Su er hin fyrsta Erfd. er[14]) Bornn skilgietin taka eptter faudur og mödur. skilfeingna. ad Gudss logum og

1) sl. 65, 1945. 2) b. v.; sl. 789, 65, 1945. 3) sl. 65. 4) [ä heirande 65; hjá verandi og á.h. 1945. 5) [65; 14 og 15, 1945; xiiij og xx 789. 6) og 65, 1945. 7) sl. 1945. 8) Grímsson b. v. 1945. 9) løgmäled 65. 10) b. v. 65. 11) [Magnusar bréf 1945. 12) 65, 1945; þeijm 789. 13) 65, 1945; sl. 789. 14) ad 65, 1945.

manna. J þridiu Greijn j siettu Erffd. ad þä tekur frilluson Eirnn edur fleijre. [og ei i hordöme getner edur frændsemiss spiollum. eda sijffiaspiollum nær[1]) meijr enn lofad er ad logumm.[2]) J fiordu Greijn. [ad þann arf skal hafa huor sem Gud vill. [ad hann verde Erfinnge ath.[3]) J fimtu Greijn: þar skal arff dæma sem däinn er. [edur jarder. edur bu hinss dauda.[4]) J annann mata avijsar suo løgmäled: Þad er nu þui næst ad einginn mä sijna frænndkonu. edur siffkonu. fä thil Eignarkonu. edur hafa[5]) ad lijkamss losta. hefur madur frændkonu sijna. edur sifkonu ad[6]) fiorda manne [frä systkinum[7]) ad telia.[8]) þä skulu þau skilia og giallda Biskupe xij aura. og ganga thil skriftta. Jtem[9]) j odrum stad. huor sem sier vill [ad kuonfangi[10]) leijta. þä skal hann[11]) bidia sier konu[12]) med athygle. og gödre forsiä. ad ei sie meijnbuger ä. suo hann vite. J þridia mäta. Ef hiuskapur bindst samann med nockrum meijnbugumm. og er ei lyst eptter løgumm. [edur sijdann dirffest samann ad binnda. er[13]) meijnbuger koma upp[14]) þö[15]) ad þau vite ei. þä skulu þeirra Bornn er suo verda gietinn ologleg vera þui ad þau villdu ei meijnbuge vita, er ei villdu lysa läta. og suo hid sama þeirra Bornn sem bæde vissu meijnbuge i sambannde sijnu. þo ad þad sie ädur giortt med fyrerfarannde lysingumm. J Magnus Breffe stenndur suo: Erfder þær allar[16]) sem thil haffa falled vmm jarda brijgde. vijgaferle og aull aunnur mäl. unnder huorium logum sem þau urdu. þa skulu aull under þeijm[17]) vera sem þa geinngu løg i lannde. er þad[18]) mäl giørdest.[19]) ef ei hefur [ädur løglig[20]) skipan a komed.

Og þui ad upphaffe. ad heilags annda näd med oss thil kalladre. og fyrer þessar allar ädur sagdar greijn-

1) sl. 65. 2) [sl. 1945. 3) [sl. 1945; II sl. 65. 4) [sl. 1945. 5) fá 1945. 6) frä 65. 7) [b. v. 1945. 8) [sl. 789. 9) sl. 65, 1945. 10) [konfängs 65, 1945. 11) 65, 1945; sl. 789. 12) kuonfängs 65. 13) [og sidvana enn 65. 14) upp ä 1945. 13) so 65. 16) b. v. 1945. 17) løgum, b. v. 1945. 18) þau 1945. 19) giordust 1945. 20) [aunnur 65.

er og adrar fleijre. sem j logmälinu standa. og þessum vorum döme meiga til gagnz og bata koma. og ad suo pröfudu og ransokudu og fyrer oss komnu. þä dæmdum vier fyrrnefnder dömssmenn med fullu dömss atkvæde. j fyrstu unnderlaged løglegtt. Og Brannd Ormsson riettilega fyrer kalladann. Enn Þorbiorgu Þolleijffsdottur qvinnu Ormss logmannss einasta[1]) loglegann Erfinngia Þorleijffs Grijmssonar faudur sijnss. og hennar loglegann svaramann riettilega meiga ad sier taka aull þau Gotz faust og laus. sem Branndur Ormmsson medtok vegna kvinnu sinnar Hallottu j arf eptter Þorleijff Grijmsson. Enn fyrir þä Greijn sialff Bökinn suo hliodar. Ef sa madur tekur arf er menn hyggia riettann Erffingia. og profast kyn hannss annad sijdann. þä skal hann greijda Erfingia er þad profast. þad alltt er hann tok i eignum og lausafie. utann lanndskyllder.[2]) edur annann avoxtt. og suo skal huervettna þar sem adrer taka arf af fie. enn riettur Erfinnge. og þeir þottust eiga fyrer þui kyn hannss var villtt. Þui fyrer þessa Greijn logmälssinnz dæmdum Brannde Ormssyne. sinnar kvinnu vegna.[3]) allann abata og avoxtt af þessum[4]) peningum og arfe framann thil næstu fyrer farannde fardaga. Enn þann urskurd sem Branndur vænndest ad læge fyrer ädursøgdum döme. ä Modruvollum j Eyafirde. dæmdum vier [samss aarss[5]) ä kongsinns näder.[6]) og Jon Marteijnsson skylldugann j liöse ad läta. vid Orm logmann.

Samþycktte[7]) þennann vornn döm ädur skrifadur Ormur logmann. Og til sanninda hier vmm setiumm vier fyrrneffnder dömssmenn vor jnnsigle fyrer þetta dömss Breff.[8]) huortt er skrifad var j sama stad. aar og dag sem fyrr seiger.

---

1) eina 65, 1945. 2) 65, 1945; lanndskylld 789. 3) 65; sl. 789, 1945. 4) 65, 1945; þeijm 789. 5) [sl. 1945. 6) näd 1945. 7) hér þrýtr 65. 8) 1945 þrýtr hér.

109. 13. ágúst 1568. í Bæ.

GÍSLI byskup Jónsson kvittar Eggert lögmann Hannesson um reikningsskap Bæjarkirkju um 22 ár.

Bæjarskjalabók, bls. 157—8, skr. ca. 1730—40 stafrétt eftir frumriti á kálfskinn. — AM. Apogr. 1210, einnig eftir frumriti.

Eg Gisle Jonsson Superintendens Skalholltz sticktis. Giore godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefi Eg medkiennunst at heidarligr mann Herra Eggert Hannesson hefur stadit mier glaugguan[1]) og greinugligan Reikningskap sinnar kirkiu vegna Bæiar aa Raudasandi. fyrir næstu forlidin tuo aar og xx. Hefur hann kirkiuna vpp giort alla ad nyium stofni bædi at veggium og vidi. Suo og hefr hann kirkiuna sæmt. fyrst at tueimur maaludum tiolldum. tueimur nyium koparstikum og hialme. hann liet og giora nyiann kaleik burt vr tueimur gomlum er kirkian aadr aatti litlum. Suo og hefr hann latid steypa tuær nyiar kluckur vr tueimur gomlum er kirkiunne aadr til heyrdu. þui fyrir suoddan vppbygging og vidrietting greindrar Bæiar kirkiu. gef eg aadr nefndr herra Gisle fyrr greindan herra Eggert Hannesson aullungis kuittan og aakiærulausann fyrir mier og allum minum epterkomendum laugligum Skalholltz domkirkiu formonnum vm aadr greindan kirkiu Reikningskap. Og til meire stadfestu hier vm set eg mitt jnnscigle fyrir þetta Bref. Skrifat j Bæ aa Raudasandi þann þrettanda dag Augusti. Anno domini 1568.

---

**110. 17. ágúst 1568. á Helgastöðum.**

TYLFTARDÓMR og lögmannsúrskurðr dæma gilt kaup Páls Jónssonar á Reykhólum.

**Frumrit á skinni meðal Reykhólaskjala i þjóðskjalasafninu í Reykjavík. Frumritið er m. h. Páls Jónssonar. Öll (13) innsigli glötuð. — AM. Apogr. 1229 „Ex originali Reykholensi in Islandia 1733“ (frá Ormi Daðasyni). — AM. Apogr. 1409 „Ex**

1) 1210; glauggan Bb.

originali ur Reykiahoola skiølum" m. h. Orms Daðasonar, og er uppskriftin staðfest á Reykhólum 8. febr. 1717 af Ormi og Teiti Eyjólfssyni.

xij manna domur og laugmannz vrskurdur fyrir kaupi aa Reykiaholum med handskrift og samþycki Jons Biornssonar[1]) 1568.[2])

Þeim godum monnum sem þetta bref sea edur heyra Senda Oddur Asmundzson. Jon Ormsson. Benedict Halldorsson. Sygurdr Þorbergzson. Fuse Þorsteinsson. Magnus Kolbeinsson. Erlendr Þorkiellsson. Jon Soluason. Bergr Jonsson. Starkadr Waltirsson. Tummas Kolbeinsson og Biarne Benedictzson. Quediu gudz og sina. kunnigt giorande ad arum eftter Gudz burd. m d lxviij. a þridiudagin næstan Eptter Marie messu hina fyrre huor dagr war hinn 17 uti Augusti manade aa Helgastodum j Reykiadal worum wier j dom nefnder af Orme Stullasyne Logmanne nordan og vestan ä Jslande til ad skoda og ä lita huorsu loglig oss virdtist þau bref og kaup er Pall Jonnsson bar þar framm fyrir oss vm gardinn Reykiahóla a Reÿkianese. J fyrstu kom þar fram fyrir oss j Landzmala Bref vnder ij manna jnnciglum hliodandi ad Sira Þorleifur Biornsson med samþycki Greips Þorleifssonar og Jons Biornssonar handsellde Pale Jonssyne fyrstum kaup ä Reykiaholum ä Reykianese. Jtem eitt grannalysingar Bref. Jtem eitt hieradzlysingarbref. Jtem eitt alþingislysingarbref vnder logmannz jnncigle. Eitt kaupbref med vottum og handsolum og afhending. Jtem hanns Prestsins Sira Þorleifs sialfs medkienningarbref vnder wottanna jnnciglum sama kaup. handsol. og afhending j sier jnne halldande alltt efter þui giort sem wor landzlaga Bok vtvijsar og jnne helldr j landabrigdubælki og kaupabælki. Sierdeilis tilvisar logmalid j landa Brigdum seigiande. Suo er mællt ef madur selur land sitt audrum manne og will leggia ä landzmala þa skulu þeir handsalast vid þann mäla sem þeir werda ä satter og þeim mäla skal lysa fyrir vj gronnum

1) Utan á bréfinu m. h. Páls Jónssonar. 2) m. h. Orms Daða sonar.

sinum og næsta sumar eftter ä alþingi suo ad logmadur heyre. hann skal lysa þeim mäla vmm sinn ä .x. vetrum ä hieradzþingi medan hann lifer. Jtem ef madur will selia land sitt vid verde et cetera.[1]) Jtem huorwetna þar sem menn kaupa jardir eda skiptast vid husum. skipum eda gripum þa skal kaupa med handsolum. wottum ij eda fleirum og med heimilldartokum. Jtem aull þau skilyrde er menn giora j Quennagiptingum suo og ef menn kaupa jardir og fyrir huortt .vc. kaup og meira þa skal huorutueggie giora bref eftter kaupe sino og skildaga og nefna votta sina er wid woru. stund. stad. dag og hafe fyrir jnncigle logmannz eda Syslumannz eda nockra skijlrikra manna þeirra er wissu kaup þeirra et cetera. Þui eftter adr skrifudum logum og þeim fleirum hier ad luta og j logmalino standna. Dæmdum vier adur greinder domzmenn med fullu doms atquæde adur skrifud bref og kaup. nytt. skialligtt og myndugt og eftter riettum texta landzlaga bokarinnar giord wera [ad suo profudu mäle.

Samþyckte þennan worn dom adur nefndur Logmann Ormur Stullason og heingde sitt jnncigle med vorum fyr greindra manna jnnciglum fyrir þetta domsbref huort dæmpt og skrifad var vtij adur sogdum stad äre og deigi [sem] fy[r seiger].[2])

---

111. 17. ágúst 1568. á Helgastöðum.

ORMR lögmaðr Sturluson úrskurðar Meyjarhól eign síra Sigurðar Jónssonar.

AM. Fasc. LVI, 12, frumrit á skinni, sem læst hefir verið með innsigli lögmanns saman við dóm 14. sept. 1567 (LVI, 11). — AM. Apogr. 3862.

Eg Ormur Stullason logmann nordan og uestan a Islandi giori godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefi ad fyrir mic kom sira Sigurdur Jonsson med

1) Sjá Óðalskapitula. 2) [með öðru bleki, en sömu hendi sem hitt.

eirn dom med xij manna inneiglum beiddi mic og krafdi laga urskurd a ad leggia huort ad fyrr sagdur domur skylldi med magt halldast edur eí. hefi eg fyrr sagdan dom med godum monnum rannsakad i ollum sinum greinum. ordum og articulis sem hann utuisar oc inne helldur. huer domur ad mier oc odrum þeim dandi monnum sem ec med mier til kalladi til doms rannsaks alycktar ords oc urskurdar uirdist oss i allan mata myndugur. logligur oc skiæligur oc epter riettu logmali dæmdur hafa uerid og ad heilax anda nad til kalladri mic i domsæti sitiandi og ad ollu suo profudu mali sem nu hefur fyrir mic komit þa seigi ec greindur logmann med þessum minum liosum laga urskurdi fyrr sagdan dom sem þessu minu urskurdarbrefi fylger oc med fest er myndugan. logligan og skiæligan oc uid magt halldast skuli oc blifa med ollum sinum greinum. ordum oc articulis sem hann utuisar og innehelldur og iordina Meyiarhol eign sira Sigurdar Jonssonar þui hun uar anduirdi af biskup Joni utilatin sem domurenn utuisar og uittnisburderner sem eg hefi nu sied oc epter þui ad somu uittnisburder innehallda ad umbodsmenn biskups Jons hafi golldit Solue[i]gu oc umbodsmonnum barnanna ixc i lausafie fyrir iordina Breidauad og suo Meyiarhol þui list mier oc urskurda sem domurenn innehelldur ad Jon Philpusson eigi eignast meigi meira ur Greneuik enn xuic suo sem Meyiarholl er reiknadur enn eign sira Sigurdar i Greneuik xxxiiijc þui iordinn Greneuik reiknast lc. Og til meire audsyningar oc stadfestu hier um festi eg nefndur logmann mitt inncigli fyrir þetta urskurdarbref huert ed giort uar a Helgastodum i Reykiadal a almenneligu þriggia hreppa þingi þann xuij dag augusti arum epter gudz burd M d lx og viij.

---

**112.** **17. ágúst 1568.** **á Helgastöðum.**
LÖGMANNSÚRSKURÐR um skiptabréf sira Lopts Pétrssonar.

Eftir uppskrift m. h. Gísla Konráðssonar eftir uppskrift síra Ketils Jörundssonar, og er hin fyrri nú í þjóðskjalasafni meðal Sælingsdalstunguskjala. Sbr. Dipl. Isl. XII. nr. 496. „Er þetta bréf med einu hanganda jnncigle.“

Eg Ormur Stullason logmann nordan og vestan a Islandi geri godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefi ad fyrir mig hefir komid þad skiptabref med heilu og oskoddu innsigli sira Lopts heitins Peturssonar sem hann hefir skipt sinum peningum eignarskipti med sinum bornum fyrir .xiiij. arum. hvert bref eg hefi innvirdilega skodad og rannsakad. I annari grein kom fyrir mig þad kaupbref og med innsigli sira Lopts heitins og annara godra manna. sem her er med fest. ad greindur sira Loptur hefur selt sira Joni syni sinum halfa jordina Sælingsdalstungu. Hef eg verid bedinn og krafinn a þessi bædi skiptabref og kaupbref ad leggia laga urskurd. hvort þau skylldi med makt haldast edr ei. Hef eg fyrr sogd bref med godum monnum skodad og rannsakad i ollum sinum greinum. ordum og articulis. sem þau utvisa og inni halda. hvert bref ad mer og odrum dandimonnum. sem eg med mer tilkalladi til rannsaks. alyktarords og urskurdar. virdist oss i allan mata myndug. logleg og skialleg og eptir rettu logmali. og ad heilags anda nad tilkalladri mig i domsæti sitiandi og ad ollu svo [profudu] mali. sem nu fyrir mig hefir komid. þa segi eg greindur logmann med þessum minum liosum laga urskurdi fyrsagt skiptabref og þetta kaupbref. sem þessu minu urskurdarbrefi fylgir og med fest er. myndug. logleg og skialleg og med magt haldast skuli bædi og blifa med sinum greinum. ordum og articulis. sem þau utvisa og innihalda. Og til meiri audsyningar og stadfestu her um festi eg nefndur logmann mitt innsigli fyrir þetta mitt urskurdarbref. er gert var a Helgastödum i Reykiadal a almennilegu þriggia hreppa þingi. þann .xvij. Augusti manadar arum eptir guds burd M. d. Lx. viij.

---

**113. 20. ágúst 1568. á Skíðastöðum.**

**MAGNÚS BJÖRNSSON lýsir Reykjareit ævinlega eign Reykja i Tungusveit.**

AM. Apogr. 4135, m. h. Jóns Magnússonar á Sólheimum „Ex originali“ „ä kalfskinn.“

Þat giorum vier Nichülas prestur Þordarson. Tume Þorgrimsson. Þorlakur Jonsson og Sigmundur Hallsson godum monnum kunnügt med þessü vorü opnü brefi at arum epter gudz burd. M. d. lx og viij manüdaginn næstann epter Peturs messo og Pals vm sumarit[1]) a Reykium j Tungusueit vorum vier hia og heyrdum a at Gottskalk Magnusson spurdi faudur sinn Magnus Biornsson huert Reykier ætti þann reit edur eigi sem er j millum Reykiasels og þeirrar ar sem rennur vestan vr Kidaskardi. sagdist fyrnefndur Gottskalk þann reit j ongüann mata yrkia vilia nie neina gagnsmüni af hafa ef hann mætti hann ecki med logum eiga. gaf adur nefndur Magnus sodan suar þar til at hann vissi ecki betur fyrir gudi enn sa sami reitur væri og verit hefdi eign Reykia. enn þo sagdizt hann vilia þad ad nyü stadfesta so þad skillde æfenlig eign Reykia vera þad frekazt hann mætti med logum giora og fieck tittnefndum Gottskalk med handsolum optnefndan reit til fullkomligrar eignar vndan sier og sinum erfingium enn vnder Gottskalk og hans erfingia Reykia vegna enn vndann Mælifelsaa[2]) ef hun mætti þetta land med riettu eiga. var margnefndur Magnus riettur eignarmadur halfrar Mælifellsar j þann tima. for þessi giorningur fram med handsolum oss ollum asiaandi. Og til sannenda hier vm setium vier vor incigli fyrir þetta bref huert skrifat var a Skidastodum fostudagin næstan fyrir Bartholomei vm sumarit sama är sem fyrr seiger.

---

1) þ. e. 5. júlí. 2) Svo.

114. 25. ágúst 1568. á Stórahóli.

ORMR lögmaðr Sturluson úrskurðar hálft Svignaskarð og hálft Sigmundarnes rétta eign Henriks Gerkens.

AM. Fasc. LVI, 16, gömul uppskrift á pappír frá ca. 1600. — AM. Fasc. LXXVI. E,I,6, uppskrift gerð fyrir Árna Magnússon, að því er sýnist m. h. Þórðar Þórðarsonar (orðrétt samhljóða; stafsetning hér eftir LXXVI, E, I,6).

Vrskurdur uppa bref Heinreckx Gerginz Hannessonar.

Eg Ormur Stullason logmann nordann og vestann a Jslandi medkiennist med þessu minu opnu brefi. ad sæker þess ad fyrer mig kom ærlegur mann. Henreck Gerkens Hannesson ä almeniligu þriggia hreppa þingi. j Hiardarhollti i Borgarfirdi. birti fyrer mier og odrum ærligum. visum. forsoktum dandi monnum sin bref. döma. ærlegra manna vitnisburde sem hann hafde fyrer jordunni Svignaskardi halfri. og halfu Sigmundarnesi. Sidan hafde adur nefndur Henreck Gerkens Hannesson stefna latit under sinu nafni og lagaumbodi Ara Ormssyne. med allt sitt prof og skilriki sem honum matti til gagns edur bata koma. i mote þvi tiltale og klogun opt nefnds Henreks Gerkens Hannessonar. ad hann hielldi sina laugliga eign vera halfa[1]) jordina[1]) Svignaskardi.[1]) og Sigmundarnese[1]) halft.[1]) epter þvi kaupi er han[n] hafdi giort vid Jon Gudmundsson. Suo og efter þeim dome. ad Jone Gudmundssyne var til dæmt halft Svignaskard og halft Sigmundarnes til logligrar eignar. Nu fyrer þvi. ad ädurnefndur Are Ormsson kom ecki i adurnefndan stefnudag. var stefnan svaren. og hun sidan logleg dæmd.[2]) og hann þar fyrer retteliga fyrer kalladann. Enn þann heidarlige mann Þorvalldur bonde Biornsson kom þar fram af hendi Ara Ormssonar. med nockur bref og doma. sem adur hafdi framm komit og onyt hefde dæmt verit. og eckert afl nie magt hafa skyllde i moti þeim brefum. domum og vitnisburdum. sem tittnefndur Henreck fyrer somu halfri jord hafde. Wændist fyrrnefndur Þorvalld-

1) Svo bæði. 2) dæmt LVI, 16.

ur odrum brefum sterkare. enn hann þa fram bar. hvar fyrer ad eg adurnefndur Ormur logman til setti dag og stad ä Re[y]nestadar klaustri j Skagafirdi. ä manudagen edur þridiudagen næstan fyrer Mariumesso fyrre.[1]) ad þar skyllde Are þa koma med aull sin prof og skilriki et cetera. Kom titt nefndur Are framm i Skagafirdi. ä Vallalaugar þing. ä sama dag sem honum til sett var. enn eingin gøgn. prof nie skilrike sterkare enn ädur hofdu fyrer mig og adra dandemen fram komit. bevisti hann þar nie synde. Þvi i Guds nafni amen. og ad ollu suo profudu. og fyrer mig komnu. seige eg tittnefndur Ormur Stullason logmann. med fullkomlegum lagaurskurdi. og med bestu manna rade sem þä voru hia mier stadder. aull þau pröf. doma og vitnisburdi. sem Henrick Gerkens Hannesson hefur fyrer allre halfri jordinne Svignaskardi og halfu Sigmundarnese. i allan matta skiallig. loglig og myndug. med aullum sinum greinum og articulis sem þau innehallda. og hans eign vera og verit hafa. sijdan fyrst ad Henrick Gerkens Hannesson keypte optnefnda jord af Jone Gudmundssyne. Saumuleidis optskrifadann Henrick sagda jord riettilega mega ad sier taka. og ä ad setiast nær hann villde og aunguan honum nockra hindran nie mötstødu hier i möte veita mega. enn ef nockur dirfist þad ad giora. þä seige eg þa. epter þvi sem bok vottar. alla ogillda er veria vilia og fyrer standa. enn hinn[a] fridhelga er ä sækia. og þennann minn urskurd af aungum riufast mega. epter þvi sem logbock mæler. utan kongur med bestu manna räde et cetera.

Og til sanninda hier umm. sett[2]) eg mitt incigle fyrer þennann minn lagaurskurd. hver skrifadur var og utgiéfinn ä Sturahole[2]). j Eyiafirde midvikudagenn næstann efter Bartolomei. arnm efter gudz burd M. d. lx. og viij aar.

---

1) þ. e. 9. eða 10. ág. 2) Svo.

115. 27. ágúst 1568. í Haga.

GÍSLI byskup Jónsson kvittar síra Magnús Eyjólfsson um reikningsskap Hagakirkju.

AM. Apogr. 1143 „Ur Storu Transscripto frä Haga ä Bardastrond. giordu 1586" (AM.) 5. mai. — AM. Apogr. 1370, m. h. Styrs Þorvaldssonar „Ex orig. Ara Þorkelssonar". — AM. Apogr. 1385.

Í AM. Apogr. 1385, eru þessar athugasemdir frá Jóni eldra Magnússyni. Er frá 1599.

Kuittaner fyrer portio Haga kirkiu sem eg hefi fundid edur þeir wita ad wænast fyrer sig og sina forelldra sem sagdann gard halldid hafa til þess hann var keyptur af Eggertt Hannessyni. Somuleidis med huorium hætti xc j Nesi eru fra kirkiunni og under kongdominn kominn. Jtem Bref huad hun hefur i stadin teckid og hvorium jofnudi hun hefur nad i þeim wmbytum. Svo er hier og skrifad dätum ars þess sem hann var keyptur af sogdum Eggertt. Jtem aptur selldur af honum Biarna Biornssyne. Jtem minum saluga fodur Magnusi Jonssyni. Jtem nær hann nadi honum aptur aa Alþingi.

Fyrsta kuittun.

[Hér kemr kvittun Stefáns byskups 22. júlí 1504. Dipl. Isl. VII, nr. 660].

Onnur kuittun.

[Hér kemr kvittun Ögmundar byskups 1. sept. 1524. Dipl. Isl. IX. nr. 207].

Hier finst nu ecki ad hun hafi neitt lagtt til kirkiunnar nie hennar Erfingi. hvorki minna hlut nie meira og eingin kvittun synist fyrer þessari portio og þeirri sem a hefur fallid þadan i fra til Datum skrifast M D og xl. onnur enn þessi medkienning Sira Magnusar heitins sonar hennar sem hier epter fylger.

[Hér kemr bréf síra Magnúsar Eyjólfssonar 29. apr. 1540. Dipl. Isl. X. nr. 234].

Hier er nu su min ætlan ad hann muni med fyrer-

skrifudum parti kirkiunnar hafa þeinktt ad kvitta þau 12c sem moder hans var henni skylldug. hellst fyrer þann skulld ad ecki siest hun edur hennar arfar hafi kirkiunni neitt lægid. Þad annad ad eingin kvittun fynst hvorki i þeim briefum sem sagdur sira Magnus hefur af hondum skilad eij helldur vita hans arfar henni ad wænast fyrer þessum 12cm. Þridia bijvijsingin þar til þike mier vera þar hann seiger sijdan hans moder stod hans naad greindrar kirkiu reikning (er eg meina eij stadin hafa werid fraa anna 1524). Jtem hefur hann meintt (ad eg þikiunst merkia) ad kvitta þan portio sem fallid hefur fraa anna 1524. til þess skrifadist 1540 sem brefid hliodar. allt med somu kirkiunnar xcm. hafi nu 12c ätt ad falla i portio aa xx arum þa r[e]iknast ad falla hafi att a hinum xvi til þess fyrer ofanskrifad sijdasta bref er ut gefid hälft tijunda c og xij alner suo ad sagdur sira Magnus hefur þvi med hinum xijcm greindri kirkiu j portio skulldugur verid ijc og xx og xij alner betur. hvad hann hefur þotst kvitta med þessare kirkiunnar eign. j þann mata hann setti henni annan jardar part j stadinn.

Fiorda kuittun fyrer portio utgefin 1568.

[Hér kemr kvittan Gísla byskups Jónssonar 27. ág. 1568].

Þessi kirkiu uppgiord kiemur ecki vid hinu fyrri portio sem aa hafdi fallid ädur helldur fyrer þä sem ä fiell frä 1540 og til 1568. sem r[e]iknast 28 ar.

nu er ad sia nær Hagie var selldur Eggertt.

Eyolfur Elldre selldi halfann Haga xlc ad dyrleika þan 13 Januari[i] maanadar m. d. lxx ära med suo felldri lofun medal annars sem kaupbref Eggertz wottar og hans. Hier med lofadi fyrgreindur Eyolfur hinn elldri greindum Eggertt Hannessyni i fyrrskrifudu kaupi og handabandi ad vera i borgun og svari vid Eggertt Hannesson. ad[1]) hans Erfingia kirkiunnar vegna i Haga um aull haalf kirkiunnar fie þar og R[e]ikning-

1) Svo.

skap sem ad eij væri nu suo golldinn edur stadinn svo ad kirkian þar hefdi sinar fullar og allar tolur af honum edur þeim ødrum sem halldid hofdu gardinn. Enn tijttnefndur Eggertt medkiendist þar nu fyrer oss þad hann hefdi adur i vor ed var medtekid af sira Magnusi Eyolfssyni fyrer allra hond sem þa ätte i Haga kirkiunnar vegna viij kyr gilldar og tiu asaudar kugilldi gilld og tuo fimtan aura kalfa hvor fyrer sig. Og um þetta fyrskrifad gialld sagdi Eggertt Hannesson ad þeir skylldu aller kuitter vera sem þar hefdi þä borid svari fyrer ad hallda. enn mætti greind kirkia meira fie hiä þeim eiga þä giæfi hann ongua kuittun ä fyrr enn þad væri golldid og et cetera.

Í AM. Apogr. 1384 eru athugasemdir einnig frá Jóni eldra Magnússyni, og eru frá 1599.

Þormodur Eyolfsson selldi Eggertt þann 23 Februarij 1570 är 12c i Haga og 9c i Hollti. i þeirra kaupbrefi stendur og suo medal annara orda. Suo og lofadi Þormodur ad vera i svari vid Eggertt og hans Erfingia um þad sem þennan kirkiupartinn þar kynni ad snerta huørt helldur þad væri Reikningskapur edur onnur kirkiufie svo ad kirkiann hefdi ecki sinar fullar tølur feingid.

Eyolfur selldi Magnusson yngri þann 23 Februarij 1570 är Eggert xxc i Haga. i þvi kaupbrefi standa og hinn somu ord ad hann lofar ad svara svo miklu sem a hans part kiemur.

Fyrer einum viijc i Haga siest ecki neitt kaup og er þad hugbod mitt ad Eggert hafi att ad taka þau under sialfum sier. enn svara kirkiunni odrum xcada parti sem jafngodur væri og Nespartur. þui menn bera hier sem til vita ad hann hafi ecki viliad lata sier lijka ixc j Hollti fyrer þennan Nespartt.

Anno 1570 þann 20 Septembris kirkia ad Haga virtt af fiorum prestum og þrimur leikmonnum fyrer viijc.

Anno 1577 epter Mariu Messu sidari um haustid selldi Eggertt Biarna Biornssyni attatige hundrud kaupahlut-

ann j Haga ad tilgreindri allri hennar kirkiu eign. medal hvorrar suo siger ixc i Hollti og xc j fastaeign er greindur Eggertt lofadi ad greida kirkiunne i Haga.

Fyrer þessi xc hefur hann nu sett xc i Tungumula. og hafa att ad koma fyrer xc i Siglunesi. fyrer hvør ad Sira Magnus heitinn skal hønum hafa sett viijc i Haga med þui menn seigia. hann hafi ecki viliad läta sier lijka ixc i Hollti af þvi þau hafi ecki verid kirkiunne suo gagnsom sem xc i Nesi enn fyrer onnur ixc i Hollti sem kirkian alliamtt ätti. hefur hann sett onnur xc j Tungumula. enn hvørtt hann hefur þetta giortt þvi kaup Biarna for framm edur hefur hann þessa jord afreiknad kirkiunni þvi hann afenti minum saluga fodur sina fasta eign og han gaf sinar giafer. veit eg ecki. utan hier er nu um ad dæma hvortt þessi xc i Tungumula skulu jafnvirdi xc j Nesi og hvortt hun skuli þau umskipti suo buid hafa. J ødru lagi hvortt hun skuli helldur eignast Nespart aptur enn eiga riettar heimtur ad Erfingium Eggertz til jafngodrar fasteignar sem Nespartur er. er suo liggie vid ollu þad fyrst hann liet sier saugd viijc i Haga lynda og lijka ef suo reindest ad kirkian hafi ecki feingid halldinn hluta j þessum skiptum.

Anno 1579 þann 13 dag Julij selldi Eggertt minum saluga fodur Hafa[1]) fyrer lxxxc med ollu þui sem saugdum gardi fylgt hafdi ad fornu og nyiu og Eggertt vard fremst eigandi ad. þvi Biarni hafdi eij halldid þann skilmäla ä var skilenn j þui kaupi.

Anno 1580 ar nädi fader minn salugi Haga af Biarna Biornssyni ä alþingi[2]) og sidan hefur Tungumuli verid halldinn eign Hagakirkiu. Han[n] lagdi alldrei til. af þvi han hafdi Nes af konginum Enn hiellt ollum ødrum eignum Eggertz og atti. Hiellt hann þvi Haga uppi xi är edur xij. modur[1]) min epter hann tuo är. enn eg nu vi är.[3]) Kvittaner Eggertz. fodur mins saluga og hennar fyrer portio medan þau hielldu finnast hia

1) Svo. 2) Sjá Alþb. Ísl. I, 407—8. 3) þetta er því frá 1599.

henni. Eg hefi nu ätt hier med uppi vi är og þvi ecki lagtt til þessa kirkiu reiknings ad mier hefur hier kunnigtt til verid.

Eg Gisle Jonsson superintendens Skalhollttz sticktis. giori godum monnum kunnigt med þessu mijno opnu brefi. Eg medkennunst at su froma persona sijra Magnus Eyolfsson hefur mier greiniligann reikningskap stadit sinnar kirkiu vegna Haga ä Bardastrond af þeirri portio sem ä hefur fallid sidan hann feck sina sidusto kuittun. Suo og hefur hann mier fulla sæmd giortt kirkiunnar vegna. sem mier vel likar. þui giori eg oc gief adur skrifadan sira Magnus aullungis kuittann oc äkiærulausann fyrir mier oc ollum minum epterkomendum Skalhollttz domkirkiu laugligum[1]) formonnum vmm adur sagdann kirkiu reikningskap. hafdi adurskrifadur sira Magnus Eyolfsson latid vpp giora kirkiuna at yfirgrind oc vndergrind. oc alltt vr nyum vide. huer at metin var fyrir xijc. Og j sannleika at suo er set eg mitt Signet fyrir þetta kuittunarbref. skrifat j Haga ä Bardastrond þann xxvij dag Augusti Anno m d lx og viij.

---

**116. 28. ágúst 1568. á Stórahóli.**

**ORMR** lögmaðr Sturluson úrskurðar Reykhóla rétta eign Páls Jónssonar.

AM. Apogr. 1230 „Ex originali Reykholensi in Islandia 1733“ (frá Ormi Daðasyni).

Eg Ormur Stullason logmann nordan og vestan aa Jslande. Giore godum monnum kunnigt [med] þessu mino opnu brefe ad fyrer mig köm Pall Jonnsson beidde mig og kraffde vppä Riettarins vegna vrskurd ä leggia huortt þad kaup og bref er hann hafde fyrer Gardinum Reykiaholum aa Reykianese wære eftter logum giørtt.

1) b. v. 1370; formonnum laugligum.

J fyrstu lagde hann framm eitt landzmälabref hlydande ad Sira Þorleifur Biornsson med samþyckie Greips Þorleifssonar og jaayrde Jons Biornssonar handsalade Paale Jonssyne fyrstum kaup ä aullum gardinum Reykiahólum ä Reykianese. Jtem eitt Grannalysingar Bref. Jtem eitt hieradzlysingar Bref ad Berufiardarþinge. Jtem eitt alþingislysingarbref vnder logmannz jnncigle. Jtem eitt kaupbref med wottum. handsolum. og afhending. Jtem hanns prestsins Sijraa Þorleifs medkienningarbref. vnder vottanna jnnciglum sama kaup. handsol og afhending j ser halldande allt eftter þui giortt sem vor landzlagabok jnnehelldur og vt[v]ijsar. Jtem einn xij manna döm saumo bref og kaup med fullu aalycktarorde og doms atkuæde eftter vorum landzlogum stadfestande. Nu þui ad logmälid wottar þad eiga huornn er ad logum kauper. Suo og þad er dömur dæmer og hinns annars ad greindr Päll Jónnsson sama Gard Reykiahöla hefur haftt j heffd og heimilld obrigdann ad laugum eftter sinu kaupe leingr Enn xij manude þad er ar og dag. huoria lagaheffd siallfur textinn landzlaganna æfinliga niöte. vede. landzmala og Erfingium obrigdeliga vrskurdar. Sette ec adur nefndur logmann mig i dömssæte Guddomliga naad ä kallande. og þa vijsustu menn er hia mier voru ʀaadz spyriannde. logmalid ʀannsakande urskurdade ec Ormur logmann eftter fyrskrifudum liosum laganna vrskurde adur ä malgad kaup. og Brief nytt. stadtt. staudugt. myndugt skialligtt og obrigdiliga halldast eiga og Paal Jónsson fyrskrifadan gard Reykiahola ad løgum keyptt hafa. Og til sannenda hier vmm heinge [ec] mitt jnncigle nedan fyrir þetta vrskurdar Bref giortt og urskurdad ad Storahole j Eyafirde aa laugardaginn næstan eftter Bartholomeij dag arum epter Gudz burd Mdlx viij. är.

---

**117. 1. september 1568. á Þingeyrum.**

AFHENDING smjörs á Þingeyrum í hendr Árna Gísla-

syni fyrir smjör, er hann hafði látið af hendi við Pál Stigsson austr í Ási í Holtum.

AM. Apogr. 5601 „Ex originali“ „ä kalfskinn“, m. h. Jóns Magnússonar á Sólheimum.

Þath giorum vier Þorvalldur Biornsson kongz vmbodzmadur i Hunavatzþingi: Einar Sygurdzson. Þorarinn Gijslason. suarner laugriettumenn [kunnigt] fyrir aullum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra ad vær uogum vt þau smior .v. og xl vætter sem Arni Gijslason atti med ad taka og eignast af klaustursins innstædusmiorum a Þijngeyrum fyrir þau smior sem Arni Gijslason fieck heidurligum oc vel burdugum manni Pali heitnum Stiigssyni kongdomzins vegna austur j Asi j Holltamannahrepp: huer greind smior medtekit hafdi Benedikt Petursson sem þa var vmbodzmadur i Vestmannaeyum huad hans bref vtwisar ad hann hefur greind smior medtekit. J fyrstu mælltu vier þau smior sem stodu i þeim reijkningskap sem Arni Gijslason atti ad suara a Þijngeyrum oc hielldu þau sig aull ad hæd og breidd oc leingd epter greindum reikningskap. oc þa vier haufdum nidur veigit riett v oc xl vætter af greindum smiorum þær Arni skylldi medtaka hefur suo micid stytt breidd oc leingd a smiorunum med veniuligre breidd sem hier seijger .v. alner oc vartt vij þumlungum minnur oc gieck þar þa af ii½ vætt oc eigi ij fiordungum meira. Og til sannenda hier vm setium vier fyrrskrifader menn vor jnnsigli fyrir þetta bref huertt ad skrifad war a Þijngeyrum i Vatzdal miduikudaginn næstan epter Decollatio Iohannis vm haustid arum epter gudz burd M d lx viij.

---

**118.** **5. eða 9. sept. 1568. að Munkaþverá.**

**KVITTUN andvirðis hálfs Kaupangs i Kaupangssveit.**

AM. Apogr. 4724 b „Ex originali. innsigled er burtu.“ (AM.). — ÍB. 125 A., 4to., bl. 150, skr. ca. 1690—1700.

Eg Ormur Stullason laugmann nordan og uestan aa Islandi giore ollum viturligt. med þessu minu opnu brefi at eg medkennunst at eg hefi upp borit af Nickulasi bonda Þorsteinssyni fulla alla peninga sem hann uard mier skylldugur fyrir iordina halfa Kaupang j Kaupangssueit er eg hefi honum selltt med iayrdi kuinnu minnar Þorbiargar Þorleifsdottur. þui giori ec og gief adurnefndann mann Nichulas bonda Þorsteinson olldungis kuittann og aakiærulausan fyrir mier og minum erfing[i]um epterkomindum um fyrsagtt halftt iardarverd. Og til sanninda hier vm. set eg mitt jncigli nedan fyrir [þetta] mitt kuittunarbref huertt er skrifad var aa Mukaþueraa j Eyiafijrdi sunnudagin[1]) næstan fyrir Mariomesso seirne vm haustid. arum epter Guds burd m. d. lx. og. atta ar.

---

**119. 6. september 1568. á Hjalteyri.**

ORMR lögmaðr Sturluson úrskurðar gildan Vallholtsdóm 8. maí 1558 og Einari Oddssyni þar með 20 hundruð í Vallholti ytra.

AM. 381. fol., uppskrift á pappír ca. 1570—80 (á sama blaði sem Vallholtsdómr 8. maí 1558). — AM. Apogr. 330.

Eg Ormur Stullason logmann nordan og vestan ä Jslandi medkennj med þessu mijnu opnu brefi. ad fyrir mic kom þann ærligi mann Einar Oddsson med dandimanna domi sem dæmdur var j ytra Vallhollti j Skagafirde a þuj äre 1558. Beiddi mig og krafdi laga vrskurdar yfer þenna dom. huor domur suo jnnihiellt medal annarra logligra greina. ad same domur var dæmdur til logmannz wrskurdar. Huor domur ad mier virtizt logligur og mijndugur j allann mäta. þar hann var dæmdur til logmannz. Þuj j gudz nafni Amen ad ollu suo profudu male wrskurdadi eg þennann dom j allann mäta skiæligan. logligan og mijndugann. og hann

---

1) fimtudæginn, 125 A., og er það 9. sept.

epter logum, dæmdann vera. Þuj wrskurda eg fullkomlegum lagawrskurde Einare Oddssyni .xxc j ytra Vallhollti til logligrar eignar. sinnar kuinno vegna. og sagda ½ jord mega ad sier taka nær hann villdi. og til laga hallda hiedan j frä fyrir huorium manne. og einginn honum motstodu nie hindran veita mega. Enn þeir þad giøra. sie ogillder er fyrir standa. Enn hiner fridhelger er äsækia. Og til meire sanninda hier vmm set ec mitt jnncigli fyrir þenna minn lagawrskurd. wtgefinn og skrifadann aa Hiallteyre. Manudaginn næstann fyrer Mariumessu sijdarj Anno dominj 1568.

---

**120.** **9. september 1568.** **á Melgraseyri.**
**28. mars 1570.** **í Vatnsfirði.**

JÖRÐIN Bæir fengin Jóni Grímssyni af föður hans og tiltekið lausafé til hjúskapar við Hildi Magnúsdóttur.

AM. Apogr. 4733 b, m. h. Magnúsar Einarssonar á Jörfa eftir sjálfu „originalbrefinu, sem er ä kälfskinne", og er uppskriftin staðfest í Skálholti þann 6. febr. 1712 af Árna Magnússyni, Ormi Daðasyni, Páli Hákonarsyni og Magnúsi Einarssyni. „Originalbrefed gaf eg 1712 Þorleifi Arasyne Skolameistara". (AM.).

Jn nomine Domini amen. var so felldur kaupmali stadfestur og yferlystur j bordstofunne a Melgraseyri a fimta dag nærstan epter Mariumessu ena sidari arum epter gudz burd. M. d. lx oc atta ä mille Jons Grimssonar oc hans kvinnu Hilldar Magnusdottur ad Grimur heitinn. hvers sal at gud nadi oc gledie. fader adurnefndz Jons lysti þvi ad hann gæfe þessum sinum syne halfa jørdena Bæie liggjandis j Sogundarfirdi fyrir fimtan hundrut til giptingar. oc ad þar skyllde med fylgia sä skogarpartur halfur sem hann sagdist hafa keyptan til saumu jardar. oc þar ad auk fim hundrut j godum og þarfligum peningum. Hier j moti lysti þvi Jon bondi Einarson. vegna sinnar kuinnu Svanborgar Jonsdottur modur sagdrar Hilldar Magnusdottur ad gæfi hun þessari sinne dottur til heimanmundar motz

vid fyrnefndan Jon Grimsson .vc. enn vegna sin. ad gæfe hann henne ijc. Biarni Magnusson. broder Hilldar. játadi og eirnen. ad villdi hann gefa henni iijc. Eirnen lofadi Jon Grimsson ad gefa Hilldi kvinnu sinne j tilgiøf fiordungsgiøf ur þessum xxc ad undantekinar[1] fastaeign. oc ad skylldi hun so vera til xiiijc malakona j sinn gard. voru þesser epter skrifader menn vid stadder Jon Loptzson prestur. Oddur Jonsson. Jon Gislason til komandi. Jon Biørnsson oc Þorsteinn Jonsson heimamenn a Melgraszeyri oc so aller adursagder. Oc til meiri vissu oc fullrar stadfestu um þenan kaupmala ad hafi hann so giorst oc ecki annars j þad sinne j mille þessara manna. þa vitna slijkt aller hier j þessu brefi greinder. sem sia ma og merkia med þeira hangandi insiglum. var þetta kaupmalabref skrad j Vassfirdi þann þridia dag päska. anno virginei partus M. d. lxx.

---

**121.** **13. september 1568. á Möðruvöllum.**

VITNISBURÐR tveggja manna um það, að oft hafi þeir heyrt lesið upp konungsbréf um skírgetning barna Þorleifs Grímssonar og Solveigar Hallsdóttur.

AM. Apogr. 725 „Ex originali“ „á kalfskinn“, m. h. Jóns Magnússonar á Sólheimum.

Þad giorum uid Jon Jonsson og Kolbeirn Jndridason godum monnum viturligt med þessu ockrü opnü brefi. ad vid hofum opt vid verid. a sied og til heyrtt ad vpp hefur lesid verid bref stormegtügasta herra Christians þess annars[1]) konüngs til Dannmerkur. Noregs. Vindlands. Gautlands med heilü og oskoddü hangande inncigli so hliodandi ad þaü børn. er Þorleifur Grimsson ætti med Soluegü Hallsdottur væri og skylldi vera iafn loglig til skilgietningar og arftauku so sem þau sem nefndur Þorleifur hefdi att vid sinne fyrre kuinnu Sigridi Stulladottur. og ad þetta so j sannleika er. vilium

---

1) Svo.

vid hier epter vppa ockar sal og ærü sueria ef þürfa þikier. Og til sannenda hier vmm setium vid ockar inncigli fyrer þetta brief huert ed skrifat var a Modrüvollum j Eyafirde manüdaginn næstann fyrir krossmesso vmm haüstid. arum epter güdz burd. M. d. lx. og viij.

---

122. 14. september 1568. á Möðruvöllum.

VITNISBURÐR um konungsbréf um skirgetning barna Þorleifs Grímssonar og Solveigar Hallsdóttur.

AM. Apogr. 726, m. h. Jóns Magnússonar á Sólheimum. „Ex originali“ „a pappir“.

Þad giore eg Sigmundur Hallzson godum monnum kunnügt med þessu minü opnü brefi ad eg var heimamadur Þorleifs heitins Grimssonar. güd hans saal nadi og nadat hafi. og heyrda eg hann lesa og lata lesa optsinnis so latandi nadugasta herra kongs Christians bref. ad oll þaü born sem adur nefndur Þorleifur Grimsson hefdi att vid Solüegü Hallsdottur være og skylldi vera iafnframt komen til skilgietningar og erfda sem þau born sem sami Þorleifur Grimsson hefdi att vid Sigride Stülladottur. og hier epter vil eg sueria ef þurfa þikier. Og til meire sanninda hier vmm set eg mitt inncigli fyrir nedan þetta mitt vitnisbürdarbref. skrifat a Modrüvollum j Eyafirdi a krossmesso sialfa vmm haustid arüm epter gudz burd. M. D. lx viij.

---

123. 14. september 1568. í Snóksdal.
1572.

HANNES BJÖRNSSON og Guðrún Ólafsdóttir, kona hans, samþykkja alla þá skipan, sem Steinunn Jónsdóttir hafði gert á eignum sínum, í arfleiðslu og löggjöfum.

AM. Apogr. 5631, m. h. Jóns Magnússonar á Sólheimum „Ex originali“ „ä kalfskinn“.

Þad giori eg Hannes Biornsson godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefi. ad heidarlig kuinna Steinunn Jonsdotter hefur auglist fyrer mier ad sijra Biorn heïtinn Jonsson hefdi giefid sier eitt hundrad hundrada i godum peningum og skilid þa giof vnder sin baurn ef þeim yrdi þeirra aüdit. oc seigist greind Steinunn hafa skipt þeim peningum med sinum arfleiddum baurnum. Magnusi. Joni og Ragneidi. enn vr þui godzi sem Steinunn hefur eigandi ad ordit audru. enn þessu hundrad hundrada þa seigist Steinvn þar hafa giefid af i sinar lauggiæfer audrum sinum baurnum sem eigi eru arfleidd og agreinder peningar suo sem bref þar vm giortt vtuijsar og þui hefi ec greindur Hannes Biornsson med samþycki minnar kuinnu Gudrunar Olaf[s]dottur. lofad med handsolum Steinunne Jondottur ath aklaga alldreijgi greind baurn Steinunnar Jonsdottur og peningagiafer. oc eigi helldur þeirra erfingia nie eptterkomendur huorki fyrr nie seirna. hier i mot viliu vid Gudrun og ec. ad þesse fyrrskrifud baurn Steinunnar sieu ockur til gagns og goda i þui þeim tilheyriligt er. þeim vid mig og ec vid þau. bædi fyʀ og seinna. og ad þessu suo vndertoludu. þa haufum vid Gudrun Olafsdotter samþyck ordit aullum þessum giorninge Steinunnar og aulldungis kuitt giefid fyrer ockur bædi og ockra erfingia. aull baurn Steinunnar Jonsdottur og þeirra erfingia og eptterkomendur vm adurgreindar giafer og peningaskiptti. Og til sannenda hier wm set ec mitt innsigli fyrer þetta medkienningarbref. huert ed skrifad var a krossmessu sialfa vm haustid i Snoxdal i Middølum arum epter gudz burd. M. d. lx. og viij.

Þat medkienunst wier Magnus Gunnsteinsson. Jon Hallsson og Olafur Þorsteinsson. ad þa lidit var fra gudz burd. M. d. lxx.[1]) og ij är i Snogsdal i Middaulum vorum vier þar i hia. saum og heyrdum þar wpp ä ord og handsol þessara manna. Hannesar Biornsson-

1) Lx, Apogr.

ar af einne alfu. oc hanns kuinnu Gudrunar Olafsdotter.[1]) enn Steinunnar Jonsdotter[1]) og Jons Biornssonar. sonar hennar af annare. at suo fyrer skildu ad nefndur Hannes Biornsson. med fullkomlegu. handsoludu jayrdi og samþycki kuinnu sinnar Gudrünar Olafsdotter[1]) stadfeste og nu enn ad nyiu. allann þennann giorning sem hier fyrer ofann stendur skrifadur huern þau Hannes og Gudrun i allann mata medkiendust þau hefdi giort og trulofad. eptter þui sem greint bref vtuijsar og nu enn ad nyiu trulofudu med handsolum bædi Steinunni Jonsdottur og Joni Biornssyni vm alla hennar giorninga Steinunnar og giafer sem hun hafdi giort hingat til dags vid þau born sem hun hafdi att sijra Birne heitnum Jonssyni. Oc til sannenda hier vm setium vier fyʀskrifader menn vor inncigli fyrer þetta vort witnisburdarbref huert giort var og skrifad i sama stad dag[2]) og är. sem fyʀ seiger.

---

**124. 25. september 1568. á Egilsstöðum.**

HÉRAÐSDÓMR dæmir gilt kaup þeirra Vigfúsar Þorsteinssonar og Margrétar Þorvarðsdóttur um Eiða.

AM. Apogr. 4736 b „Ex originali Kristinar Eiʀ[iks]dottur ä Eidum i Utmannasveit". Sbr. bréf 21. sept. 1551 og 8. apr. 1568.

Um Eidastad.

Ollvm monnum þeim sem þetta bref siaa edur heyra senda Eirikur Arnason. Þordur Biornson. AAsbiorn AArnason. Steingrimur Gudmundson nadigazta herra kongzinz eidsvarar. Marchus Jonson oc Nichulas Biornson kvediu gudz og wora kunnigt giorandi at aarum epter wors herra fæding M. vc. lx. viij. aar lavgardaginn næstan fyrir Mickillsmesso vmm haustid aa Eigilstaudum j Fliotsdalshieradi aa almenniligu hieradzþingi vorum vier j dom nefnder af einvm heidurzmnni Einari bonda Eyolfssyni er þa hafdi mins herra

1) Svo. 2) Eingin dagsetning áðr.

kongzinz syslu og vmbod j Mvlaþingi vm þad mal er Wigfvs Þosteinson beiddizt þar doms aa huort oss virtizt þad sama kaup med laugvm giort hafa verid sem hann keypt hafdi af husfru Margretu Þorvardzdottur gardin Eijda j Vtmannasueit og fyrir gefid .lxc. j jordu og avnur .lxc. sem þeim vel samdi og þar vm giord bref med heilvm og oskavddum hangandi jnsiglum vtvijsa. skodavdum vier og Ransaukudum texta bokarinar. og gaatvm þad hvergi fvndit at hvn hefdi ecki þetta sitt matt selia allra hellzt þar hun selldi sinne eigin skilgietini dottur og vnder hennar born so sem brefin til wijsa. [hver bre at þar komv fram j dom fyrir oss.[1]) og at kaupahlutinn j Eydvm skylldi ecki wera meir enn xxxc. enn hun selldi sem dyrzt matti hvn sem war greinda .xxx. hundrada jord fyrir c hundrada sem brefin og þesse domur vt maalar. So og reyndizt þetta kaup eigi vndan erfingium sellt og eigi helldr arfsvik gior vid erfingia og eigi witum vier annad enn slik kaup hafi vmm alldr og æfi fyrir laug gengid. so og reyndizt hun ecki elldri en siotavg kvinna at alldri þa þessi domur gieck en hvn var nær .lx. ära gomvl þa hun sellde heil at wite fyrir vtan allan sivkdom og hvn selldi med ollu oneydd fyrir vtan meina sina þorf. þar med stendur klaarliga skrifad at oll handsaulud mal skulu halldast sem wottar vita og vid er gengid. þvi fyrir þessar greiner og fleiri adrar sem j logmalinv standa gudz og manna og at þessum worvm dome hniga vitvm vier eigi anad sanara fyrir gudi at ollu so profudu og fyrir oss komnu dæmdum vier fyrr greinder domzmenn med fullu domz atkuædi þetta sama kaup myndavgt og skiælligt ævinliga mega standa fyrir ollum og sierhuerivm vmm alldur og æfi hier epter. Og til stadfestu hier vmm samþyckti þennan worn dom adurgreindur kongz vmbodzmann og setti sitt jnsigli med worum jnsiglum fyrir þetta domzbref skrifat j sama stad. deigi og äre sidar[2]) enn fyrr seiger.

---

1) [þetta stóð i frumritinu „ä spatiunne öinnbodad". 2) Svo.

125. 30. september 1568. á Geithellum.

SJÖTTARDÓMR, kvaddr af Páli lögmanni Vigfússyni, dæmir undir álit alþingis vanrækslu Eiríks sýslumanns Árnasonar um þingreið úr sýslu sinni.

AM. Fasc. LXXIV, 3, frumrit á pappír, sem aldrei hafa nein innsigli fyrir komið. Er úr „svarta foliantinum" á Hólum, og hefir á 19. öld borizt að safni Árna Magnússonar. — JS. 214, 4to., bls. 706—8 m. h. Halldórs konrektors Hjálmarssonar ca. 1802 „epter orig. (ad ec hygg) ä pappir, med gamaldags hønd".

Geithellnaᴅomr vm þingreid þeirra fra Austfiordum.

Wier epterskrifader Biorn Þolleifsson. Halldor Skvlason. Jon Eirixsson. Þosteinn Oddsson. Þollakr Fijnsson. Jon Vijgfusson. svarnir laugriettvmenn. giorvm aullum og sierhverivm kvnnigt. at ärvm epter lausnarans fæding. M. vc. lx. viij är fimtudaginn næstan epter Micilsmesso vm haustit ä Geithellvm j Alftafirde ä þingstad riettvm. worvm vier til doms nefnder af þeim froma heidurzmanni herra Päli Wijgfussyne laugmanni svnan oc austan yfer Jslande til at skoda og ʀannsaka og fullnadar doms ätkuæde ä at leggia. hveria makt edur afl at hafa skylldi sw äkiæra er greindur herra Pall laugmann kærdi til Eirikz Ärnasonar og hanz nefndarmanna. at þeir hefdi ecki komit til Auxarärþingz epter laugum. og epter þui at oss og morgum godum monnum virtizt laugmadurin varla wijtalaus afwera at lata slicht laagaleysi[1]) hlydazt at walldzmennerner med aullum sinvm nefndarmonnum skylldi heima sitia og mætti svo laugþingid nidur leggiazt. kongdomurinn og landzmvgin missa sinz ʀiettar. þvi epter margra godra manna ʀädi hafdi greindur laugmann byriad sina ferd til Austfiarda. enn þo vier wijssvm fyrir full sannindi at greindum Eiriki hefdi borid at lata ärliga sin forfaull med logligu profi koma fyrir laugmann til logriettv. þa hafdi þo optnefndur laugmann tittnefndan Eirik og hanz nefndarmenn bodad og skylldat ä þennan þingstad at koma vnder riett ʀannsäk huort

1) „lego: lagaleyse", setr Halldór i hornklofa.

þeirra forfaull profudust nockur lauglig edur eigi. liet hann þau eingin fyrir oss koma þau oss virtizt lauglig. fyzt þar fyrir at hann sendi vmm þingtiman .ij. menn med .v. hesta til Bessastada. og komv vel sinne ferd fram. þotti oss at suo mundi hann med sinvm nefndarmonnum hafa matt sina ferd framkvæma sem þeir. So og kom fyrir oss at nockrir af þeim worv bvner at ʀijda og þar fyrir hamladizt at hann sialfur ecki villdi. enn einn hafdi alldri nefndur verid af honum til oc epter þvi at vier wijssum fyrir full sanindi at þessi forsoman og wandʀækt[1]) hafdi allt for leingi i ofveniu dreigizt þvi þad kann eingin at seigia at þeir hafi aller epter sinne skylldu til logþingis komid edur fyrir neinar äminningar þar vmm viliad at giora. þvi virtizt oss þetta med engri rauksemd farid hafa og miog suo j moti hanz kallan. [og skylldv[2]) enn nv sakier þess at vier þottvnzt eigi mannader til hier fullnadardomz aalychtan aa at leggia. eirnin og upp ä þad at þui sijdur yrdi þeirra svari edur forfaullum fyrirskotid. jtem og þar laugmalid skipar at slikar naudsyniar skuli til kongs ʀita ef walldzmadur kemur ecki til þings epter laugum. þar med og þotti oss wansied huern skada edur þarnan at kongdomurin og landzmugin mä fä af suoddan vand[1])rækt ef slikt skal ostraffad vera. edur og huernin fara skylldi vmm laugmannzins kostnad. ʀeid og omak sem hann neyddizt til sier at giora til Austfiarda fyrir slika þeirra ohlydni. enn þo at liosliga standi j laugmalinu hvad härra saaka at walldzmadurin er sekur fyrir huern þann mann sem onefndur er. edur ʀangnefndur er. þa gätum vier þar ecki uʀ giort huad härra säka at hann skuli sekur vera þar þetta hefur so miog j oveniu dreigizt. enn hvervetna þar sem bok skier ecki skilwijsliga vm þa skal þad vʀ hveriu mali hafa sem laugriettumenn aller verda ä eitt sätter. þui at heilax anda nad tilkalladri at[3]) aullu so profudu og fyrir oss komnv. fyrir þessar laugmalsins grein-

1) Svo. 2) [utanmáls í frumritinu, óinnvísað; sýnist eiga hér við; sleppt í uppskrift Halldórs. 3) tvíritað í frbr.

er og fleire adrar. sem at þessu mali hniga. dæmdum vier greinder domzmenn þessa klaugun um greinda ohlydni til laugriettvnar og alþingis og optnefndan Eirik Ärnason þangat skylldaugan at koma. og þad at hafa og hallda sem laugmalid og laugrettvmanna domur honum ä hendur seigir.

Oc til sanninda hier vm samþychti þennan [vorn dom[1]) adur greindur walldzmadur og setti sitt jnsigli med worvm jnsiglum fyrir þetta domzbref skrifad j sama stad sem fyrr seigier.[2])

---

126. 2. október 1568. á Grenjaðarstöðum.

JARÐASKIPTABRÉF.

Jbsk. AM. Þing. 19, „Sr Sigfus Thorlaxsens document",[3]) eftirrit eftir kálfskinnsbréfi, staðfest af 3 mönnum á Möðruvöllum i Hörgárdal 20. mars 1707.

Copia af kaupbrefe Siera Sigurdar Jonssonar (sal.) fyrir halfre Jørdunne Halldorsstødum j Laxärdal.

Þeim godum monnum sem þetta bref sia edur heyra sendum vid Einar Sigurdsson oc Olafur Arnason prestar kuediu gudz oc ockra. kunnigt giorande ad arum epter gudzburd M. D Lx oc viij a Greniadarstodum i Adalreykiadal. þann sidasta dag Septembris vorum uid hia. saum oc heyrdum vpp a ord oc handsol heidursamligs mans sira Sigurdar Jonssonar af eirne alfu. enn Magnusar Kolbeinssonar af annari. ad so fyrerskildu ad nefndur sira Sigurdur. selldi greindum Magnusi iordina Granastadi er liggur i Kinn i Stadarkirkiusokn med ollu þui er þeirrj jørdu a med løgum ad filgia. med

---

1) [þ. v.; vantar i frbr. og uppskrift Halldórs. 2) Aftan við dóminn ritar Halldór: „Her oc hvar fylgde ec skriftarmátanum, enn ecki nærre þvi allstadar. er likt þvi sem þar hafe vered einhver hangande Signet fyrir, enn ej er ec viss um þad, oc ecki hafa þav morg vered". — Fyrir bréfið hafa sýnilega aldrei komið nein innsigli. 3) Aftan á bréfinu.

þui skilordi ad sira Sigurdur skylldi eiga Logmala i Granastadi oc hun skylldi honum oc hans orfum first seliast fyrir tuttugu hundrud i Lausafie þa hun uæri fol oc þo med þeirri grein ad Magnus skylldj meiga selia Granastadi odrum fyrir xx hundrada iord eina heila enn ei fyrir iardarpart edur med nockru odru moti. oc skylldi sa enn sami Logmali standa vpp i þa iord sem hann tæki uid Granastodum sem þa uar skilinn i Granastadi af sira Sigurdi. Hier i mot gaf greindur Magnus fyrrskrifudum sira Sigurdi halfa iordina Halldorstadi er liggur i Laxardal i Þuerärkirkiusokn. med ollum þeim gognum og giædum oc itolum er þeirri iordu fylgir oc fylgt hefur ad fornu oc nyiu oc henne a framast med logum ad fylgia. med þessum Landamerkium. ad Halldorstadir ætti land uti merkigard þann sem geingur fyrir sunnan vallargardinn a Birnustodum oc sudur i Uidigrøf oc þadan riettsyne i vestur vpp a Huitafell. enn fyrer vtann fellid i Kalfalæk ut a Þeiandadal i þann stora gard sem geingur ur Þorgerdarfialli. þar nær sem fyrst sier Greniadarstad. Listi Magnus ad þridia part af þessum halfum Halldorstodum hefdi hann erft eptir eirn sinn son. skylldi huor strax eignast þa iord sem huor keypti oc hallda til Laga. enn sira Sigurdur suara lagariptingum a Granastodum med annari xx hundrada iordu ef hun af geingi. enn geingi Halldorstadir af sira Sigurdi edur hans epterkomendum med logum suo ad ei klogudu vppa epterkomendur edur arfar Þrudar heitinnar Benedictsdottur sem att hafdi greinda halfa Halldorstadi þa skylldi sira Sigurdur oc hans epterkomendur eignast oc meiga ad sier taka iordina Hauskulldstadi oc Þyrnishol er liggia i Reykiadal. þui Magnus vændist ad þær badar iarder hefdi komid fyrir alla Halldorstadi. oc þann allan laga adgang skylldi sira Sigurdur eiga sem Magnus Kolbeinsson oc hans kuinna Þrudur heitinn adurskrifud epter inneigludum briefum atti til Hauskulldstada oc Þyrnishols ef Halldorstader hefdi af þeim geingit. enn ef Halldorstadir geingi af sira Sigurdi edur hans

epterkomendum suo ad born edur epterkomendur Þrudar heitinnar Benidictsdottur fyrrskrifadrar vpp a teldi þa skylldi sira Sigurdur oc hans epterkomendur suo mikit eignast vppi tittnefnda iord Granastadi sem aptur geingi fyrir þeirra aklogun vr optnefndum Halldorstodum. Lysti Magnus Kolbeinsson oc fyrir ockur ad hann feingit hefdi til fullrar eignar oc feingi þä enn. optskrifudum sira Sigurdi þann logmala sem hann att hafdi i þrattnefndum halfum Halldorstodum oc Kristin sier adur feingit hafdi. Og til sanninda hier vm setium vid fyrrnefndir menn Sigurdur prestur Jonsson og Magnus Kolbeinsson ockar inncigli med fyrrskrifadra presta inncíglum fyrir þetta kaupbref er giort uar i sama stad tueim nottum sidar enn fyrr sciger.

---

127. [eftir 2. okt. 1568. á Grenjaðarstöðum.]

BROT úr kaupbréfi fyrir hálfum Halldórsstöðum í Laxárdal.

Frumrit í þjóðskjalasafni meðal Halldórsstaðaskjala. Þrjú innsiglaför eru á bréfinu.

stade i Laxardal i Þucrar kirkiu sokn med ollum þeim gognum og giædum. eignum oc itolum i iordu oc a sem greindri halfri iordu fylger oc fylgt hefur ad fornu oc nyu oc henne a framast med logum ad fylgia oc Kristin uard fremst eigandi ad. lysti Kristin ad Halldorstader ætti land uti merkigard þann sem geingur fyrir sunnan uallargardin a Birnnustodum oc sudur i Uidigrøf oc þadan riettsyne i uestur uppa Huitafell enn fyrir utan fellid i Kalfalæk ut a Þeiandadal i þann stora gard sem geingur ur Þorgerdarfialli þar nær sem fyrst sier Greiniadarstadi. hier i mot lofadi sira Sigurdur ad gefa Kristinu xx hundrud i lausafie med suodan fridleika og kugillda fiolda oc ollum þeim skilmala sem þad logmalabref inne helldur sem giort hafdi uerid a milli Magnusar Kolbeinssonar oc adur skrifadrar Kristinar. þui Sira Sigurdur þad fram bar ad

greindur Magnus sier til eignar feingit hefdi þann logmala sem hann atti i halfum Halldorstodum. þar fyrir lofadi sira Sigurdur ad suara þui ollu Kristinu sem Magnus Kolbeinsson epter greindu logmalabrefi uar sk[ylldugur] ad suara fyrir opt nefnda iord halfa Halldorstadi. Skylldi sira Sigurdur strax eignast titt nefnda halfa iord. enn ad sier taka ad næstum fardogum. Enn geingi optskrifud iord Halldorstader af med logum þa skylldi sira Sigurdur oc hans epterkomendur eignast og meiga ad sier taka iordina Hauskulldstadi i Reykiadal oc Þyrnishol þui Benedict heitinn bondi Kristinar hafdi þær badar iarder gefit fyrer alla Halldorstadi sem morgum er kunnigt. atti sira Sigurdur ad giallda Olafi syni Kristinar halft ed niunda kugillde oc atta agilldi i smiorum af þeim xx hundrudum sem hann hafdi Kristinu lofad fyrir þratt nefnda iord Halldorstadi enn Olafur samþyckti med handsolum oss asiaandi allan fyrr skrifadan kaupskap sinnar modur þui hann uar uid staddur þennan giorning. Og til sanninda hier um setium uier adur skrifader menn uor inncigli fyrir þetta bref er giort uar i sama stad xij nottum sidar enn fyrr seiger.

Utan á bréfinu stendr m. h. samtímis:

[Bref fyrir] Halldorstodum
halfum er Kristin sellde.

Þá kemr utan á bréfinu enn:

a við tolub. 6.

Framlagt i merkjadómi á Halldórsstöðum 16. júni 1887.
B. Sveinsson.
Nr. 6 framlagt i yfirdómi 2⁹/₆ 1888.
Kristján Jónsson.

---

128. 20. nóvember 1568. í Vallanesi.

UPPGJÖF á tilkalli til hálfra Skjöldólfsstaða.

AM. Apogr. 4322, m. h. Styrs Þorvaldssonar „Ex orig. Petrs Asmundzsonar.“

Jhesus.

Þat giøri eg Magnus prestur Þosteinsson øllum kristnum monnum kunnigt i þessu minu opnu brefi. at eg hefi gefit og upplagt i valld heidursamligrar dandi kvinnu Gudrijdar Þosteinsdottur þad tilkall. sem eg ätti edur eignazt mätti j halfre jørdunni Skiølldolfsstødum j Hofteigsþingä epter mïna modur Margretu Asgrimsdottir.[1]) Gud hennar säl nädi. hefur hun giort mier forlijkan þa mier vel lynder og lijkar fyrir greinda jardarkløgun og landeign. þvi gef ec og giøri fyr nefnda heidurskvinnu kvitta og äkærulausa. sømuleidis og Erfingia Biarna bonda Ellindzsonar godrar minningar af mier og øllum mijnum Eptirkomandi ørfum og nidium fyrir ädurritada landeign og tilkall. Voru þessir vottar vidstaddir ockar giørning og handsol. Sijra Bardur Ormsson og Einar Jonsson setiandi sijn jnsigli med minu jnsigle fyrir þetta kvittunarbref. Skrifat a Vallanesstad næsta dag fyrir Presentacionem beate Marie virginis. a sama ari og greindur Giorningur for[2]) framm ä Ketilstødum viku fyrir veturnætur[3]) ärum epter Jhesu Christi fæding m. d. lx. og viij.

---

**129. 21. nóvember 1568. á Hofi.**
**1. febrúar 1569.**

KAUPMÁLABRÉF Bjarna Sturlusonar og Ingibjargar Pálsdóttur.

AM. 199, 4to., bls. 129—30, uppskrift fyrir Jón lögmann Jónsson um 1604.

Kaupmalabref Biarna og Ijngebiargar.

Jn nomine domini amen.

lystist og stadfestist suo felldur kaupmali a Hofe a Hofdastraund. sunnudaginn næstan epter Seceliumesso vmm veturinn a Brudlaupzdeigi Biarna Stullasonar og Jngebiargar Palsdotter. War þa lidit fra Gudz burd

---

1) Svo. 2) var, Apogr. 3) þ. e. kringum 9.—10. okt.

M. D. Lx og viij är ad suo fyrirskijlldu[1]) ad Margriet Ellendzdotter gaf dottur sinne Jngibjorgu Palsdottur jordina Hraun j Vnudal j sijnar loggiafer med samþycki hennar Bonda Palz Grijmssonar. Enn ytre Brecku a Hofdastraund j heimannmund. Suo og auglysti Pall Grijmsson fyrir oss med jnnsigludu brefi. ad sijn kuinna Margriet Ellindzdotter ætti .ij$^{c}$. hundrada j sinn mala med sinne tilgiof lx hundrud j Hofe. hier j mot taldi fyrnefndur Biarne sier jordina halfa ytra Vallholtt j Skagafijrde fyrir xx$^{c}$ og Stafn j Deilldardal fyrir xx$^{c}$ og þar til xl$^{c}$. j audrum peningum. Gaf Biarne Jngebiorgu Palsdottur jordina Stafn j tilgiof og sijna loggiof. Suo og skyllde Pall Grimzson dottur sijna Ijngibiorgu malakonu epter fyrsogdum skilmala festi Biarne Stullason Jngibiorgu Palsdotter.[2]) logliga epter bokarinnar ordum. Worum vier þesser epterskrifader menn vidstadder allánn fyrskrifadann giorning. Kär Sæmundarson. Jon Olafsson. Helgi Þorsteinsson. Jon Gunnlaugsson. Eifindur Magnusson. Wigfus Brandzson. Og til sanninda hier vmm setium vier fyrrnefnder menn vor jnnsijgle fyrer þetta kaupmala Bref. huortt skrifad var a Hofi a Hofdastraund næstann dag fyrir purifiationem Mariæ äre sijdar enn fyrr seger.

---

**130.** **26. nóvember 1568.** **að Skarði.**

JARÐASKIPTABRÉF.

**AM. Apogr. 4738 b. III. Eftir frumriti á kálfskinni. Árni segir til innsigla.**

Þad giorum vier Sygurdur Þormodzson. Magnus Gunnsteinsson.. Olafur Þosteinsson. Gudmundur Stephansson. Brandur Sveinsson og Jon Jonsson godum mønnum kunnugt med þessu voru opnu brefe þä lidit var frä hingadburd vors herra Jesu Christi M. D. lx og viij är. ä Skardi i Langadal fostudaginn næstann

---

1) skijlldum, hdr. 2) Svo.

fyrer Andresmesso um veturinn þar j kirkiunne heyrdum vier. og säum ord og handsol sira Biarnar Gislasonar og Þorvalldz Biornssonar med so felldum skilmäla ad Þorvalldur sellde sira Birne jordena alla Æsustade j Eyiafirdi tiutugier hundrada ad dyrleika. sem liggur nu i Mødruvalla kirkiusokn med ollum þeim gognum og giædum sem greindri jaurdu ä med laugum ad fylgia til ysto ummerkia annara manna epter þvi sem Þorvalldur var frekast eignarmadur ad ordinn: undan sier og sinum erfingium. enn under sira Biørn og hanns erfingia til friäls forrædis og fullrar eignar. Hier j möt gaf og lofadi greindur Sira Biorn Gislason nefndum Þorvallde Biornssyne so heitande jarder. halft Breidavad fimm hundrud og xx fyrer ein tuttugo hundrud. þui hun var miog spillt ad husum og todum. liggur su jord j Holltastada kirkiosokn. hier med jordena hid sydra Vatn j Skagafirdi i Mælefellzkirkiosokn tuttugu hundrud ad dyrleika og hier til ryfbygda tuttugu hundrada jørd fyrer hundrad auk tiunda. og skylldi gialldast i Hunavatzþingi so framt sem sira Biorn feinge hana þar til kaups. ella j Skagafirde feingi hann hana ecke i Hunavatzþinge. enn lofadi ad giallda af henne eitt gott hundrad ärlega auk tiunda þar til hun være greidd. sellde presturenn med aullo þessar jarder med aullum þeim gaugnum og giædum sem greindum jordum ä med logum ad fylgia epter þvi sem sira Biorn var fremst eignarmadur ad ordinn til ysto ummerkia annara manna. undan sier og sinum erfingium enn under Þorvalld og hanns epterkomendur til friäls forrædis og fullrar eignar. hier ad auke ein fimtän mälnytu kugillde og skylldu greidast ad næstum fardøgum i Skagafirde eda Hunavatzþinge og hier til þriätige vætter smiors. reiknast þetta jardarverd fimtan hundrud og ättatige. enn Þorvalldur selldi iordena ur gomlum kaupahluta um ein fimm hundrud. lofadi sira Biorn Gislason Þorvalldi Biornssyni ad greida Sira Magnusi Magnussyni þessar ädurgreindar þriär tuttugo hundrada jarder og gilld fimtan kugilldi med þui skilordi ad sira

Biorn atti ad svara sira Magnusi eda Gudrunu Þorleifsdöttur og hennar erfingium aullum lagariptingum ä þessum jordum j audrum utjordum. enn ecke uppi Æsustade. enn sira Magnus og Gudrun Þorleifs[dotter] eda hennar erfingiar halldi til laga. enn Þorvalldur Biornzson vid skildur og hanns erfingiar. Liet sira Magnus sier þetta vel lïka. og hier med skulldskeytti optnefndur Þorvalldur margnefnda presta saman epter logum. og lauk so þeirre skulld sier af hende. Jørdunne Æsustodum ätti sira Biorn til laga hallda enn Þorvalldur honum lagariptingum svara.

för allur þesse giørningur framm epter logbökarinnar ordum suo sem gomul og logleg jardakaupsbref innehallda og fyrrnefndur skilmäle.

Og til sannenda hier umm setium vier fyrrnefnder kaupvottar vor innsigli fyrer þetta jardakaupabref skrifad i Stafhollte j Borgarfirde ä sama äre sem fyrr seigier.

---

**131.** 27. nóvember 1568. **á Torfastöðum.**
VITNISBURÐR um landamerki Úteyjar.

AM. 261, 4to., bls. 68—70, skrifað 1611 fyrir Odd byskup. — AM. 258, 4to., bls. 185—7 m. h. Hákonar Ormssonar 1643.

Vitnisburdur[1]) vmm Vteyar Landamercke.

Þad medkiennist eg Jon Þördarson. ad minn fader Þordur kom til Vteyar og bio þar vj är. eg epter hann vj ar og xl. þä heyrda eg ad ellster menn hofdu sagtt. ad þesse være lanndamerke j millum Vteyar og Grafar. J fyrstu fra Hölmavade og vt med änne. og vppj Eyarskygner. vt epter þuj Griotgile, sem geingur vpp ad þessum Skygner. Vr Skijgner og j þad griotgil. sem fyrer ofann hölenn geingur fyrer nedann Eyvindartungu. og j äna þa sem rennur j Laugarvatn. Enn sa gardur sem geingur yfer vmm þuera Tunguna. hafa menn halldid vordslugard. enn øngvann landamerckia Gard. Jtem

1) Breff 258.

j mille Eyanna skyllde landamerke vera. Vr Jllaös og vpp j Midvad j Hölaä. Jtem lyste eg þuj adur nefndur Jon Þordarson ad suo bar til einu sinne. ad eg beitta mijnu fie vmm vetrar dag vpp j þessa tungu. Bio þä Jon Tejtsson j Grøf. og fann ad þessare beit miøg fast. suo ad eg ætlade ad rijda hejm j Skalholltt. og seigia til mijnum husbændum. atte þä Sigurdur hejtinn Eigilsson Grøf. og bad mig huurge ad fara. þuj þetta þijrftte ecke suo hätt ad komast. huad eg giorda. og. ad eg för huurge. Suo og lyse eg þuj saukum minnar lijtilmensku. enn störmensku þeirra sem j hlut ättu. þä naut eg ecke þessarar tungu. enda hafde eg ongvann dugnad til henne ad hallda. Jtem var og suo halldid. ad Vtey atte skögarhogg j Kietilvallatorfu j Snorrastadar landeign. Enn Snorrastader attu v kapla beit a vetur j Vteyarland. Suo og eingiatak j Merkurgierde. Veit eg ecke sannara epter minne samuitsku. Enn suo hafe halldid verid sem nu hefe eg borid. ad þesse fyrrsangd tunga frä gardenum og vpp vnder Skygner være Uteyar eign.

Þad medkiennunst vid Magnus Olafsson og Arne Jonsson. ad vid heyrdum Jon Þordarson hafde suoddann lysing vmm landamercke krijngum Vtey. ord fyrir ord sem hier fyrir ofann skrifad stendur. heyrdu hier vppä hanz eiginn son Simon. og suo Gudmundur Gijslason. og j sannleik ad suo er setium vid ockar innsigle fyrer þetta vitnizburdarbrief. huur vitnizburdur bæde var borinn og skrifadur ä Torfastodum j Biskupztungum Laugardaginn næstann fyrer sunnudag j Aduentu ärum epter Gudz burd 1568.

---

**132. 28. nóvember 1568. á Friðriksborg.**

KONUNGR ritar Pétri Oxe og biðr hann sjá til, að greidd sé skuld sín við Alexander Gielisch í öðru en brennisteini þeim, er honum hafi verið fenginn við svo háu verði, að hann fái eigi undir risið.

Ríkisskjalasafn Dana, Tegn. p. a. L. 10, 233 b. — Uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 493, 4to. (Laursens ríkisskjalavarðar í þjóðskjalasafni).

Peder Oxe fick breff som følger.

Wij ville ether naadigst icke forholle. att thenne breffuisere. oss elskelige Alexander Gielisch. haffuer verit hoss oss oc vnderdangist giffuit tiilkiende. att hannom skall reste en stor summa pendinge. som oss tiilkomer hannem att betalle. oc att hannom y same betaling er anttuoritt nogen suoffwell saa dyre. att hand thett werdt ther fore icke kand bekome. er ther for vnderdanigst begerindis. att ther vdj motte haffuis itt billicht indseinde. saa hand icke skulle haffue ther aff en woffuerwindelig schade oc aldelis gaa tiill grunden. epther som y aff hans supplicatz. wij ether her hoss tiillschicker. ydermere kunde forfare. Tha. eptherdj wij formerke. att hand altiid haffuer verit oss villig oc vdj vor thieniste siig vnderdanigst gierne ladit bruge. siunis oss billicht. att thett hannom betenckis. oc ville wij vgierne. att hand ther offuer schulle kome y schade. Thj bede wij ether oc nadigst begere. attj ville her vdj finde the beste middel att forschreffne Alexander Gielisch motte bliffue befalitt oc tiill fridtz stillit enthen med vare eller huore thett best kunde skee. oc att huis vare hannom giffuis. motte saa anslas. att hand kunde bliffue wid oc medt rette icke schulle haffue siig att beklage. saa oc att mand motte forfare. att her bliffuer ansett oc giortt forskiel paa huilcke oss er villige oc gierne beuiser vnderdanigste thieniste etc. Fredrichsborg 28 nouemb. anno 68.

---

**133. 2. december 1568. á Bakka.**

KAUPBRÉF fyrir Æsustöðum í Eyjafirði (sbr. bréf 26. nóvbr. 1568).

AM. Apogr. 142, frumritað transscriptum á pappír frá 20. maí 1728. Jbskj. AM. Eyjafj. 10, uppskrift staðfest af tveim mönnum 28. apríl 1704 á Öngulsstöðum.

Þat giorum vær Magnus prestur Magnusson. Sigurdur Þormodsson. Vigfus Jonsson. Olafur Þorsteinsson. Magnus Gunnsteinsson. Brandur Sveinsson. oc Jon Jonson godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi. at arum epter guds burd m. d. lxviij[1]) fostudægenn nærstann fyrir Andriasmesso.[2]) ä Skardi i Langadal. vorum vær hia. saum og heyrdum a ord og handaband Sera Biarnar Gijslasonar og Þorvalds bonda Biornssonar. svo fyrer skildu: at nefndur Þorvaldur seldi søgdum Sera Birni iordina Æsustade i Eyafirde. i Modruvalla kirkiu sokn. med øllum þeim gøgnum og giædumm sem greindri iørdu filgier oc fylgt hefur at fornu oc nyu. hier i mote gaf firnefndur Sera Biorn ädursøgdum Þorvalldi iørdina Sydravattn i Skagafijrde i Reykia kirkiu sokn fyrir xxc og jordena halfa Breidavad fyrir xxc. oc þar til einhveria xxc iørd sem lægie i Hunavattsþijngi.þa sem bigdest firer hundrad. at auk tiunda. oc þar til xv mälnitu kugilde. og xxx vætter smiørs. skylldu kugildenn vtgreidast i Skagafirde at nærstum fardøgum: enn smiorit i Eyafirde at sumre komanda. Lofadi hvor um sig fyrr greindra manna Sera Biorn og Þorvaldur at svara lagariptingum a þeim iordum er þeir seldu: enn halda til laga þeim er keiptu: med þeim skilmäla ef nockur su iørd geingi af Þorvalde med løgum sem Sera Biorn sellde honum. þa skyllde opt nefndur sera Biorn fa þrätt nefndum Þorvaldi adrar iafngodar iardir þar j stadinn. Enn ef iordenn Æsustader geinge af tijttnefndum Sera Birne. þa skyllde þratt nefndur Þorvaldur fa oftgreindum Sera Birne .lxc. i godum iordum. oc þar til kugilde og smiør sem fir greinir. Og til sanninda hier um setiumm vær vor innsigle fyrir þetta bref er skrifad var ä Backa i Øxnadal vi døgum sijdar enn fir seigir.

Þetta bref a kalfskinn er med þremur hangandi innziglum og þremur innsigla Reimum Riett coperad effter sijnum Original wotta underskrifader er Coper-

1) lx og viij, Jbskj. 2) þ. e. 26. nóv.

ndu og samannlasu ad Grenjadarstødum d. 20 Maij 1728.

Magnus Thorvaldsson.[1]) Gijsle Magnusson.[2])

134. 4. december 1568. í Saurbæ.

**1570.**

LÝSING Þorláks Einarssonar á jarðaskiptum þeirra Eggerts lögmanns Hannessonar.

AM. Apogr. 4734 b „Ex originalibus. Utan ä brefenu er hønd Eggerts logmanns“ (AM.). Árni lýsir innsigli Þorláks.

Jhesus.

Eg Þorlakur Einarsson giore godum monnum kunnigtt. med þessu minu oppnu breffi. þad ad eg medkennunst fyrer ollum og sierhueriumm þad eg hefi med fullnadar jayrdi og handabandi og suo med radi og samþycki minnar quinnu Gudrunar Hannesdottur. selltt Eggertt Hannessyni magi minum suoddann peninga j lausafie og fastaeignum sem hier greiner. Jn primis þä sellda eg honum jordina Vadzdal j Patregxfirdi j Dals kirkiusokn fyrir xviijc. Hier med jordina Skoga j Mosdal j Hrafnzeyrar kirkiusokn fyrir xijc. atti min quinna þessar badar jarder. Hier til sellda eg honum xc. j jordune Selatrum er eg atta sialfur. liggur hun j Talknafirdi j Laugardals kirkiusoekn. og med þessum parte .ij. quilldi. hier til halft annad quilldi vestur j fiordum og þar til .vj. jopindali[3]) fyrir ijc. og landskylldar .e. er vmm vorid gallst af Vadzdal. og landskylldar .x. aurar þad vor af Kirkiubole. og adrer af Skogum et cetera. Hier aa mote gaf og gallt greindr Eggertt Hannesson mier fyrrskrifudum Þorlaki Einarssyni og minne quinnu jordena Ketelseyri fyrir xxiiijc. og þar med .ij. quilldi. Jtem .vc. j jordunne Haukadal. ligg[i]a þessar badar jarder j Dyrafirdi j Sanda og Hrauns kirkiu soknum. Jtem halft fimmta .c. j meire Vedrarä j Onundarfirdi j Hollts kirkiu soekn. Hier til

1) Stúdent. 2) síðar byskup. 3) „ita est“ (AM.).

.x. c. j Kirkiubole j Mosdal j Hrafnseyrar kirkiu sockn. og þar med ij quilldi. Reick[n]ast þetta allz af huorz hendi halft viijc og xl. Selldi huor odrum þessi lausafie og fastaeigner vndann sier og sinum erfingium. Enn vnder huorn fyrir sig og hanz erfingia. til æuennligrar eignar. nada og nytsemda. med ollum þeim gognumm [og] gædum sem fyrr greindum jordum fylger og fylgt hefur ad fornu og nygu bædi til sios og landz. Suo og skylldi huor vmm sig eignast fie þad allt sem þar kynne ad finnast j jordu edur ä. þui er k[e]yppt hefdi. ef eigi fyndust adrer loglegri eigendur ad þui fie. skal huor vmm sig hallda sinu kaupi til laga. Enn huor suare lagaripptingu fyrir þad er sellt hefur. Og til meire audsyningar. stadfestu og sanz vittnesburdar hier vmm. ad suo j saunleika er sem fyrr skrifad stendr. þä feste eg fyrskrifadur Þorlakur Einarsson mitt jnnciglis merki fyrir þetta kaupbreff. huertt ed skrifad var j Saurbæg ä Raudasandi þann fiorda dag December manadar arum epter Jesu Christi hingadburd M. D. lx og viij.[1])

Jhesus.

Þad medkennust eg Þorlakur Einarsson med þessu minu opnu brefe. ad suo var til skilid j ockru kaupi Eggertz Hannessonar og min. þa uid keyptum þeim lausafiaum og fastaeignum sem þetta kaupbref er hier med fest er utvijsar og innehelldur ad þad skylldi mætazt .x. hundrut j Lokinhomrum þau sem Jon Eggertzson atte. og þau xc sem Þorlakur sialfur atti j Sellatrum. enn kynne þesse .x. hundrut j Sellatrum ad ganga af Eggert þa skylldi hann edur hans erfingiar ganga aptur ad fyrgreindum .xc. j Lokinhaumrum. Og til sanninda hier um festi eg fyrgreindur Þorlakur Einarsson mitt jnsigle med þessu kaupbrefi fyrir þetta mitt medkenningarbref: skrifad j Saurbæg a Raudasandi þann fiorda dag Desember: arum epter Jhesu Christi hingadburd M D Lxx.

---

1) „Þetta bref er ritad med eigen hendi Eggerts Hannessonar lögmanns“ (AM.).

**135. 5. december 1568. á Grenjaðarstöðum.**

KAUPBRÉF fyrir Hafralæk.

AM. Apogr. 101, m. h. Styrs Þorvaldssonar „Ex originali Sira Olafs Stefanssonar". Árni lýsir innsiglum. — Jbskj. AM. Þing. 21, uppskrift staðfest af tveim mönnum í Vallanesi 21. maí 1704.

Um Hafralæk.[1])

Ollum þeim godum monnum sem þetta bref birtist. sia edur heyra. sendum vid Einar Sigurdsson[2]) og Olafur Arnason prestar. kvediu gudz oc ockra. kunnigt giorandi. ad þa lidit var fra holldgan Christi M. d. lx og viij. är þann annann dag decembris ä Greniadarstodum j Adalreykiadal vorum vid i hia saum og heyrdum upp a ord og handsol Sira Sigurdar Jonssonar oc Gvidnyar Magnusdottur. ad svo fyrir skildu. ad nefnd Gvidny fieck og selldi greindum sira Sigurdi alla jordina Hafralæk. er liggur i greindum dal i Neskirkiu sokn med ollum þeim gognum og giædum. Eignum og itolum j jordu og ä. sem greindri jordu fylger og fylgt hefur ad fornu oc nyu og fylgia ä ad løgum. Hier i mot gallt og gaf Sira Sigurdur Jonsson Gvidnyu fyrst þau malnytu kugilldi fiogur og onnur god iiij^c. sem hann reiknade. ad hann ætti hia henni og hefdi ätt j nockur är. reiknadi hann þar til eitt hundrad og mork. enn þad gaf hann henni kvitt. Hier til skylldi Sira Sigurdur giallda henni ad næstum fardogum .iij. mälnytu kugilldi eda iiij og onnur .iij. ad vori komandi. og hafa þau leigulaust epter komandi är. Skylldi allz mälnytukugilldin verda tiu. med þeim ädur voru hia henni. hier til skylldi hann giallda henni .vj^c. j godum peningum frijdum oc ofrijdum þa þeim semdi og j þvi þeim semdi og sumt strax i vor. skylldi Sira Sigurdur strax eignast jordina. enn Gvidny skylldi meiga bua ä jordunni j næstu epterkomandi .iij. ar og leig[i]a mälnytu kugilldin og þar til .xx. alner oc svara ollum tij-

---

1) Hafralækiar Bref, Jbskj. 2) „Þetta kynni vera fader herra Odds biskups" (AM.).

undum oc med þeim skilmäla. ad jordin spilltist ecki. Hier med lofadi hann ad taka hennar son ad vori. þann Torfi heiter. og fæda hann up. enn ei sagdest hann taka abyrgd a honum. hier med skylldi oll þeirra byti og skip'i kvitt og klär forn oc ny. Skylldi sira Sigurdur hallda jordinne til laga og svara lagariptingum svo sem honum bæri. þui hann hafdi ädur feingid henni greinda jord sem væri. Og til sanninda hier um setium vid adurskrifader menn ockar jncigli fyrir þetta kaupbref. er giort var i sama stad þrem nottum sijdar enn fyr seiger.

---

**136. 5. december 1568. í Saurbæ.**

JARÐASKIPTABRÉF, og er 25 hundr.i Trostansfirði skipt við Skriðnafell með milligjöf.

AM. Apogr. 1300, m. h. Styrs Þorvaldssonar „Ex orig. Ara Þorkelssonar.“

Jhesus.

Eg Ormur Ellingsson giore godum monnum kunnigtt med þessu minu oppnu brefi. Þad eg medkennunst fyrir ollum og sierhuerium. ad med radi og sammþycki minnar ecktaqvinnu Valgerdar Brandzdottur þä hefur eg med fullu jayrdi og handabandi sellt Eggertt Hannessyni xxv$^{c}$ j jordunne Trostansfirdi er liggr j Otradals kirkiu sokn. enn hier a moti galltt hann mier og greiddi jordina Skridnafell xviij$^{c}$ ad dyrleika. er liggur a Bardastrond j Haga kirkiusokn og þar til iij malnytu quilldi. gelltt naut fyrir ij$^{c}$. hest fyrir c og c j vadmali. miole og fiski. Selldi huor odrum þessi lausafie og fastaeigner vndann sier og sinum erfing[i]umm enn vnder huorn vmm sig og þess erfing[i]a. epter þui sem huor var fremst eigandi ad vordinn med ollumm þeim gognum og gædum sem fyrrgreindum jordum fylger og fylgt hefur ad fornu og nyu bædi til sios og landz alltt til skilid en ei neitt undan tekid. Suo og skylldi huor umm sig eignast allt þad fe sem þar kynne ad finn-

ast j jordu edur ä þui er keypt hefdi. ef ei yrdi adrer logligre eigendur ad. skulu huorutuegg[i]u hallda sijnu kaupe til laga þui er keyppt hefdi enn suara lagariptingu fyrir þad er selltt hefdi. Og til meire audsyningar. stadfestu og sanz vittnesburdar hier vmm. ad suo j sannleika er sem fyrre stendur skrifad. þä feste eg fyrrgreindur Ormur Ellingsson mitt jncigli nedan fyr[ir] þetta kaupbref huert ad skrifad var j Saurbæg ä Raudasandi þann vta dag december manadar arum epter hingadburd Jesu Christi. M. d. lx og viij ara.

---

**137. 5. december 1568. í Saurbæ.**

ORMR ERLINGSSON kvittar Eggert lögmann Hannesson fyrir milligjöf þeirra jarða, er getr í næsta skjali hér á undan.

AM. Apogr. 1301, m. h. Styrs Þorvaldssonar „Ex orig. Ara Þorkelssonar."

Jhesus.

Þad medkennunst eg Ormur Ellingsson med þessu minu oppnu brefi þad eg hefi þaa peninga alla vppborid af Eggertt Hannssyni gillda og goda sem mier vel lijkar er hann atti mier ad giallda og greida aa milli Skridnafellz og xxvc j Trostanzfirdi epter þui sem þetta bref utvisar sem hier med fest er[1]) og j ockartt kaup kom. og þui giore ec hann og gef og suo hanz erfing[i]a alla og epterkomendur quitta og akiærulausa fyrer mier og ollum minum erfing[i]um og epterkomenndum umm adurskrifad peninga gialld. Og til saninda hier vm þa feste eg mitt jncigli nedan fyrir þetta mitt medkenningar. enn hanz qvittunar bref hier vppa. huort ed skrifad var i Saurbæg a Raudasande. þann vta dag decembrijs manadar arum eppter hingadburd vorz liufa lausnara Jesu Christi. M. D. lx. og viij ara.

---

1) Sjá bréf 5. dec. 1568 (næsta á undan).

138. 11. december 1568. í Stafholti.

KAUPBRÉF fyrir Syðri Þverá i Vestrhópi.

Jbsk. AM. Húnavatnss. 5. „[Markuss Palssonar[1]) schial fyrir sidre Þuerä.“[2])

Skial fyrer sidre Þuerä.[2])

Þad Giorum wier Freijsteirn Prestur Grijmsson Henrich Hannesson. Wigfus Jönsson och Alexius Þoruardsson Gödum monnum kunnigt med þessu uoru opnu brefe. ärum eftter Gudzburd M D Lx viij a Borg i Borgarfirde þann 10 dag Decembris Mänadar. uorum uier tilkallader og uidstadder sofeld ord og handsaladan giorning þeirra[3]) manna. ad Gudmundr Ormsson med fullnadar uiliandlegu Jäirde og hanndsoludu samþicke sinnar Eigenn qvinnu Astrijdar Oddzdottur selde Þorvallde Biornssyne jordina alla sidre Þuerä i Vesturhoope 40c ad dyrleika i Breidaboolstadarkirkiusokn. med ollum þeim gøgnum og giædum. sem greindre Jordo ä med logum ad filgia til istu vmmmerkia annara manna. Eftter þuj sem Astridur uar fremst eignarkona ad ordenn. vndan sier og sjnum Erfingium. enn vnder nefndan Þorualld og hanz eftterkomendur til frials forrædiss. og fullrar eignar. ad ollu þuj tilskilldu sem gomul logleg jardakaupzbref innehallda. Hier i möt skilde tijttskrifadur Þorualldur greida ofttnefndum Gudmunde 40c i soddan peningum 0 Malnitukugillde. 10c i frijdum peningum. gielldum saudum og nautum. 5 kapla c. 3 vadmala c. og 2c i smiore. med þuj kostar hundrade sem Gudmundur medtok. og þetta jardaruerd ad þrennum solum utlikia. utan ejn 3 kugillde skilldu effter standa. og eijn 7c i odrum peningum þeim Þorvallde lijkade. og skillde Þorvalldur ä þeim 10c fæda upp 5 vetra gamlan son Gudmundar. ad nafne Asmund og aga hann sem eitt barn. til þez hann er 20 ära Gamall. og lata kenna honum saung og norrænu. og skrif ef hann vill læra og verde þad

1) Frá [ m. h. AM. 2) Aftan á bréfinu. 3) Svo.

med gödfelldu giort. so hanz foreldrum lijke uiduærid og kennslan. enn Deije þesse Asmundur innan 3a ara. þä Eignist hanz erfingiar afttur þesse 10c. enn life hann eijn 3 är edur leingur þä eignast Þorualldur eijn 5c enn Erfingiar onnur 5c. Enn falle Þorualldur frä þar til pilturen[n] er matlauna madur. epter logbokar ordum. þa eignast arfar pilltsinz. eda hann þesse 10c ølldungis aptur. skillde sa hallda jordunnj til laga er keipte. enn þau suara lagarifttingum er seldo. i anare iafngodre fastaEign ef til Er. Oc til sannenda hier vmm setium uier vor innsigle fyrir þetta iardakaupzbreff. skrifad i Stafhollte i Stafholltztungum i Borgarfirde. ä sama ärj. Deige sijdar enn fir seiger.

Þetta ofannskrifad Jardakaupsbrief hofum uær. Thorsteirnn p[restur] Asmundsson. Þorkell Gudmundsson og Jlluge Jorundsson sièd og iferlesed ord fyrir ord sem hier stendur. med 2 oskoddudum Jnnsiglum þeirra Freijstejns pr[ests] Grijmssonar og Alexius Þorvardzsonar. setiande uor signet og nofn med Eigen hondum hier fyrir nedann. þar umm til merkiz og vitnizburdar ad Borg uid Vijdedal 22 Martij 1652.

Richtug Copia originalsins. til merkiz ochar nofn. 1703 siotta Maji.

Eigill Einarsson. Biarne Sueinsson
Eg h. eg h.

---

**139. 17. december 1568. á Vatnshorni.**

JARÐASKIPTABRÉF á Núpi í Haukadal fyrir hálfa Norðtungu í Þverárhlíð.

Fornbréfasafn Lbs., Fasc. II, 6, frumritað transscriptum á skinni, ártalslaust, en frá því um 1600 á að gizka, með eiginhandar-undirskriftum. Transscriptum sýnist allt vera m. h. Jóns Bjarnarsonar. — Frumritað pappírstransscriptum gert í Ljáskógum 19. mars 1710, eftir skinntransscripto, komið til þjóðskjalasafnsins 6. júní 1916 frá Boga Sigurðssyni kaupmanni í Búðardal. Uppskrift þar af í þjóðskjalasafni m. h. síra Friðriks Eggerz 1841, og fylgir þar með uppdráttr frá 1788.

Þad giorum vier Hannes Biornsson. Martheirn Þorbiarnarson og Berþor Grimsson. Godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefe. þa lided var fra hingadburd vors herra Jhesu Christj þusund fimm hundrud sextiger og viij. j Snoksdal j Breidafiardardaulum þann .7. dag Septembris manadar vorum vier j hiä. saum og heyrdum ä ord og handaband þessara manna. Jons Grimssonar af annare älfu enn Gudmundar Halldorssonar af annare. at faldist þad og skildist j og vnder þessara manna handabandi. at fyrrnefndur Jon Grimsson selldi ädur nefndum Gudmunde Halldorssyne jordina alla Nup er liggur j Haukadal j Vasshorns kirkiu sökn iiij og xx^c at dyrleika. med ollum þeim gognum og giædum sem þessare greindri jordu fylger og fylgt hefur at fornu og nyiu oc hann hafdi fremst eigande at ordid vndan sier oc sijnum erfingium og epterkomendum. enn vnder Gudmund Halldorsson. hans erfingia og epterkomendur. med þessum landamerckium til sogdum. at Sandhoolslækur skal räda jd fremra. epter riettre sionhendingu ä fiall vpp. Enn ed nedra Gardur sa er geingur ofan vndan fialle fyrir nedan Suardarhuamm. vr gardinum og vpp j Rauduskridu. þadan riett ä fiall vpp. Hier j mot gaf Gudmundur Halldorsson adur sogdum Jone Grimssyne jordina haalfa Nortungu er liggur j Borgarfirde j Þuerärhlijdarhrepp .xxx^c. at dyrleika. med ollum þeim gøgnum og giædum sem þessare greindri hälfri jordu fylger og fylgtt hefur at fornu og nyiu oc hann hafdi fremst eigandi ad ordit. vndan sier og sinum erfingium og epterkomendum. enn vnder tijtt nefndan Jon Grimsson og hans erfingia og epterkomendur til fullrar eignar og frials forrædis. Somuleidis heimilade huor odrum þessara optt skrifadra manna allt þad fie sem fyndiztt j þessum þrätt skrifudum jordum og eckj yrde løgliger eigendur ad. Skylldi huor vm sig suara lagariptingum ä þeirri jordu er sellt hafdi enn bäder hallda til laga þeirrj er keyptt hafdi. Og til meire stadfestu og sanninda hier vm. setium vier fyrr greinder menn vor jnnsigle fyrir þetta jardakaups

Bref. huertt ed skrifat var ä Vasshorne j Haukadal xvij dag Desembris ä sama äre sem fyrr seigeʀ.

Þad medkiennum vier epterskrifader menn Sigurdur Asgeirsson. Gudmundur Þorualldzson. Jon Gudnason og Jon Biarnarsòn. at vier hofum sied og yferlesed svo lätandj Bref hia Sijra Jone Jonssyne ord fyrer ord med tueimur oskauddum hangandi jnnsiglum sem hier fyrer ofan Skrifat stenduʀ. Og til sannarligs vitnis at vier þetta satt segium þa setium vier fyrr nefnder menn vor nøfn med eiginn hendj hier vnder skrifud.

| | |
|---|---|
| Sygurdur Asgeirsson med Eigin hendi. | Gudmundur Þorualldzson med eijginn hendi. |
| Jon Gudnason med Eigin hendi. | Jon Biarnarson med Eijginn Hendi. |

[Ad þetta allt ofan og framan skrifad sie ordriett og i allan mäta samhlioda þvi gamla. þo vel læselega. kalfskinns Briefe sem þetta er epter skrifad. jatum vid og medkiennum er hier framan og ofan skrifad saman läsum vid þad forna kalfskinnzbrief. hvoriu til merkis vid setium ockar nofn hier under ad Liärskogumm uid Hvamsfiord Anno 1710 d. 19. Martij.

Jon Eijriksson logsagnare j Dalasyslu
m. E. h.
Jon Arnörsson logriettumadur i Dalasyslu
med eiginn h.[1])

---

**140.** **26. december 1568.** **á Hóli.**

**KAUPBRÉF** fyrir Jökulkeldu.

AM. Fasc. LXXIII, 18, frumrit á skinni. Af 5 innsiglum er nú 2. og 3. fyrir bréfinu. — Ágrip Árna Magnússonar af frumritinu, er átti Sæmundr Magnússon á Hóli, er í AM. 1067, og lýsir Árni þar innsiglum.

1) [Þetta stendr einungis í pappírstransscriptis.

Kaupbref wmm Kielldu j Miofafirdi.

Þat giorum vier Olafur prestur Sueinsson. Aurnolfur Jonsson. Jon Biarnason og Jon Einarsson. godum monnum kunnigt med þessu [voru] opnu brefi. aarum epter Gudz burd .M. D. lx. viij aa Holi j Bolunngarwijk. þann sietta og xx dag Decembris. Worum vier j hia saum og heyrdum ä ord og handaband þessara manna. Af eirne alfu Biorns Biarnasonar. Enn af annare alfu Arna Gijslasonar at sno fyrer skildu. at nefndur Biorn Biarnason selldi nefndum Arna Gijslasyne jordina Jokulkelldu fyrir vjc er liggur j Miofafirde j Vatzfiardar kirkiu sokn. med ollum þeim gaugnum og giædum sem greindri jordu fylgir og fylgtt hefur at fornu oc nyiu og ecki er med laugum fra komit. bædi til sios og landz. wndan sier og sinum erfingium. Enn Arna Gijslasyne til fullrar eignar oc frialz foʀædis. Hier j mot gaf Arne Gijslason fyrr nefndum Birne Biarnasyne vjc j suo ordnum peningum. Þriu malnytu kugillde .iij vætter smiors og hundrat j aullum godum peningum. og skylldi þat hundrad gialldast Hannes Elers. Skyllde Arne Gijslason hallda greindre· iordu til laga. edr hans erfingiar. enn Biornn skyllde suara lagariptingum edur hans erfingiar. Være suo at greind jord Kellda geinge af Arna Gijslasyne med laugum edur hans erfingium þaa lofadi optt nefndur Biorn fyrir sig og sijna erfingia. at giallda Arna Gijslasyne edur hans erfingium adra vjc iord jafngoda. Skyllde Arne Gijslason eignast landzskylld af iordunne Kelldu at næstum fardaugum. skylldi huor þeirra greindra manna Biorn og Arne eignast til helminga þat allt sem reka kann aa jordunne Kelldu til ṅæstu fardaga. Og til sanninda hier wm setium vier fyʀ nefnder menn vor jnnsigle fyrir þetta Bref. med fyʀ greindra manna jnnsiglum Biorns og Arna. Skrifad j sama stad Deige og aare sem fyʀ seigir.

---

**141.** **30. december 1568.** **á Látrum.**

KAUPBRÉF fyrir 4 hundr. i Látrum i Aðalvík.

AM. Fasc. LXVIII, 13, frumrit á skinni frá Bæ á Rauðasandi. Fjögur innsiglaför og þvengir, en ekkert innsigli nú. — AM. Apogr. 854.

Kaupbref wmm Laatur j Adalwijk.[1])

Þat medkennunst vier [Jon Þorsteinsson. Marteinn Loptzson. Jon Olafsson oc Jon Sueinsson[2]) fyrir aullum monnum þeim sem þetta vortt bref sia edr heyra lesit Arwm epter Gudz burd M d lx viij þann xxx Dag Desembris manadar aa Latrum j Adalvijk. worum vier j hia savm og heyrdvm aa ord oc handaband Gvdmundar Asbiarnarsonar og Arna Gijslasonar. at suo fyrir skildu at nefndr Gudmundur sellldi greindum Arna Gijslasyne iiijc j iordune Latrum er liggur j Adalvijk j Stadar kyrkiu sokn. med aullum þeim gaugnum og giædum sem greindum jardarpartte til Sios og landz fylgtt hefur at fornu og nyiu oc eij er med laugum fra komit epter þui sem Gudmundur hafdi fremst eigande at ordit. wndan sier og sinum erfingium. Enn Arna Gijslasyne til fullrar eignar og frials forrædis. Hier j mot gaf Arne Gijslason Gudmundi Asbiarnarsyne ij malnytu kuillde og ijc j audrum godum peningum þeim sem Gudmundi lijkade vel at taka. Skylldu þessir allir peningar vt greidder sama ár Gudmundi Asbiarnarsyne. Skylldi optt nefndur Gudmundur Asbiarnarson suara lagariptingum aa greindum jardarparti enn Arne hallda til laga.

Suo og medkennunst vier fyrr skrifader menn Jon Þorsteinsson. Marteinn Loptsson. Jon Olafsson og Jon Sueinsson at j sama stad og deige vorum vier j hia saum og heyrdum aa ord og handaband Þorsteins Asbiarnarsonar og Arna Gijslasonar. at Þorsteinn lofadi Arna Gijslasyne med handsolum at Arne skylldi eiga kost fyrstur allra manna at kaupa þau iiijc j Latrum j Adalvijk j Stadar kirkiu sokn sem Þorsteinn atte j greindre jordu þat fyrsta saa parttur falur være. Lof-

1) Utan á bréfinu m. sömu h., sem er utan á mörgum bréfum, sem varða Árna Gíslason, og er það hönd hans sjálfs. 2) [Þessi nöfn eru og rituð aftan á bréfið m. samtíða h. sem hitt þar.

adi og Arne þar fyrir at gefa suo vordna peninga ij malnytu qugillde og ijc j ollum godum peningum þeim sem Þorsteine lijkade vel at taka og Arne til hefdi.

Ok til sanninda hier wm setium vier fyʀ nefndir menn vor jnnsigle fyrir þetta jardarkaups og laugmalabref er skrifat var j sama stad deigi og äre sem fyʀ seigir.

---

142. 1568. á Höskuldsstöðum.

GUÐRÚN ÞORLEIFSDÓTTIR veitir manni sínum, síra Magnúsi Magnússyni, umboð til þess að selja nokkurar jarðir sínar, er bréfið getr..

AM. Apogr. 4738 b. I. Eftir frumriti á kálfskinni. Árni segir til innsigla.

Þad giorum vid Sigurdur Þormodzson og Olafur Þosteinsson godum monnum kunnigt med þesso ockro opno brefi: ärum epter Gudz burd M. D. lx viij ä Hoskaullstodum ä Skagastrond þar j kirkiunne vorum vid hia stadder og til kallader fullnadar giorningi med handsolum þessara manna so felldum. J fyrsto ad Gudrun Þorleifsdotter samþyckti og gaf sira Magnusi Magnussyni manne sïnum fullnadar leyfi og umbod til ad selia Þorvalldi Biornssyni so heitandi jarder j Saurbæ: Holltin bæde: og eyiarnar Oddznauta. Brunnä og Bessatungu. tvo Hvïtadale og Belgsdal hvad allt ad reiknast ad dyrleika i½c hundrada og ein viijc betur og þar til kirkiojordin under Hollt ad nafne Brunngil xvjc ad dyrleika og hier til xijc(!) og xx kugillde. og lofade ad lata sier þad allt vel lijka hvad sira Magnus tæke hennar vegna fyrer þessar eigner og peninga. og þad skylldi giordur kaupskapur af sier sem hann giorde vid greindann Þorvalld hier umm. og þetta allt fyrrskrifad hid sama handsalade greind Gudrun nefndum Þorvalldi æfinnlega stadfast standa skyllde fyrer sier og aullum sinum aurfum og epterkomendum med þvi frekasta skilorde sem login lofa og hun eigandi ad vard. Sagdist adurgreind Gudrun Þorleifsdotter aung-

um manne þessar jarder fyrre til eignar feingit hafa. Og til sannenda hier umm setium vid fyrrnefnder menn ockar innsigle fyrer þetta vitnisburdarbref skrifad j Stafhollte j Borgarfirde ä sama äre sem fyr seigier.

---

143. 1568. á Skarði.

VITNISBURÐR um loforð um jarðaskipti.

AM. Apogr. 4738 b. II. Eftir frumriti á kálfskinni. Árni segir til innsigla.

Þad giorum vier Sygurdur Þormodzson. Magnus Gunnsteinsson. Olafur Þosteinsson. Gudmundur Stephansson. Brandur Sveinsson og Jon Jonsson godum monnum kunnugt med þesso voro opno brefe: arum epter Guds burd M. D. lx. viij ä Skarde j Längadal þar j kirkiunne heyrdum vier og saum ord og handsaul sira Magnusar Magnussonar og Þorvallds Biornzsonar med so felldum skilmäla ad sira Magnus Magnusson lofadi Þorvalldi Biornssyne i þesso handabande til fullrar eignar so heitandi jordum i Saurbæ. tveimur Holltum fyrer sextijgi hundrud: Belgsdal fiogur hundrud og tuttugo. Brunnä fiogur hundrud og tuttugo. tveimur Hvïtadaulum fyrer fioritijgi hundrud. Bessatunga fiøgur hundrud og tuttugo. Eyiarnar Oddznautar xvjc hveriar jarder allar bondaeign. reiknast halft annad hundrad hundrada ad dyrleika og viijc betur. Brunngil j Bitro kirkiojord fra Hollte ein sextan hundrud. og med þessum jordum einum tolf og tuttugo kugilldum gilldum. med aullum þeim gognum og giædum sem greindum jordum ä med løgum ad fylgia og eigi er riettelega frä komit. til ysto ummmerkia annara manna epter þui sem hans kvinna Gudrun Þorleifsdötter vard fremst eignarkona ad. Hier j möt lofadi greindur Þorvalldur Biornsson saugdum sira Magnusi Magnussyni under aullu hino sama skilordi þeim þremur tuttugu hundrada iordum sem sira Biorn Gislason

selldi Þorvalldi Biornssyni þui sira Magnus liet sier vel lika þær ad taka og gaf Þorvalld aulldungis kvittann umm þessar jarder og þeirra lagariptingar epter þeim giorningi sem þeir aller sin ä millum þar umm giordo og þeirra kaupbref vottar Sira Biarnar og Þorvallds. Þar med skylldi sira Biorn svara sira Magnusi þeim fimtan kugilldum vegna Þorvallds epter þvi sem i sama giorningi stadfest var og brefit skyrer fyrer fimtan kugilldi i Saurbæ. Hier med fieck Þorvalldur Sira Magnusi til eignar vegna hanns kvinno so heitandi jarder: Mela j Hrutafirde fyrer þriätigi hundrud. Tungo j Hrutafirde fyrer .xvj. hundrud. Smirlaberg i Hunavatzþingi fyrer sextan huñdrud. Sïdo j Refasveit fyrer tiu hundrud. Fiösa i Svartärdal fyrer fioretïge alner ä fiörtanda hundradi. hveriar jarder allar ad dyrleika reiknast eitt hundrad hundrada. tuttugo hundrud. fimm hundrud og fiorutïgi alner betur. og þar ofan ä skylldi Þorvalldur bæta einum þremur kugilldum og gielldfiar hundradi fyrer þau stauko ätta hundrud sem bondaeign j Saurbænum er. ätte Þorvalldur ad läta ein seytian kugilldi gilld med þeim jordum sem hann fieck prestenum. so sira Magnus feingi aunnur tolf og tuttugo kugilldi gilld hier i Hunavatzþïngi fyrer þau hann fær Þorvallde i Saurbæ. þar til skylldi Þorvalldur svara sira Magnusi fioritïgi hundrodum i jørdum hier i þingino. og ad þeim fiøritigi hundrudum feingnum. lofadi sira Magnus Magnusson optnefndum Þorvalldi Biornssyni i sama handabande ad giora sierdeilis kaupbref i vor og i þvi brefi saman ad iafna hver iørd ad annarar andvirde vera skyllde.

för þessi giorningur framm ad aullu þui tilskildo sem login lofa ad bata meigi.

Og til sannenda her um setium vier greinder giorningsvottar vor innsigle fyrer þetta bref skrifad j Stafhollte j Borgarfirdi ä sama äre og fyrr greiner.

144. 1568.

DÓMR um kýrverð.

AM. 238, 4to., bl. 131, m. samtiða h. Vigfúsar sýslumanns Jónssonar.

[J] dom nefndir edur giord Þorolfur Eyolfson. Hannes Olafsson. Halldor Ormsson. Jon Magnusson. Olafur Asmundzsson. Olafur Þorsteinson. 1568. ad Jon Asgrimson kærdi til Gisla Oddzsonar ad hann hefdi keypt ku ad faudur stiupdottur sinnar enn hann selldi faudur sinum. uirtist oss ad þeirra kaup skylldi halldast. enn Gisli skylldi fa þessari konu. vj. alnir vad[mals] med gillt vadmal. og Gisla suo meiga med frialsu hallda þessari ku.

[1568].

DÓMR um bátsverð.

AM. 238, 4to., bls. 131, m. h. Vigfúsar sýslumanns Jónssonar.

Jtem so felldann vittnis[burd].

Þorolfur. Hannes. Halldor. Jon Halldorson. Olafur. Jon. taladi Olafur Þorsteinsson til Nichulas ad hann hefdi losat upp sinn bat vr suelli. huern þeir hefdi badir att ad hafa. til fiskiferda. Nu stenndr suo j bokinni. enn ef beggia Rad uar til fyrir aunduerdu þa abyrgist huor þeirra ad þeim hlut ad þeim hlut sem af hefr hlutinn. Þui dæmdum uær Nichulas skylldugann ad borga þennaun halfann bat og suo uid skilinn þennann bat.

[1568].

DÓMSUPPHAF.

AM. 238, 4to., bls. 131, m. h. Vigfúsar sýslumanns Jónssonar.

Domur Þorleifs Gudmundzsonar.

Hannes Olafson. Jon Olafsson. Stulli Eyolfsson. Þoralli Oddzson. Jon Halldorson. Kappi Eyolfsson.

---

145. 1568.

LANDAMERKI Snældubeinsstaða.

AM. 238, 4to., bl. 131, m. samtíða h. Vigfúsar sýslumanns Jónssonar.

Landamerki ä milli Snælldubeinstada og Klepiarns Reykia ok Kioluarastada ad saugn Gils Gilssonar. anno 1568.

J fyrstu ä milli Klepiarns Reykia og Snælldubeinstada. vr skardinu vpp j bruninni er og ofan ad midmunda waurdunni. og suo þadann eptir læknum sem fellur ofann j Dyiahollt. og suo þadann ofann j hueralækinn. og rædur hann þadann fra. enn ä milli Snælldubeinstada og Kialuarastada eru þessi ur Nonwaurdunni fra Reykhollti sem er vpp ä fiallinu og ofann j tungu spordinn þar ofann vnndan. enn gilit rædur þar ofann vndann nordr j Reykiadalsä.

---

**146. 1568. í Norðtungu.**

**DÓMR** um stóryrði Ólafs Einarssonar og Einars Oddssonar (ágrip).

Lbs. 68, 4to., bls. 123—4, skr. ca. 1690.

Domur umm storyrde midlum Olaffs Einarssonar og Einarz Oddssonar.

Dæmdur j Nordurtungu Anno 1568.

J fyrstu talade Olafur vid Einar ad hann heffde hyst og heimilad utlægan mann. eted med honum og drucked. Þar dæmdu þeir ad Olafur skyllde vitne tilleijda til allra ordanna. Og eff Eijnar gietur ei bevijsad ad Olafur hafe utlægann mann hyst. þä sie hann sekur mork vid kong.

Jtem ønnur søk ad Eijnar hefde talad fiörum sijnnum ad Olafur hefde stoled sijnum peningumm. þar dæmdu þeir Olaffe 3 merkur i fullriette ä huøriu orde nema Eijnar bevijse ad Olafur hafe so giørt og konge 4 merkur ä huoriu orde.

Jtem þridia søk er Olafur gaf Einare ad søk ad hann hefde sagt og kallad sig dielsshund. Þar dæmdu þeir jafna søk og fyrer bæde karle og konge.

Jtem fiörda søk ad Einar hefde kallad Olaf þioff. Þad er fullriettezord. skulu vitne til leidd jnnann xiv nätta særra daga Eijnare frä veranda eff hann vill.
Samþyckte.

---

147. 1568. í Skálholti.

REIKNINGR kvikfjár, afla og afgjalda Skálholtsstóls, og stóð reikninginn Gísli bóndi Sveinsson.

AM. 260, 4to., bl. 48—52.

Anno dominj 1568.

Suo micil vetrar vanhaulld ä stadnum oc äullum stadarbuunum fra attadeigi til fardaga. Jnprimis vj kyr. j naut þreuett. Jtem Asaudr lxx oc v. gellder sauder xxx oc j. eirn hestur veturgamall. oc ij hʀoss fullroskin.

Suo micill framingangr ä stadnum oc aullum stadarbuunum. Jnprimis kyr l oc viij. Jtem gomul naut xiiij. Jtem þreuetur iij. Jtem iiij tuæuetur. Jtem asauder[1]) iiijc xx oc ij. Jtem tuæuetrer sauder oc elldre ijc xxx oc vj. Jtem tuæuetrer sauder oc elldre ijc xxx oc vj. Jtem fullʀoskner hestar lx oc j. Jtem þrir þreuetrer. vj tuævetrer. Jtem hʀoss fullʀosken xxxviij. Jtem j hʀoss þreuett. oc vj tuæuetur. oc j veturgamallt.

Suo micid heimtecid aa stadnum oc aullum stadarbuunum. Jnprimis kyr xx oc j. Jtem þriu naut tuæuetur. Jtem asaudur xx oc vij. Jtem tuæuetrer sauder oc elldre viij. Jtem veturgamler xx. Jtem fullʀoskner hestar x. Jtem j þreuetur. Jtem j hʀoss fullʀosked.

Suo micid ur fodrum j Floa og aa Skeidum. Jnprimis kyr l. Jtem gomul naut xx. þreuetur xj. Jtem tuæuetur 31. Jtem veturgomul 33. Jtem aasaudur 17. Jtem tuæuetrer sauder 30. Jtem veturgamler 80. fullroskner hestar 7. Jtem fullrosken hross 6. eitt þreuett oc eitt veturgamalt.

---

1) Svo.

Suo micid ur fodrum vr baadum Hreppum. Jnprimis kyr xl. Jtem gomul naut v. þreuetur naut x. Jtem tuæuetur xvj. oc veturgomul xuj. Jtem asaudur xviij. Jtem tuæuetrer sauder oc elldre xv. Jtem veturgamler lxx oc vij. Jtem þrir hestar fullroskner. Jtem j tuæuetur. Jtem j veturgamall. Jtem þriu hross fullrosken. Jtem j tuævett.

Suo micid vr fodrum j Biskupstungum. Jnprimis kyr xx oc vj. Jtem gomul naut iij. Jtem þreuetur viij. Jtem tuæuetur xvj. Jtem xj veturgomul. Jtem asaudur xv. Jtem tuæuetrer sauder oc elldre xix. Jtem veturgamler xxxix. Jtem ij hestar fullroskner. Jtem iij hross fullrosken. Jtem iiij tuæuetur.

Suo micid vr fodrum vr Grimsnesi oc Auluesi med Laugardal. Jnprimis kyr xl oc v. Jtem xuiij naut gomul. Jtem þreuetur xiiij. Jtem tuæuetur xxx oc vj. Jtem veturgomul xxx. Jtem asaudur xxxix. Jtem tuæuetrer sauder oc elldri xxj. Jtem veturgamler lx oc ix. Jtem fullroskner hestar j. Jtem j tuæuetur. Jtem ij hross fullrosken. oc j tuæuett.

Suo micit ur fodrum j Skammbeinstada vmbodi. Jnprimis kyr xix. Jtem gomul naut vij. Jtem þreuetur x. Jtem tuæuetur naut ix. Jtem veturgomul xviij. Jtem asaudur l oc v. Jtem tuæuetrer sauder oc elldre xiiij. Jtem veturgamler l oc ij. Jtem fullroskner hestar ij. Jtem ij hross tuæuetr.

Summa kyr aa stadnum oc aullum stadarbuunum oc vr fodrum oc tilluckt vr vmbodum med þui sem heim var tecid. Jnprimis kyr ijc oc xix. Jtem gomul naut lx oc vij. Jtem þreuetur naut l oc vj. Jtem tuæuetur x tigi oc xv. Jtem veturgomul xtigi oc viij. Jtem asaudr vc xjtigi oc 3. Jtem tuæuetrer sauder oc elldre iijc xx oc iij. Jtem veturgamler ijc ixtigi oc vij. Jtem hestar fullroskner viij tigi oc vj. Jtem þreuetrer iiij. Jtem tuæuetrer viij. Jtem veturgamler j. Jtem fullrosken hross l oc iij. Jtem ij þreuetur. Jtem xiiij tuæuetur. Jtem veturgomul ij.

Suo micit vti luckt burt bygt oc til jarda sett ä stadn-

um oc aullum stadarins buum. Jnprimis kyr l oc viij. Jtem j naut gamalt. Jtem j naut þreuett. Jtem ix tuæuetur. Jtem veturgomul xv. Jtem asaudur xtigi oc viij. Jtem tuæuetrer sauder oc elldri xx oc v. Jtem veturgamler lx oc vj. Jtem fullʀoskner hestar x. Jtem iiij tuæuetrer. Jtem fullʀosken hʀoss iiij. Jtem j þreuett. oc j tuæuett.

Jtem haufum vier saman jafnad frammganginum oc tillucktunum vid vtilucktirnar vid þad sem epter var vm sumarid til lifs oc bus til fiallz. Jnprimis kyr vt sem jnn. Jtem asaudur vt sem jnn. Jtem gamler sauder oc vnger vt sem jnn. Jtem gomul naut oc vng vt sem jnn. Jtem gamler hestar oc vnger vt sem jnn. Jtem gomul hross oc vng vt sem jnn.

Suo micid til lifs oc bus ä stadnum oc aullum stadarins buum. Jnprimis kyr c viijtigi oc iij. Jtem asaudur vc oc ij ær. Jtem fullʀoskner hestar lxx oc viij. Jtem þreuetrer iij. Jtem iiij tuæuetrer. oc j veturgamall. Jtem fullʀosken hross l. Jtem j þreuetur. Jtem xiij tuæuetur. Jtem ij veturgomul.

Suo micid til fiallz ä stadnum oc aullum stadarbuunum. Jnprimis gomul naut lx oc vj. Jtem þreuetur naut l oc v. Jtem tuæuetur xtigi oc vj. Jtem veturgomul naut ixtigi oc iij. Jtem tuæuetrer sauder oc elldri ijc xjtigi oc viij. Jtem veturgamler sauder ijc xxx oc j.

Suo micil sumar vanhaulld aa stadnum oc aullum stadarbuunum. Jnprimis kyr iij. Jtem iij naut gomul. Jtem v naut þreuetur. Jtem v naut tuæuetur. Jtem v naut veturgomul. Jtem asaudr xl. Jtem tuæuetrer sauder oc elldre xviij. oc v veturgamler. Jtem fullʀoskner hestar ij. Jtem j þrieuetur. Jtem j tuæuetur. Jtem j hross fullʀosked. Jtem ij tuæuetr.

Suo micid af fialli aa stadnum oc aullum stadarbuunum. Ad til ʀeiknudum aullum sumar vanhaulldum. Jnprimis af fialli. gomul naut af fialle sem aa. þreuetur naut af fialle sem aa. tuæuetur naut v færre af fialle enn aa. veturgomul naut viij færre af fialle enn aa. tuæuetrer sauder oc elldre xxx oc iij færre af fialle enn

aa. veturgamler sauder lx oc viij færre af fialle enn aa.

Suo micil haustaflogun aa stadnum oc aullum stadarbuunum. Jn primis kyr xl oc iij. Jtem gomul naut xxx. Jtem þreuetur naut xu. Jtem tuæuetur naut x. Jtem ij naut veturgomul. Jtem asaudur viij ær. Jtem tuæuetrer sauder oc elldre c xxx oc vj. Jtem veturgamler sauder xiij.

Suo micit til lifs oc fodurs a stadnum oc aullum stadarbuunum. Jnprimis kyr lx oc viij. gomul naut xj. aa fiorda vetur vij. Jtem a þridia uctur iij. a annann uctur vij. Jtem aasaudur iiij^c lxx oc vj. Jtem gymbrar lxx oc iij. Jtem tuæuetrer sauder oc elldri c xxx oc j. Jtem aa annann vetur xitigi oc iij. Jtem fullroskner hestar lxx oc iiij. Jtem a fiorda vetur ij. aa þridia uetur iiij. aa annann vetur j. A fyrsta uetur x. Jtem fullrosken hross l oc j. A þridia uetur xij. A annann uetur j. A fyrsta uetur viij.

Suo micit j fodrum j Floa oc a Skeidum. kyr xx oc iij. Jtem gomul naut xu. aa fiorda uetur vij. Jtem a þridia uctur xix. Jtem aa annann uetur xij. Jtem a fyrsta uetur l oc j. Jtem lomb l.

Suo micit j fodrum j baadum Hreppum. kyr xx oc viij. Jtem ij naut gomul. Jtem ä fiorda uetur vj. Jtem ä þridia vetur xij. Jtem ä annann vetur vij. Jtem ä fyrsta vetur xx oc ix. Lomb ixtiger oc iiij.

Jtem j fodrum j Biskupstungum. kyr xx oc v. Jtem eitt naut ä fiorda vetur. Jtem ä þridia vetur xv. Jtem ä annan vetur viij. Jtem ä fyrsta vetur xx oc vj. Jtem lomb xtiger oc eitt.

Jtem j fodrum j Grimsnesi. kyr xiiij. Jtem gomul naut iiij. Jtem ä fiorda vetur ix. Jtem ä þridia vetur xx oc vij. Jtem ä annann vetur xx oc vj. Jtem ä fyrsta vetur xl oc iiij. Jtem lomb lx oc viij.

Jtem j fodrum j Skambeinstada vmbodj. kyr xij. Jtem gomul naut iiij. Jtem ä fiorda vetur iiij. Jtem ä þridia vetur viij. Jtem ä annann vetur xj. Jtem ä fyrsta vetur xviij. Jtem lomb vijtiger oc ij.

Summa j fodrum ä stadnum oc ä aullum stadarbuunum oc j aullum vmbodunum. Jnprimis kyr c xxx. Jtem gomul naut xxx oc vj. Jtem ä fiorda vetur xxx oc iiij. Jtem ä þridia vetur viij tiger oc iiij. Jtem ä annan vetur vij tiger oc eitt. Jtem aa fyrsta vetur c xl oc viij. Jtem lomb iij^c oc xxx oc v.

Jtem haufum vier saman iafnad þad sem var til lifs oc bus vm sumarid oc til fial[l]s vid þad sem var til lifs oc fodurs vm haustid epter ad reiknudum sumar vanhaulldum oc haustaflogun. Jnprimis kyr vt sem inn. Gomul naut oc vng vt sem inn. Jtem äsaudur vt sem inn. Jtem gamler sauder oc vnger vt sem inn. Jtem fullroskner hestar oc vnger vt sem inn. Jtem gomul hross oc vng vt sem inn.

Summa kirkiu kugildi j Floa oc ä Skeidum 23. Jtem leigukugildi ij^c viij tiger oc i½.

Summa j baadum Hreppum c xl oc iiij leigu kugildi. Jtem ij kirkiu kugildi.

Summa kirkiu kugildi j Biskupstungum xij. Jtem leigu kugildi i½c.

Summa kirkiu kugildi j Auluesi oc Grimsnesi med Laugardal xiiij. leigu kugildi ij^c oc 25.

Summa kirkiu kugildi oc leigu kugildi j Skambeinstada vmbodi. 7 kirkiu kugildi. Jtem leigu kugildi c oc xxx.

Summa j Grindavick med Krysevick. viij kirkiu kugildi. Jtem leigu kugildi xxx oc i½.

Summa kirkiu kugildi oc leigu kugildi j Heynes vmbodi. Borgarfirdi oc Bryniudal. Jnprimis kirkiu kugildi ij. Jtem leigu kugildi c vij tiger oc vij.

Summa summarum kugildi ä stadnum oc aa aullum stadarins buum oc j fodrum oc leigu kugildi j aullum vmbodum oc staucku kugildi hia audrum monnum. Jnprimis xiij^c oc ix kugildi betur.

Summa summarum kirkiu kugildi j aullum stadarins vmbodum viij tiger.

Summa summarum gomul naut oc vng iij^c xxx oc iij.

Summa summarum gamler sauder oc vnger ijc xx oc iiij.

Summa summarum gamler hestar oc vnger ixtiger oc j.

Summa summarum gomul oc vng hross 72.

Summa summarum lomb iijc 35.

Suo micil hlutar skreid oc landz skylldar skreid j Grindavijck. Herdisarvijck. Seluoge. Þorlachshofn med EyrarBacka. half þrettanda lest. reiknadizt skreid vt sem inn.

Suo mickil smior heim komenn [ijc. hundrud[1]) vætta heim latid af stadar buum. oc suo golldit vr aullum staudum.

Suo micil vetrar vanhold ä stadnum och aullum stadarbuunum. Jnprimis ær xl oc ix. Jtem gellder sauder xij. Jtem vij hestar fullroskner.

Stod þennann Reikningskap heidarligr Dandismann Gisle Bondi Sueinsson. Enn þennann Reikningskap tok herra Gisle Jonsson S. S. Voru þesser Reikningsmenn Sijra Jon Biarnasson. Herra Erasmus Vilhialmsson. Sijra Einar Olafsson. Sijra Þordur Jonsson. Sijra Ellendr Þordarson.

---

148. 8. janúar 1569. á Ketilsstöðum.

ÓLAFR ODDSSON fær Einari bónda Eyjólfssyni umboð erfðaeignar sinnar.

AM. Apogr. 4752 b „Ex originali". Innsigli Ólafs Oddssonar var fyrir bréfinu, en hin voru glötuð.

IESVS.

Þat giori eg Olafur Odzson kristnum monnum kunnigt j þessu minu opnu brefi. at eg medkennunst þat eg hefi gefit mitt fullt og løgligt vmbod Einare bonda Eyolfssyni. fromum heidursmanne. yfer øllum þeim fiemunum sem mier thil heyra og til erfda epter minn faudur fallit hafa Odd heitin Jonsson. Gud jlifur hans sal fride. j minna hlut og meira. kuikum og daudum

1) [Svo.

hlutum vtan stocks og jnnann. Suo og sierdeilis þau þriu c sem eg epter liet hia minum faudur fyrir .viij. arum og xx. og mier fiell i erfd epter modur mina med þeim kaupalnum eg feck hia godum monnum adur eg austur for j Austfiordu i fysta sinn. hefi eg ecki hrept neirn hlut af greindum þrimur hundrudum j fyr nefnd är. Skal og ma adur skrifadur Einar bondi til sijn taka alla fyr ritada peninga. med fara. bruka og bijhallda sem sialfur eigi. suo og fyrir sitt omak eignazt sem honum lijkar og ockur vel semur nær Gud uill vid finnunzt. Vona eg thil minna brædra. at þeir mune mier eckert motfall hier vpp a giora. Skulu þeir kuitter minna vegna vm greinda peninga. þad Einar bondi lætur sier lijka vel ad taka. og hann vill þa frijada vm giora. at jafnfullu og eg sialfur. Saumuleidis framda ec greindan giorning thil stadfestu vpp a adur skrifat vmbod med handsolum vid Sigurd Einarsson sem vmbod hefur j Mulaþinge hans vegna. þessum til nefndum nær verandi vottum: Helga Stullasyne. og Jone Þorhallasyne. Setiandi sijn jnnsigle med minu jnsigle fyrer þetta vmbodz Bref. scrifat a Ketilsstødum j Vallanes kirkiu soknn. lavgardaginn næstan epter þrettanda dag jol. arum epter Gudz sonar IESV Christi fæding: m. d. lx og ix.

---

149. 16. janúar 1569. á Bergsstöðum.

HÉRAÐSDÓMR dæmir Bergsstaðakirkju hálfan Fossadal, ef Jón Ljótsson leiði eigi eignargögn að á næsta manntalsþingi, með öðrum greinum, er varða brot Jóns Ljótssonar við kirkju og prest.

AM. Apogr. 3759, efir frumritinu, sem var á kálfskinni; er uppskriftin staðfest i Hvammi i Hvammssveit 2. júni 1710 af Páli lögmanni Vidalin, síra Magnúsi Magnússyni og Ormi Daðasyni. — Prentað i Alþb. Íslands V, 23—25.

Þat giorum vier Magnus Magnusson prestur. Sigurdur Þormodsson. Magnus Gunnsteinsson. Ellendur Jons-

son svarner laugrettumenn. Gudmundur Einarsson ok Olafur Þorsteinsson godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefe. at þa lidit var frä Gudz burd M D lx og ix aar faustudagenn næsta epter Geisladag[1]) um veturenn j Bolstadahlid j Langadal ä þingstad riettum vorum vier j dom nefnder af heidarligum manni Einari bonda Þorarinssyne logligum umbodzmanne Þorvalldz bonda Biørnssonar kongs umbodzmannz j Hunavatnzþingi til at skoda. Rannsaka og[2]) fullnadar doms atkvædi aa at leggia hversu fara skyllde su ägreining sem var ä mille þeirra sira Bryniolfs Arnasonar ok Jons Liotzsonar. um landet Fossadal. hvert ath greindur Jon Liotzson hiellt sina eign vera.

Kom þar fram fyrir oss ath ädurgreinder menn sira Bryniolfur Arnason ok Jon Liotzson hefdu sat[t]samliga med handsolum sig til laga lagt um allt þath hvor matte til annars tala j adur sagdann stad og dag. hvad ed flester af oss domsmønnunum saum og aheyrdum med fleirum audrum godum monnum. Leitz oss þar fyrir underlagit logligt ok Jon Liotzson riettiliga fyrir kalladann.

J annare grein komu fyrir oss jnsiglut mäldaga bref Bergstada kirkio. af hendi Sira Bryniolfs. under Jnnsigle virduligs herra herra Olafs Hialltasonar. hvers sal Gud almattugur til eijlifra fagnada nadat hafe. og annara fimm dandi presta. svo hliodande. at kirkian a Bergstaudum aa allann halfann Fossadal fyrir austan og þar gagnvært[2]) fyrir vestan allt framan til rietta. Enn af hende Jons Liotzsonar komu þar eingin prof ne skilriki framm.

J þridiu grein kiærdi optnefndur sira Bryniolfur Arnason til Jons Liotzsonar ath hann hefdi halldit sinne tiund og kirkiunnar j oleyfe.

Avikur svo laugmälit. at epter gognum ok vitnum skal hvert maal dæma. Þvi j Gudz nafne Amen. at heilags anda näd tilkalladre. ath svo profudu ok fyrir

1) þ. e. 14. jan. 2) Svo.

oss komnu. fyrir þessa grein laganna ok þær allar fleire sem oss ok þennann vorn dom styrkia mega. dæmdum vier ädursagder domsmenn med fullu doms athkvædi fyrgreind maldagabref Bergstada kirkio fullmyndug og skialig uth j aullum sinum greinum ok articulis. ok landit Fossadal fullkomliga vera og verit hafa Bergstada kirkio eign. svo leingi ok þar til ath tittnefndur Jon Liotzson leiddi sig til sama landz med fullkomligum eignarbrefum þeim er fyrrgreindum kirkiunnar maldagabrefum hrijndi. Enn þrattnefndann Jon Liotsson edur hans fullmegtugann umbodzmann dæmdum vier skylldugann at koma med sin bref ok skilriki aa þath næsta manntalsþing til Hlidar. edur eiga alldrei þadan j fra sins mals uppreistn nema lauglig naudsyn banne.

Enn fyrir þvi optnefndur Jon Liotzson kom ecki epter sinu lofordi j adur sagdann stad og dag. dæmdum vier hann sekann mørk. halft konge enn halft sakaräbera.

Enn fyrir þau tiundar hølld sem sagdur sira Bryniolfur kiærdi til Jons Liotzsonar. dæmdum vier hann sekann þrimur mørkum fyrir hveria tiund epter þvi sem tveggia tylfta domur med laugmannz urskurdi um kirknanna og kiennimannanna tolla ok tiunder adur dæmdur aa millum annara greina utvisar.

Samþyckti þennann vorn dom adur greindur umbodzmann. Einar bondi Þorarinsson og setti sitt jnnsigle med vorum fyrrgreindra domsmanna jnnsiglum fyrir þetta domsbref hvert skrifat var a Bergstaudum j Svartaardal þann xvja dag Januarii a sama are sem fyrr seigier.

---

**150.** **19. janúar 1569.** **á Auðkúlu.**

KAUPMÁLABRÉF Jóns Einarssonar og Helgu Guðmundsdóttur.

AM. Fasc. LVI, 17, frumrit á skinni. Öll (5) innsiglin eru nú dottin frá.

Kaupmala Brief Jons og Helgu 1569.[1])

Jn nomine domini amen

lystizt ok stadfestiz suo felldur kaupmale at fyrer farandi logligre lysingv aa giptingardeige ok brullaupsdeige aa mille þessara manna Jons Einarssonar af eirne alfu. en Helgv Gudmundardottur af annare at suo fyrir skildu at Gudmundur bondi Einarsson ok hans heidurskuinna Liotun Paalsdotter giptu nefnda Helgu dottur sina greindum Jonne Einarssyne med þuilijku fekaupe ok skilmaala. sem hier seigier. j fyrstu taldi sagdur Jon Einarsson sier til kaups vid fyrnefnda Helgu .lx. hundrut sem voru .xl. hundrut j jordvnne Audolfsstodum j Langadal, er liggur j Gunnsteinsstada kirkio soknn ok þar til .xx. hundrutt j audrum godum peningum. hier j mote gafu fyr nefnd hion Gudmundr ok Liotunn fyr greindre dottur sinne Helgu .x. malnytu kugilldi ok þar til god .xx. hundrutt j audrvm peningum. gaf tijtt nefndur Jon Einarsson þratt nefndri Helgv Gudmundardottur .xv. hundrutt j sina lauggiof ok fiordungsgiof. huar fyrir maale hennar ʀeiknazt vc ok .xl. hundrut j gardi greindz Jons med samþycki modur hans ok brædra. hier med festi fyr skrifadur Jon Einarsson optnefnda Helgu Gudmundardottur sier til logligrar eiginnaʀ konu efter gudz laugvm logliga epter laugbokarennar ordum. med hennar godvm vilia ok jayrdi epter fylgiande kristiligre bæn oc hionavijgslv med logligv lagabrullaupe. Suo ok heyrdum vier þaa ok savm aa ord þeirra brædra fyr skrifads Jons Einarssonar ok hans brodurs Bessa Einarssonar. at greindur Besse lofade med handsolum at selia sinvm brodur. þratt nefndvm Jone þau xx hundrut sem hann atte j nefndre jordu Audolfsstodum. þaa hann villdi þav selia. Worv þesser festingarvottar ok brullaups. ok allz fyr skrifadz skilmala oc giornings. Sueirn Baardarson. Þorsteirn Gunnason prestar. Paall Grimsson. Einar Þorsteinsson og Magnus Gunnsteinsson huerier at

1) Utan á bréfinu m. allgamalli h.

settu sin jnsigle fyrir þetta kaupmaala ok laugmaala bref skrifat aa Audkulu j Svinadal midvikudagin fyrst-[an] j þorra. for þesse giorningur framm j Finztungv j Blondvdal arum epter Gudz burd M d. lx ok ix.

---

151. 2. febrúar 1569. á Hóli.

VITNISBURÐR um sætt Magnúsar Jónssonar og Bjarnar Bjarnasonar um bætr Bjarnar fyrir menn sína fyrir grip þeirra á fé Magnúsar.

AM. Apogr. 1068 „Ex originali Sæmundar Magnussonar ä Holi i Bolungarvik“ (AM.), og var innsiglið þá enn fyrir bréfinu.

Um Kielldu j Mioafirdi.[1])

Suo felldann vitnisburd ber eg Olafur prestur Sueinsson sem hier eptir stendr skrifadur aa faustudaginn næstann fyrer annunciasio Mariæ[2]) j Augre j Jsafirde þar j kyrkiunni var eg tilkalladr at sia og heyra ä þann sama er þeir giordu sijn ä millum Magnus bondi Jonsson og Biørn Biarnason vm þaa klagann er Magnus hafdi vpp a menn Biarnar Biarnasonar fyrir þaa peninga er Magnus bar at þeim og lysti sijna eign og þeir skylldi haundhafa at ordit ä Strondum ä jordu Magnusar. Skilde adurnefndur Magnus sier xij[c] j þennann sama og skylldi Biorn Biarnarson þä peninga giallda Magnuse j suo mata. at su kuittan sig hielldi j allann mata er Magnus Jonsson þä vt gaf monnum Biarnar huerier voru Jon Jonsson. Jon Biarnarson og Jon Einarsson. skilde Magnus sier i greindan sama iiij malnytu kugillde ij[c] j iardarwerd er Magnus tok wnder sialfum sier. sæng fyrir hundrat er Magnus hafdi j iardarverd lofad nefndum Jone manne Biarnar oc þar til iiij hundrut i silfre edur audrum godum vel tækiligum peningum. skylldi greind iiij. kugillde gialldast at næstum fardaugum. Enn iordin Kellda er liggur i Miofafirde

---

1) „stendur utan ä brefenu“ (AM.). 2) það mun vera 19. mars 1568.

i Watzfiardarkirkiusokn hun var þar alldri tilskilinn af Magnusi at Biorn skylldi honum greinda iord fä i adurnefndum samning fyrir hans menn Biarnar. tilskilde Biorn Biarnason at hallda suo framt þennan sama og giorning vid Magnus at menn Biarnar væri frij og frialsir fyrir allre äklaugun annara manna vm þad sakferli er Magnus hafdi til adrnefndra manna klagat. annarz sagdi Biorn at hann hielldi ecki þennann sama. og til sanninnda hier vm at suo i sanleika war þaa set eg mitt Jnnsigli fyrir þetta bref huert skrifad var aa Holi i Bolungarvijk sialfan dag purificacijo Mariæ anno domini 1569.

---

152. 8. febrúar 1569. í Kaupmannahöfn.

KONUNGSBRÉF um Staðarhól, að Páll Jónsson njóti eignarréttinda sinna á þeirri jörð.

AM. Apogr. 1481 „Ex transscripto originalium exarato 1704."

Um Stadarhol.

Vij Frederich thennd anden med Gudtz naade Danmarchis. Norgis. Wenndis och Gottis koning. Hertug udi Slesviig. Holstenn. Stormarn och Dythmersken. greffue udi Oldenborg och Delmennhorst. Helsse thig oss Elskelig Christoffer Walckenndorff vor mand och thienner kiærligen med gud och vor naade. Vijd att thenne breffviser Pouel Jonsen haffuer verit her hoss oss och berett hvorledis ther er trette Emellom hannom paa thend ene och Dadde Gudmundsens arffuinge. ther paa wortt lannd Jslannd. paa thend anden siide. om enn gaard kaldis Staderhull mett sin tilliggelse. liggenndis for vesten ther paa vort lannd Jslannd. och thend sag till forne haver verit udi rette. och forne Pouel Jonsenn tha paa thennd tiid bleff same gaard. med sin tilliggelse tildømpt. och Dadde Gudmundsenn thend stund hannd leffde. och effter hannom hans arffuinge. ligevel siiden thend dom vor udgangit. haffue oppeborit landgilde och anden rettigheed. aff samme gaard

och thendz tilliggelsse. Emoed same doms lydelsse. som hand meen med urette och theg sielf ydermer ald leilighedenn ther om berette kannd. Thij bede vij thig. befalle. och nu med thette vortt obnne breff. fuldmagt giffve att thu til første aeltinng. sam holdis och besøgis ther udi wort lannd Jslannd. est til stede. thagindes til theg laugmendenne och laugrettismendenne steffnindis begge parterne med thieris breffue och beviisning for etther udi rette och hielper forne Pouel Jonnsenn. ther udindenn saa møgit som rett er. saa hannd maa komme til hviss som hannom bør att haffve med rette. for thend oppebørelse som forne Dadde Gudmundssen och hanns arfuinge haffue oppeborit. af same gaard. och thenndtz tilliggelse. siiden efter vor kier herre faders befalningh. ther om dømpt var med ald anden skade. kost och thering. som hand ther paa giort och liid haffver udenn landtz och indenn. och hannom therfor med rette tilkomme kand. och hviss j thennom ther om Emellom forhandlindis worder. attj thet giffue fran etther beschreffvit som j ville anntsvare for gud och vere bekiende for oss. Bedendis och byudendis begge parternne som same sag anrørendis er. atti med etthers breffve och beviisning møder til første allting for thennom. Effter som forschreffvit staar och tha att liide och vnndgielde. hviss ther om Jslanndtz loug och Rett er. Ladindis thett ingenlunde. Giffvit paa vort slott Kiøpnehaffnn. thend viij. Februarij aar M. D. Lxix. Vnder vort Signet.

Frederich.
(L. S.).

---

**153.** 10. febrúar 1569. **á Veðrará.**
5. júní 1571. **á Kirkjubóli.**

JARÐASKIPTABRÉF.

Jbsk. AM. Ísaf. 1. „fra Latrum vid Jsafiørd" (AM.). Staðfest uppskrift að Látrum við Mjóafjörð 26. júní 1704 af Steini Þorkelssyni og Jóni Bjarnasyni.

sonar í Vatnsfirði. — Ny kgl. Saml. 1847, 4to., A. 38 b, m. h. síra Guðbrands Jónssonar í Vatnsfirði 1669.

Breff herra Gisla Jonssonar[1]) um halfkyrckiur.

[Eg][1]) Gisli Jonsson s[uperintendent] S[kalholtstigtis] giori godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefi. Saukum þess ad[2]) mier wirdist naudsynligt og med aullu vidurkuæmiligt og sanliga med gudz bifalning. ad gudz ordz þienarar akti og vakti þa[3]) guds hiord sem hverium fyrir sig er ä hendi folgin. þa saukum þess ad æ meir og meir mætti blomgast gudz akr. hefi eg bodit aullum[4]) og sierhuerium þingaprestum[5]) ad Rida wm sinar þijnga[6]) sokner. og[7]) heim ä sierhuern[8]) bæ þess erindis[9]) folkid ad yfirheyra. huad þad mentast j gudz ordi. suo og þui herrliga[10]) ad wndirwisa [þad þad wantar[11]) suo þad mætti [æ meir og meir[12]) betra skilning [fa vpp ä sinn[13]) saluhialparveg til gudzRikis.

Jtem þar sem halfkirkiur stannda. og ecki eru med aullu af teknar. sierdeilis þær sem j fiarska stannda vid alkirkiunnar og þeir dandis menn[2]) sem þar eru heimilisfastir. og suo hinir[14]) adrir sem[2]) þar j nand bua. geta ecki suo aullu sinu folki til kirkiunnar komit. suo opt sem ad[15]) þeir villdu. sierdeilis þui sem [gamallt og siukt[16]) er þa skulu prestarner mega[17]) þuiliku folki þar [ad þessum[18]) halfkirkium gudz sacramenta[19]) gefa enn gudz ord þar og[20]) allzstadar ad predika sem optast.

Og til sanninda hier um [þryckium jeg[21]) mitt jnsigli ä þetta breff skrifat j Saurbæ ä Hualfiardarstraund þann.[22]) 23.[23]) dag[22]) Augusti Anno 1569.

---

1) vantar í 238. 2) vantar í 147. 3) þar 147. 4) eijnum, 147. 5) 238; þijngapreste, 147. 6) b. v. 1847. 7) b. v. 147. 8) huorn: 147. 9) erfidis, b. v. 1847. 10) 238; heimuglega, hin. 11) [huad aafaatt er, 147. 12) [faa þess, 147. 13 [aa sijnum, 147. 14) huorier, 147. 15) b. v. 238. 16) [vejktt og gamalltt, 147. [7) Vantar í 147. 18) [a þeim, 147. 19) -um, 147. 20) sem, 147. 21) [þricke eg, 147 og 1847. 22) b. v. 238. 23) 13, 1847.

217. 23. ágúst 1569. í Miklagarði.

REIKNINGR Miklagarðsumboðs eftir Ólaf byskup Hjaltason fráfallinn.

AM. Fasc. LVI, 23, frumrit á skinni úr safni Hólastóls (nú í þjóðskjalasafni). Innsiglið er dottið frá. — AM. Apogr. 3454.

1569 Reikningur effter Miklagards umbod.[1])

Eg Þorbergur Bessason medkiennunst med þessu mijnu opnu brefi at þa lidid var fra holldgan Jesu Christi. M. d. lx. oc ix ar fyrir fardaga vm vorid at fra kolludum Herra Olafi Hialltasyni godrar minningar giordi ec sera Sigurdi Jonssyne so felldan reikningskap af Myklagardz vmbodum. og þar heimapeningum. sem hier epter skrifast.

J fyrstu heima j Myklagardi kyr med vondum og godum xij.

naut fimm vetra eitt.
naut fiogra vetra eitt.
naut þrieuett eitt.
naut veturgomul þriu. og
kuigur veturgamlar ij.
kalfar iij.
asaudur fimtiger oc ix.
tuæuetrer sauder xix med hrutum tueimur.
veturgamler sauder xxj med fiorum j eldum.

Voru oc nockrar kyr og naut af fyr greindum nautum.

J eldum. Hestar iij.
Hross fullordin iiij oc þar til tuævett eitt.
veturgomul ij.

Hier til eitt naut er kom fra sera Olafi j Saurbæ. oc atti honum þar fyrir at gialldast jc.

Jtem kugilldi med iordum j Myklagardz vmbodum med vondum og godum. niutiger og eitt og ein ær betur þar til aflogzkyr vond j Hleinargardi heim skilad.

Þessa peninga afenti ec nefndum sera Sigurdi eda

1) Utan á bréfinu m. h. þeirri frá 17. öld, sem venjulega er utan á Hólabréfum.

þeim sem hann til setti med at taca. oc til sagdi kugillda med iordunum en eigi meiri peninga.

Jtem j kosti smior nær vj fiordungar.
fiskar nær ij vætter.

Busgagn vont og lasid sem reikningur vtuijsar.

Oc til sannenda hier vm set ec mitt insigli fyrir þetta bref huert skrifad var xx oc iij dag Augusti a sama stad oc ari sem fyr seiger.

---

218. 25. ág. 1569. í ferjuhúsinu við Hvítá.
2. október 1569. á Bessastöðum.
8. júlí 1571. á Bessastöðum.

SKIPAN djákna á kirkjur í Skálholtsbyskupsdæmi.

Dómabók þjóðskjalasafns í fol., bl. 183 a—b, skr. um 1600. — Bréfið 2. okt. er og í Ny kgl. Saml. 1847, 4to., D. 11—12 (bók síra Guðbrands Jónssonar í Vatnsfirði), og er það skr. ca. 1700. — Prentað í Alþb. Ísl. I. bls. 95—6.

Wmm diakna til kirknnanna.

Anno 1569 aa fimtudaginn fyrer 12 sunnudag epter trinitatis nidri aa hamri þar j feriuhusinu baud og skipadi Olafur Jannesson hirdstiori yfer allt Jslannd epter konglig maiestatis ordinantiu og epter skipan og bodi þess Eracthuga edlabornna Junngberra Christophors Walchendorps ad ec[1]) skylldi lata lærdann pillt ä hueria kirkiu. sierdeilis þar sem fien wæri til ad þiona prestinum ad Gudligu embætti wtann kirkiu og jnnan. Jtem feingist þeir ecki suo margier ad sinn yrdi ad hueri kirkiu. þa skylldu þeir wera aa tueimur edur þrimur til jafnadar epter fiarmagnni.

Woru hier widstadder þesser dandismenn. Gijsli Sueinsson. S[ira] Einar Olafsson. Wighfus Jonsson. Narfi Ormsson. Bartiel Olafsson og margier fleiri goder menn.

---

1) Það er Gísli byskup Jónsson.

Diaknar setiest aa benefitia.

Eg Olafur Baggi kongleg maiestatis fouite yfer Jslannd kiennist oc giauri witurligt fyrir aullum med þessu mijnu opnu briefi ad ec wppa kongleg maiestatis wegna hefi samþyckt oc bijfalad ærligum oc halærdum manni herra Gijsla Jonssyni ad setia einn diaknna wppa huert benefitium sem haunum synist ad þeir benefitiatar hafa noga renntu oc jnntekt oc skulu saumu diaknnar þar suo leingi wera sem adurnefndur herra Gijsli will þa til skolans taka edur wijgia til kiennimanna ef þeir suo lærder eru. Þetta er oc þad ad minnsta ad þeir sem stor benefitia hafa ad þeir huer wmm sig wppfædi oc wpplæri sialfum Christo einn lærdann mann þann sem kann ad grunnda og j minni ad leggia Gudz heilaugu ord nær þeir werda til skolans tekner. Enn ef suo kann ad skie ad þar finnist sa nauckur benefitiator sem wnder þetta will eigi gannga þa mä hann sannliga þeinkia sig þar wmm ad hann skal sitt benificium missa. Hier med skulu og fyrnefnder diaknar wera adurskrifudum benefitiatis hlyduger og auduellder j allri þeiri Gudz þionustu sem þeim ber ad giaura. Og til meiri witnisburdar et cetera.

wtgefid aa Bessastaudum 2. dag Octobris Anno 1569.

---

Samþyckt Johanns Bucholltz.

Þetta fyrskrifad bref samþyckie eg wppa mijns naduga herra kongsins wegnna og j aullu stadfesti ec Johann Bucholt konglig maiestatis bijfalningsmann yfer allt Jslannd j allann mata myndugt. til witnisburdar hier wm et cetera.

giaurt ä Bessastaudum 8. Julij Anno 1571.

---

219. [2. september 1569]. í Skriðu.

SKIPTABRÉF eftir Þorleif Grímsson.

AM. Fasc. LVI, 22, frumrit á skinni. Að eins 1 innsigli hefir fyrir bréfið komið — „hvernig þad hafi til komed, er enn övïst“,

segir Árni, — og er það enn fyrir bréfinu. Á miða, sem bréfinu fylgir, ritar Árni: „Mitt, feinged til eignar af Erlende Jonssyne ä Hvole. 1710. in Jan. Jnnsigled sem vid hanger er Sira Biarnar Gislasonar. S. Beroni. pr. tor.“ „kann þar af siäst, ad fader Sira Biarnar hefur heited Þorgils“ (AM.). — AM. Apogr. 4740 b (eftir þessu frumriti). — Lbs. 787, 4to., bls. 81—3, m. h. Odds digra. — Bréfabók Guðbrands byskups i þjóðskjalasafni, bls. 69—71. — Steph. 27, 4to., bls. 45—7, m. h. Benedikts lögm. Þorsteinssonar. — Prentað i Sýsl. I. bls. 211—12.

Skiptabref epter Þolleif h[eitinn] G[rim]sson. Skriduskipte.[1])

Ollum godum monnum sem þetta bref sia edur heyra sendum vier Biorn Gijslason. Gudmundur Skijdason og Boduar Jonsson prestar Holabiskupsdæmis. Paall bondi Jonsson. Tyrfingur Halldorsson og Halldor Þorlaksson leikmenn quedio guds og vora kunnigt giørandi þa lidit war fra holldgan Jhesu Christi. M. D. lx og ix är. aa Skridu j Horgardal a almenneligu hieradzþingi vorum vier til skipta nefnder af velburdigum herra Orme Stullasyne løgmanni nordan og vestan aa Ijslannde. loglig arfa og eignar skipti ad giora a mille barna Þorleifs heitins Grimssonar þeirra sem hann atti med sinni seirne kuinno. ad nafni Solueg Hallsdotter þui þeim hafdi a Bessastodum ollum skipst halfer peningar sins faudurs Þorleifs Grimssonar adur a sama sumri epter vors naduga herra kongs Fridrics incigludo brefi. huort fyrir oss þar var vpplesit og so þad bref inciglad sem giordist a Bessastodum vm alla peninga adur greinds Þorleifs. þui epter adur greindum brefum ad gudz nafni til kolludo giordu vier suo felld eignar og arfa skipti med adur greindum epterkomendum Þorleifs Grimssonar. sem hier seiger.

J fyrstu skiptum vier Einare Grimssyni sonarsyni opt nefnds Þorleifs epter fyrstu erfd iøfnum hlut vid dottur Þorleifs. þar suo stendur. slikan hlut skal taca sonarson af arfi sem dotter ef hann er til. þui hans fader Grimur andadiz fyr en Þorleifur. og skiptum Einare Grimssyni

1) Utan á bréfinu m. h. Guðbrands byskups.

Hölum j Eyafirdi fyrir .ll. hundrud.
Jorvnarstodum .xlc.
Kolgrimastodum xxc.
Villingadal nedra .xc.
j Kierholi .xc.
j Iokli .vc.

J annari grein þui fyrir oss var fram borit ad Þorleifur Grimsson hefdi sialfur gipt og af arfi leyst med heimanfylgio sina dottur Sigridi. sidan hefdi hon fra fallit og hana erft hennar barn og sidan hefdi þad barn erft þess fader Egert Hannesson og þui fyrir þa grein skiptum vier Egert so sem fyrir hennar adur sagda heimanfylgio.

halfum Kirkiouogi j Høfnum fyrir sunnan land a Rosmalarnesi xxxvc.
halfum Kaupangi j Eyafirdi xxxc.
Fifelgerdi xxc.
Eyrarlandi xxc.
Veigastodum xxixc.
Vlfa xc.
j Kierholi xc.
j Iokli vc.
Skogum xxc.
Griotnes vc.

Jtem skiptum vier Þuridi Þorleifsdottur j sitt eignar hlutskipti

jordunne Annastodum j Eyafirdi fyrir lc. hafdi hennar fader þa iord fyrir .xxx. arum henni gefit.
Torfufell fyrir lc.
Tiarner fyrir xlc.
Halldorstader fyrir xxc.
Villingadal fremra fyrir xc.
j Iokli vc. og j Kierholi xc.

Jtem Hallötu[1]) Þorleifsdottur j sitt eignarskipti iordunne halfri Silfrastodum j Skagafirdi fyrir lxc.

1) Svo.

Borgargerdi xijc.
Fornhaga fyrir xlc.
Midbacka fyrir xc.
Vargia fyrir xlc.
Drablastodum j Soludal xvic.
Wr skiptum Orms og Þorbiargar vc. af þeim peningum Þorbiorg hafdi feingit epter sinn fodur Þorleif Grimsson og j Iokli vc.

Voru vid þessi vor skipti logliger vmbodsmenn allra adur greindra arfa.

samþyckti og stadfesti þessi øll adur skrifud skipti med oss Ormur Stullason logmann. þui setium vier adur skrifader menn vor incigli fyrir þetta skiptabref hvort giort var j sama stad deigi sijdar enn fyr seiger.[1])

[Hier helld eg Silfrastade ½ lx[c]. med halfum Kotum og af þui er su jord ecki nefnd. og ecki helldur fremre Kot. þuiat þad er kirkiu eign. Þesse nedre Kot atti Ormur half. med Silfrastodum. enn Hallotta half med halfum Silfrastodum.[2])

---

220. 2. september 1569. [í Skriðu].

SKIPTABRÉF síðari konu barna Þorleifs Grímssonar.

Lbs. 115, 4to., bls. 278—9, m. h. síra Jóns Halldórssonar ca. 1720. — ÍB. 126, 4to., bls. 196—8. — Sbr. Sýsl. I, 212.

Skipta Bref i millum seinne Barna Þorleifs Grijmssonar 1569.

Anno 1569. þann 2. dag Septembris skifftum vær efftег skrifader menn. sira Biørn Gislason. sira Gudmundur Skijdason. sira Bødvar Jonsson prestar. Tyrfingur Halldorsson. Pall Jonsson. og Halldor Þorlaksson þessum effterskrifudum peningum med Børnum Þorleifs Grijmssonar.

in primis. Eggert Hannessyne halfum Kyrkiuvoge med halfum Kotvoge fyrir xxxc.

1) Engin dagsetning áðr í frumritinu.
2). [Aftan á bréfinu m. h. Guðbrands byskups.

Jtem halfft Merkenes fyrir vc.
hälfum Kaupange xxxc.
Fifelgerde xxc.
j Veigastødum xxixc.

Ulfä xc. og hefe eg Eggert hana feingid Magnuse Biørnssyne fyrir. xc. i Kerhöle. og þar til hlotnadest mier Eggert Hannessyne ønnur xc. i Kerhöle so eg ä nu i honum xxc. jcc xivc.

Einare Grijmssyne skifftest i sinn hlut Holar fyrer LLc.

Jorunarstader fyrir xlc.
Kolgrimastade[r] xxc.
i nedra Villingadal xc.
i Kerhöle xc.
i Jøkle vc. jcc Lxvc.

Hallottu skifftust hälfer Sijlfrastader fyrir Lxc.

Borgargerde xijc.
Fornhaga fyrir xlc.
Midbacka fyrir xc.
Vargiä xlc.
Draflastader xvjc.
hia Orme Stullusyne vc i jørdu.
i Jøkle vc. jcc lxviijc.

Þurijde Þorleifsdottur skifftust

Arnastader (svo) fyrir Lc.
Torfufell Lc.
Tiarner xlc.
Halldorstader xxc.
i fremre Villingadal xc.
i Kerhole xc.
i Jøkle vc. jcc. lxvc.

NB. Þetta effterskrifad hefe eg Eggert Hannesson ad tala til Jons Marteinssonar og hanns kvinnu fyrir minn part þad hann hefur ei neitt þad framm lagt i fyrrskrifudum skifftum og hvorke fyrr nie seinna.[1]) sem var i Holum og ä Mødruvøllum. ad hanns kvinna

1) sine, hdr.; síðar, Sýsl.

þar medtök. og þar var effter þa fedga fra fallna. sem eru aller dauder peningar. hvørier hellst þeir hafa verid. ecke hesta nie hross. uxa nie gielldinga. og ei helldur af neinum kugijlldum. hvørke af þeim. sem voru heima ä gardenum. nie ä leigustødum. og ei helldur hvad häfa peninga. ad hann hefur medferdis hafft i fastaeign. medan hun sat i þeim.

---

221. 6. september 1569. á Hofstöðum.

VITNISBURÐR um sama efni sem næsta bréf á undan.

Bps. Skalh. Fasc. XIV, 7, frumrit á skinni. — AM. Apogr. 2473 m. h. Árna Magnússonar, og lýsir hann innsiglum.

Svo felldann.vitnisburd ber eg Þorleifur Einarsson. ad eg medkennunst. eg var a alþingi þad sama sumar. sem ad dömur geck af ffromum dandismonnum vïsustum leikum sem þa ä Jslandi woru epter þvi sem su skrä hliodar. sem herra Gïsle Jonsson liet lesa fyrir mier i Miclahollti.[1]) ad epter þeim witzmunum. sem gud hefur mier gefid. þä var hann þvi nærr og med svoddan understaudu uppsagdur sem hun hliodadi. og i sannleika at svo er. þrycki eg minu innscigle fyrir þetta vitnisburdarbref. hvert ed skrifad var ä Haufstaudum i Miclaholltzhrepp þann 6. Dag Septembris aar etc. 1569.

---

222. 9. september 1569. í Ási.

JARÐASKIPTI með þeim hjónum Eiríki Snjólfssyni og Þuríði Þorleifsdóttur og Halldóru, dóttur þeirra.

AM. Fasc. LVI, 25, frumrit á skinni. Þrjú innsiglaför, en innsigli ekkert.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia eda heyra sendum vier[2]) Arne prestur Olafsson og Olafur Þor-

1) „Er ad skilia um Vatzfiardardom mille Hanness Eggertssonar og Ogmundar biskups 1530“ (AM.). 2) Svo.

steinsson kuædiu Gudz og sina[1] kunnigt giorande Arum epter gudz burd M dc lx og ix þann ix dag Septembrismanadar ä Asstad j Fliotzdalshieradi worum vier j hia säum og heyrdum upp ä ord og handsol þessara manna af eirne alfu Ereks[1]) bonda Sniolfssonar enn hans kuinnu Þuridar Þorleijfsdottur af annari. ad suo fyrir skildu ad fyrir þad ad Erekur[1]) Sniolfsson hafdi mist þä jord Seliahlijd og xvjc part j Eyuendarstaudum sem fyrrnefnd Þuridur hafdi greindum Eriki[1]) fyrr gefid fyrir jordina As j Fliotzdalshieradi þä feck hun honum til fullrar eignar med handsaulum fyrir Äs aptur jordina Tiarner er liggur j Eyiafirde fyrir nordann land j Hola kirkiu sokn med aullum gædum sem henne ä med laugum ad fylgia. Enn gångi hun af med laugum þä skylldi Erekur bondi og hans epter komendur eignast aptur sitt anduirde As. suo og j sama stad oc dag vorum vier j hia saum og heyrdum upp a ord og handsaul Ereks Sniolfssonar og hans kuinnu Þuridar Þorleifsdottur af eirne alfu enn Magnusar Biornssonar af annari ad suo fyrir skildu ad fyrir þann xxc part sem greind Þuridur hafdi gefit til heimanfylgiu sinne dottur Halldoru Ereksdottur og af henne hafdi geingid skylldi hun eignast jordina Halldorstadi j Eyiafirde j Höla kirkiu sokn med aullum giædum. Enn fyrir Seliahlijd oc Eyuendarstadapart er greindur Erekur hafdi adur skrifadri sinne dottur Halldoru gefid oc af henne uar gengit skylldi hun hallda adur skrifada jord Tiarner. Enn gengi hun af henne eda hennar epterkomendum. þä skylldi hun og þeir eignast xlc af jordum Ereks Sniolfssonar ad til skildu hans anduirde. Og til sanninda hier vmm set eg Erekur Sniolfsson mitt jnscigle med fyrr skrifadra manna jnsiglum fyrir þetta bref er giort var j sama stad og dag sem fyrr seiger.

---

223. 12. september 1569. í Ási.

KAUPBRÉF fyrir Bakka í Borgarfirði.

1) Svo.

AM. Apogr. 4261, m. h. Jóns Magnússonar á Sólheimum „Ex originali“ „ä kalfskinn“.

Ollum monnum sem þetta bref sia edur heyra sendum uier Arni Sigurdsson. Olafur Þorsteinsson og Ormur Skeggiason. kuediu gudz oc uora kunnigt giorandi at arum epter gudz burd. M. d. lx og ix a Asstad i Fliotzdalzhieradi þann xij dag Septembris uorum uier i hia saum oc heyrdum upp a ord oc handaband þessara manna Magnusar Biornssonar af eirni alfu enn Hialms Sueinssonar af annari at suo fyrir skildu at greindur Hialmur selldi oc fieck nefndum Magnusi Biornssyni alla iordina Backa er liggur j Borgarfirdi i Austfirdum i Myrarstadar kirkiu sokn med ollum þeim gognum oc giædum, rekum og itolum til sios oc lands sem greindri iordu fylger oc fylgt hefur at fornu og nyu og iordunne a med logum at fylgia oc Hialmur uard fremst eigandi at. hier i mot gaf Magnus Biornsson .xx. og ijc. i lausagozi og þar uti skilin xij kugilldi og þau gialldast ut a tueimur arum. skylldi Magnus hallda greindri jordu til laga og strax eignast oc at sier taka. enn Hialmur suara lagariftingum. lysti Eirikur bondi Sniolfsson þui at hann nefnda iord Backa gefit hefdi Hialmi nær fyrir xx arum oc samþyckti oss asiaandi med handsolum þennan kaupskap. Og til sanninda hier um setium uid Magnus Biornsson oc Hialmur Sueinsson ockar inncigli med fyr greindra manna inncigIum fyrir þetta bref er giort uar i sama stad dag oc är sem fyr seiger.

---

224.

16. september 1569. í Reykjavík.

KAUPBRÉF fyrir 20 hundr. í Reykjavík á Seltjarnarnesi.

AM. 239, 4to., transskrift á skinni frá 3. júní 1617. Sbr. Alþingisbók 1571: Kópavogsþing 1. — Pr. í Alþb. Ísl. I., bls. 54—5.

Þad medkiennunst vier epterskrifadir menn Sueijrn Arason. Gijsle Bøduarson. Jon Jonsson og Jon Þorualldzson þa lidid var frä Gudz burd 1569 tuejm nottum eptir krossmesso umm haustid i Reykiavijk a Seltiarn-

arnese. ad vier vorum i hia saum og heyrdum ä ord og handaband þessara manna Narfa Ormssonar og þeirra Brædra Þordar Asbiarnnarsonar og Jons Asbiarnarsonar. Enn þat faldist undir þeirra handabande at þeir brædur Þordur og Jon selldu Narfa Ormssyne 20 hundrud i Reykiavijk. sem kallast austurpartur eda suo miked sem þeir mattu framast eiga og sier bære eptir þeirra sälugu modur. Enn Narfe Ormsson lofade þeim þar j stadinn 20 hundrudum gilldum sijn tiju hundrud huorum þeirra. Suo og tilskildu þeir ad Narfe Ormsson skyllde standa sier fyrir skulld oc skada huert hann næde þeim Vijkur parte eda ecke og þui lofade adur grejndur Narfe. Suo og gafu þeir honum alla lagasokn ä þessum fyrrgreindum 20 hundrudum Vijkur parte[1]) sem frekast þeir mættv med løgum giora. Og til sanninda hier um setium vier fyrrgreindir menn vor jnnsigle fyrer þetta vort Bref skrifad i sama stad og dag sem fyrr seiger.

Þad medkiennum vier eptirskrifader menn Sera Gijsle Oddsson. Sera Erlendur Jonsson. Arne Oddsson. Halldor Dadason. Snorre Jonsson og Audun Jonsson ad vier høfum sied og yferlesed suo latande bref[2]) ord epter ord sem hier fyrir ofann skrifad stendur. var þad öräsürad og med þremur[3]) hangande jnnsiglum. Og til sanninda hier um festum vier vor jnnsigle fyrer nedann þetta Transskriftarbref. Skrifad i Skalhollte þann iij dag Junijmanadar arum eptir Christi fæding M DC og xvij.[4])

---

225. 16. september 1569. í Skálholti.

JARÐASKIPTABRÉF á Eyri í Kjós og Kirkjuferju í Ölfusi.

Jbsk. AM. Kjósars. 4. Árni lýsir innsiglum.

---

1) Svo. 2) domsbref, b. 3) tueimur, b. 4) Samhljóða þessu vidimus er vidimus af Kópavogsdómi frá 17. apr. 1570 um Reykjavík, nema sá orðamunur, sem hér er kallaðr b.

Þat giorum vier Þordr prestr Gislason. Narfi Ormsson. Caprianus Eyolfsson. Barthiel Olafsson. Godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi. wier medkennunst at j Skalhollti vm haustid fimtudaginn næstan fyrir hinn fimtanda Sunnudag Trinitatis. þar j timburstofunni. uorum uier j hia savm og heyrdvm a ord og handsaul þessara manna. af eirni alfu H[erra] Gisla Jonssonar. enn af annari alfu Vigfus Jonssonar j vmbodi brodur sins Olafs Ionssonar. þad faldist og skildist vndir þessu þeirra handabandi. ad med radi og samþicki Olafs Janssonar Hirdstiora yfer allt Island og Gisla Sueinssonar ʀadzmanns j Skalhollti. Selldi adrnefndr herra Gisli fyrrnefndum Fusa Jordina alla Eyri er liggur j Kios j Saurbæarkirkivsokn. med aullum þeim gaugnum og gædvm sem greindri jordu fylger og fylgt hefr ad fornu og nyiu bædi til sios og landz med avllu þui sem finst j iordu edr a. og ecki finnast eigendr ad eptir laugum vndann Skalholltz Domkirkiv og hennar formonnum æfvinnlega enn vndir Fusa og hans brodr[1]) Olaf til æfvinlegrar eignar og frials forædis. Hier j mot gaf tittskrifadr Wigfus iordina alla Kirkiuferiu er liggr j Aulwsi j Arnarbæliskirkiusokn. med fullnadar Jayrdi og handabandi sins brodrs[1]) Olafs. vndann þeim og aullum þeirra eptirkomindum. enn vndir Skalholltz Domkirkiv til æfvinlegrar eignar og frials forædis med aullum þeim gaugnum og gædum sem greindri iordu fylger og fylgt heffr ad fornu og nyiu. woru þessar jardir ad dyrleika xxxc huer vm sig til kaupahlutans. enn xc. j heimalandi kirkiveign aa badum. woro med Eyri. vj. malnytukugilldi. enn med Feriu viij. Skylldi þad hallda huor wm sig sem huorri Jordu fylgdi. kynni suo ad skie. ad vpp aa þessar jardir være talat. þa skylldi huor wm sig hallda sinu kaupi til laga. og svo svara lagarijptingum eptir laugmali. woru vid þennann giorning staddir margir godir menn fleiri.

Og til sanninda hier wm setti adurnefndr Olafur

---

1) Svo.

Jansson hirdstiore og Herra Gisli Ionsson. og adrnefndr. Gisli bondi Radzmann. Sin innsigli med worum fyrrnefndra manna jnnsiglum fyrir þetta kaupbrief huert ad skrifat var [i] Skalhollti. þann xvj. Dag Septembrismanadar Arum eptir Gudzburd M. d. Lx og ix.

Þetta fyrskrifad bref er rett samannlesid vid sinn Original ä kalfskinn skrifadann med sex heilum og öbräkudum hängandum Jnnsiglum. Til merkis ockar nøfn ä Saurbæ þann 26 Junii Anno 1705.

Eyolfur Biørnsson. m e h. Ormur Wigfusson m e h.

---

**226.** **21. september 1569.** **á Svalbarði.**

KAUPBRÉF fyrir þriðjungi í Björnólfsstöðum í Langadal.

AM. Fasc. LVI, 26, frumrit á skinni (uppskafningr). Innsiglið fyrir. Líklega m. h. Sigurðar Jónssonar á Svalbarði. — AM. Apogr. 4745 b.

Biornnolfsstada Breff.[1])

Jeg Þorarinn Filpusson kiennist og giori godum monnum kunnigt med þessu mino opno briefi ad eg hefi sellt og afhent med handsolum og nu j krapti þessa mins opna briefs sel og afhendi heidurligum dandi manni Pale Jonssyni hinn þridia part j iorduni allre Biornolfsstodum j Langadal westur j Holltastada kirkiusokn med ollum þeim gognum og giædum er greindri jordu fylgir og fylgt hefur ad forno og nyiu og eg ward fremst eigandi ad j arf epter Philipus heitinn Þorarinsson faudur minn og Solueigu heitina Jonsdotter[2]) modur mina til jafns wid mina brædur. Wndan mier og minum erfingium. Enn wndir Pal Jonsson og hans erfingia. Og kiennist at ec hefi fulla peninga wpp borid af Pale Jonssyni fyrir þennann jardarpart [suo wel[3]) ä nægir. Þar fyrir gief og giori eg Þorarinn Filpusson fyr

---

1) Utan á bréfinu m. gamalli h. 2) Svo. 3) [Svo.

skrifadan Pal Jonsson og hans erfingia quittan og äkiærulausann fyrir mier. minum erfingium og epterkomendum fyrir adur skrifadann jardarpart og werd. Og til sannenda hier wm set eg mitt jnncigli fyrir nedan þetta mitt giorningsbrief huert skrifat war ä Sualbardi ä Eyiafiardarstrond þann xxj dag Septembris manadar anno m. d lx og ix.

---

227. 21. september 1569. á Svalbarði.

KAUPBRÉF fyrir öðrum þriðjungi í Björnólfsstöðum í Langadal.

AM. Fasc. LVI, 27, frumrit á skinni (uppskafningr), og er innsiglið fyrir. Er líkl. m. h. Sigurðar Jónssonar á Svalbarði. — AM. Apogr. 4746 b.

Biornolfzstader j Langadal.[1])

Jeg Sygurdur Jonsson kiennist og giore Godum monnum kunnig[t] med þessu mino opnu brefi ad eg hefi selltt og afhent med handsolum og nu j krapti þessa mins opna briefs sel og afhendi heidurligum dandi manne Pale Jonssyni hinn þridia part j jordunne allri Biornolfsstodum j Langadal vestur j Holltastada kirkiu sokn med ollum þeim gognum og giædum eʀ greindri jordu fylgiʀ og fylgt hefur ad forno og nyiu og eg ward fremst eigandi at Eptir kaupi Jons Filipussonar. enn hann j arf eptir Filipus heitinn Þorarinsson faudur sinn og Soluegu heitina Jonsdottur modur sina til jafns wid sina brædur wndan mier og minum Erfingium: enn wndiʀ Pal og hans erfingia: Og kiennist ad eg hefi fulla peninga wpp borid af Pale Jonssyni fyrir þennann jardarpart [suo wel[2]) ä nægiʀ. Þaʀ fyrir gief og giori eg Sygurdur Jonsson fyr skrifadann Pal Jonsson og hans erfingia quittann og äkiærulausan fyrir mier [og] minum erfingium og eptirkomendum fyrir adur skrifadann jardarpart og werd. Og til[3]) sannenda hier wm set eg mitt jnncigli fyrir nedan þetta mitt giorningsbrief huert

1) Utan á bréfinu m. 17. aldar h. 2) [Svo. 3) tvíritað.

skrifat war ä Sualbardi ä Eyiafiardarstrond þann xxj dag Septembers manadar anno. M. d. lx. og ix.

---

228. 23. september 1569. á Holtastöðum.

DÓMR um arftöku eftir Guðmund Gunnlaugsson.

AM. Apogr. 5610, m. h. Jóns Magnússonar á Sólheimum. „Ex originali“ „ä kalfskinn“.

Þad giorum wier Sijgurdur Þormodzson. Magnus Gunnsteinsson suarner logriettomenn. Gudmundur Einarsson. Biarne Paalsson. Jon Þorlaksson og Magnus Sæmundzson. Godum monnum kunnugt med þesso woru opno brefe. þa lidit war fra hingadburd wors herra Ihesu Christi. m. d. lx. og ix aar. j Bolstadarhlijd j Langadaal a almenneligo hieradzþingi fimtodaginn næstan fyrir Michaelsmesso vmm haustid[1]) worum wier thil doms nefnder af heidarligum manne Jone bonda Biornssyni er þa hafde kongsins syslo og wmbod j Hunavatzþingi. thil þess ad skoda. rannsaka og fullnadardom aa ad leggia epter løgum huer logligur medtokomadur wera skylldi til þeirra peninga sem i arf woru fallner epter Gudmund heitinn Gunnlaugsson og kolludu til þess arfs af annari alfo Biarne Gunnlaugsson lanngetinn broder hins andada fyrrnefndz Gudmundar. wegna sins sonar Gunnlaugs huern hann hiellt skilgietinn epter þeim jnnsigludum brefum sem hann þar fram bar fyrir oss. enn af annare alfo klagade Haakon Ionsson til fyrgreindra peninga vegna sinnar stiupdottur Gudnyiar Þosteinsdottur. sem war skilgietinn brodurdotter hins andada fyrnefndz Gudmundar af skilgietnum brodur komenn. et cetera. wm huxudum vier vorar samuiskur og suo logmalit þad þessum badum portum vid kiemur. J fysto auijkur so vort erfdatal i .iiij. erfd ad broder skilgietinn þott fader hans sie frijlloson sie nær erfd epter adursagdann Gudmund

1) þ. e. 22. sept.

heitinn Gunnlaugsson helldur enn brodurdotter skilgietinn af samfæddum brodur komenn. enn saker þess ad dandimenn visso fyrir full sanninde ad adurnefndur Biarne Gunnlaugzson fader nefndz Gunnlaugs hafdi lagt med knijfe Eyiolf Arnason heima aa hans heimile nordur j Waladal þar a sænginne þa greindur Eyiolfur var þar wistarmadur og ecki neina logliga kuittun feingit aa greindo misferle þa virtist oss þessi greindur Gunnlaugur sonur Biarna Gunnlaugssonar eij skilgietinn vera nie verit hafa þui løgmalit vottar so i xiiij capitula i mannhelge: ef madur leggur mann med knijfe þa er hann wtlægur med þui fleira sem þar leingra wmm talar. J annare grein wottar so riettarbot Eiriks kongz ef madur aa born wid eiginnkono sinne aa medan hann er j wtlegd þa ero þau ecki arfgeing huorki til faudur arfs nie modur nema þui ad eins ad fader hans verdi innlendur sijdar meir. J þridiu grein hliodar so vort logmal i einum stad. vardar þeim micit sem til arfanna kalla ad þeir sieu i logligum hiuskap gietner et cetera. þar med þa wissum vier eigi adurgreindan Biarna Gunnlaugsson neina logliga kuittun hafa feingit fyrir þui danska slagie er hann hafdi med werit þa þeir voru slegner ed sydra vmm veturenn hvat alþingisdomur skal wtuijsa vmm þa menn sem þar voro i atuist wmm þo uær hofum þann dom eij syneliga yferlesid og þui fyrir þessar greiner og þær adrar fleire sem i logmalenu standa og hier ad hnijga þicker oss so sem Biarne Gunnlaugsson hafe eij neina kono ad logum matt eijga aa medan hann er ecki logliga wr greindum maalum geinginn og ecki hans born arfgeing þau hann hefur sijdan att er hann fiell i aadursagdar sakier huorki þessi hans sonur Gunnlaugur sem til arfsins kallar og eij aunnur vnder þui forordi sem fyrr greiner. sijdan hann fiell i fyrrgreind sakferle et cetera. so i annann maata komu fyrir oss ij witnisburder innsiglader skiluijsra dandi manna vmm skilgietning optnefndrar Gudnyar Þosteinsdottur huer vitne þad baaro ad moder hennar Helga Gudmundardotter hefdi logliga fest werit i

Blondodaalsholum þar i kirkiunne af hennar eiginn manne Þosteine Gunnlaugssyni faudur þrattnefndrar Gudnyiar. hliodar so vort logmal þar vmm. nu skulo þad wottar hans bera. vier vorum þar er moder hans var logliga fest j þeim staad og aanefna stadinn þa eiga þingmenn honum arf ad dæma enn fyrir þa grein ad annar festingarwotturenn war prestur enn annar suarinn logriettomadur þotte oss eigi naudsyn til standa ad þeir ynne eid ad sijnum innsiglum þui þar hafdi einginn tuimæli aa werit ad Þosteinn Gunnlaugsson hefdi eigi fullann giorning giort vid kono syna Helgo aa medan þau til lijfde og längt framm yfer þad. Og þui i guds nafne amen. ad heilaz anda nad med oss til kalladre og ad aullo so profudo og fyrir oss komno og fyrir þessar fyrsagdar greiner laganna og þær fleire sem logmalit hier vmm auijkur dæmdum vier sagder domsmenn med fullo doms atkuædi optnefndri Gudnyio Þosteinsdottur til fullrar eignar og frials forrædis sagdann arf og peninga epter Gudmund heitinn Gunnlaugsson þui epter voru erfdatale wissum vier aunguann nanara vera til arfs epter hann enn fyrsagda Gudnyu Þosteinsdottur skilgietna brodurdottur Gudmundar heitins Gunnlaugssonar af samfæddum brodur komenn. enn Haakone Ionssyni sinnar kuinno wegna thil haaldz og wmbodz fyrsagda peninga þui hann lofadi þar ad setia sijna peninga i borgun fyrir greindum omagaeyrer þui vier vissum eigi neirn nanara fulltijda. standa nær arfi Gudnyiar Þosteinsdottur enn modur skilfeingna. Helgo Gudmundardottur kono Haakonar Ionssonar. þui bokinn skipar sa skule veita vord bornum og fie sem arfi er næstur huart sem halldmadur verdur kallmadur edur kona og suo auijkur. Haakonar riettarbot ad erfingi aa kost ad hallda omagaeyre þo hann eigie minne peninga enn omaginn aa ef hann virdist öhættur skulldonautur. enn nanusto frændur fyrgreindrar stulko Gudnyiar Þosteinsdottur dæmdum vær skyllduga ad hyggia a hverium xij manudum huernenn med greint wmbod farid være og fa audrum ef sa dugier ecki med ad fara

med fullum wordzlum. Somuleidis skylldi Haakon greinda peninga ad sier taaka med leigoburdi þetta aar huort hann willdi j haust edur ad wore af þeim monnum sem hielldo þa þui þar hafdi aadur domur aa geingit ad greindur Haakon skylldi ad sier taka sagda peninga til wmbodz og medferdar.

Samþyckti þennann worn dom medur oss aadursagdur walldzmann. og sette sitt innsigle med worum fyrrgreindra domsmanna jnnsiglum fyrir þetta domsbref huert skrifad war aa Holltastodum j Langadaal aa sama aare deigie sijdar enn fyrr seigier.

---

229. 28. september 1569. á Suðr-Reykjum.

VITNISBURÐR um tilkall Hannesar Eggertssonar til Vatnsfjarðar, að það hafi verið dæmt ógilt.

Bps. Skalh. Fasc. XIV, 6, frumrit á skinni. — AM. Apogr. 2471. og lýsir Árni innsiglum og ritar svo (Apogr. 2472) um þenna vitnisburð og Þorleifs Einarssonar frá 6. sept. 1569: „1569 hefur eitthvad casu fattlast vid Vatzfiardardomenn 1530. eda einhver qvestion um hann tilfalled. þvi þä eru daterader vitnisburder Erlendz Þorvardzsonar og Þorleifs Einarssonar. Kannske um þad leite sie og daterud su schedula (sine anno) sem føst er vid þä kalfskinns Copiu i Skalhollte, sem fyrer er skrifadur Dade Gudmundzson og fleire.[1]) Amplietur. Þad hafa ä einhvern veg raskast innsiglen fra dominum, sem er i Skalhollte. og hafa menn hrædst einhveriar prætensiones. Kannske af alfu Eggerts løgmanns. og þvi hefur herra Gisle vered sier ut um vitnisburde Erlendz og Þorleifs Einarssonar.“ (AM.).

Suo felldann vitnisburd ber eg Ellendur Þoruardzson ad j þann tijd eg var laugmann fyrer sunnan og austann a Jslandi var eg ä alþijnge med audrum dandis monnum j dom nefndur af hirdstioranum Didrich fan Briamstad vmm þa klaugun sem Hannes Egertzson klagadi vegna sinnar kuinnu Gudrunar Biornsdottur sem var vmm þad gotz Vatzfiord og adrer fleire Gardar ä Vest-

---

1) Það getr þó ekki verið, því að Daði er þá (1569) dáinn. Dó 1563.

fiordum þa veit eg fyrir fullnadar sanninde at þar gieck domur ä. voru þar tilnefnder þeir skiluijsustu menn sem voru j aullu Skalholltz stigte. voru aull Bref Hannesar dæmd onyt og til einskis duganlig og hann skyllddugan ad fä þau Biskupinum suo hann mætti alldri framar meire önäd hier vm giora biskupinum. eda hans epterkomendum Skalholltz domkirkiu formonnum. Enn þær saker sem biskupin mätti til Hannesar tala gaf hann kuitt fyrir bænastad dandismanna. Og suoddan dom hefi eg jnnsiglat. hier epter vil eg sueria ef þurfa þiker.

Og til sanninda hier vmm þryckie eg mijnu jnnsigle ä þetta bref. Skrifad a Sudur Reykium j Mosfells sueit þann xij. sunnudag Trinitatis arum epter Gudz burd M. d. lx. og ix.

---

230. 6. október 1569. í Skálholti.

GÍSLI byskup Jónsson skipar síra Jón Einarsson prófast í milli Botnsár og Hvítár.

Lbs. 101, 4to., bls. 425—6, [efft]er „originali", m. h. síra Jóns Halldórssonar ca. 1730. — Prentað á latínu í kirkjusögu Finns byskups III, bls. 308 (með röngu ártali „1568").

Skickunar Bref Herra Gisla Jonssonar um profasts Embætte Sira Jons Einarsonar. Anno 1569.

Þad giøre eg Gijsle Jonsson superintendens Skalhollts stigtis godum monnum kunnugt med þessu mijnu opnu Brefe. og medkennest. ad eg hefe um beded. sett og skipad ærlega personu Sira Jon Einarsson officialem og tilsionarmann guds ords vegna og heilags religionis uppa allar þær andlegar saker sem mier ber effter mijnu Embætte um ad sysla og nockud svar til ad giefa. einkanlega ad gudz ord og H[eilagt] Evangelium Jesu Christi mætte hreinlega predickast. og meir og meir vid makt halldast med annare guds þionkan og heiløgum sacramentis utan kirkiu og innan. og hvad sem þesse fyrrnefnde Sira Jon hier utj verkar. skal vera ad jafnfullu sem eg sialfur sie. under rietta grein vid mig. þvi bid

eg alla og sierhvøria leika og lærda vera þessum Sira Jone hlyduger og heiruger hier utj. Enn sieu þeir nockrer. sem honum vilia ecke sinna i søgdu Embætte. þa hafe hann ecke par med þä. Skal þesse hanns umsiön taka fra Botnsä og ad Hvijtä. og so leinge standa. sem ecke er ønnur skipan ä giørd. Og til sanninda hier um þricke eg mijnu jnnsigle ä þetta Bref. Skrifad i Skalhollti þann .6. dag Octobris Anno 1569.

(L. S.)

---

231. 8. október 1569. á Leirá.

TYLFTARDÓMR um deilumál þeirra Þórðar Bárðarsonar og Pálma Sæmundssonar.

Lbs. 68, 4to., bls. 332—4 skr. ca. 1690. — Lbs. 63, 4to., bl. 293 b—4 b, m. h. Halldórs Guðmundssonar ca. 1640 (styttr). — Lbs. 69, 4to., bl. 172—3, skr. ca. 1640 (styttr á sama hátt sem i 63).

Eirn Hierads Domur vm orda aburd.[1])

Anno Domini 1569. Domur um [Þord Bardarson[2]) og Palma Sæmundsson dæmdur ä Leijrä þann 8 dag Octobris. [Þordur Gudmundsson var þa syslumadur.[3])

[Voru dömsmenn Einar Eyreksson. Hallur Olafsson. Vigfus Jönsson. Øgmundur Hallsson. Sigurdur Jönsson. Magnus Hrölfsson. Jön Magnusson. Jön Jönsson. Gudmundur Jönsson. Gudmundur Helgason. Olafur Hrolffsson og Petur Bødvarsson.[4])

J fyrstu klagade Palme til Þordar Bardarsonar ad hann hefde yrkt sinn leijgumäla Leijrä og sleiged vpp ä xx hesta hey edur meijra. Þar vændest Þordur ad heijmilld Jöns Grijmssonar. ad hann heffde sier þetta land byggt er hann slä liet. Þar dæmdu þeir ad husbændur greindra manna skylldu sig med løgum tilleida hvar[5]) huor þeirra[6]) ætte og sønn landamerke finna[7]) mille þessara jarda. Og þad giørt hafa hid seinasta innann næstu 12 mänada og sä svare þö[8]) fyrer

---

1) 63. 2) [mal Þordarsonar(!) 68. 3) [b. v. 63. 4) [sl. 63. 5) huad 63. 6) b. v. 63. 7) leida 63. 8) sl. 63.

sinn landseta sem þä hefur ösannara og eige þä huor ad sijnumm heimilldarmanne.

J annare grein klagade Palme til Þordar so og Þordur til Palma ad huor [umm sig hefde annann beitt.[1]) þar dæmdu þeir ad huor umm sig skyllde vitne til leida huorn skada huør hefde feinged af annars peninge og sä skyllde ødrumm svara er fyrer skada hefde orded ad sex skinsamra manna vijrdingu so sem mismunur er.

J þridiu grein klagade Palme til Þordar ad hann hefde sleiged sig tuo høgg til høffuds med oxe [heima[a] ä sijnu heimile[2]) Leijrar landeign. Þar dæmdu þeir ad Palme skyllde leijda þar ad tuo løgleg vitne. enn eff vitnen fallast þä sverie Þordur fyrer. enn [sverie Þordur eige. þä sie hann[3]) sekur 2 morkum vid kong fyrer huort hoffudhogg enn vid Palma sie hann sekur i fullriette 3 morkum fyrer huørt høgg. enn eff vitnenn [fallnast enn[4]) Þordur sver þä sie Pälme slijku sekur vid Þord sem Þordur være ef hann være sannur ad søk.

Jtem klagade Þordur til Palma ad Palme heffde sagt ad hann hefde rænt og stoled þar dæmdu þeir ad Þordur skyllde vitne ad lejda. Og ad þeim leiddumm dæmdu þeir Palme sekann 4 mørkum vid kong enn fullriette Þordar 3 merkur fyrer huørt ord. [utann Palme ætte sökn ä þui med løgum ad Þordur hefde frä Palma rænt eda stoled og þä dæmdu þeir þad sakalaust og Þord slijku sekann þä vid Palma sem Þordur være eff hann være sannur ad søk ef vitnenn fallast.[5])

[Jtem klagade Þordur til Palma ad hann hefde hrækt framann i sig. Þar dæmdu þeir ad Þordur skyllde vitne til leijda ad Pälme hefde þad giørt. ad þeim leiddum sie Palme sekur 3 morkum vid Þord. enn konge ij merkur. enn Palme sverie þar fyrer eff Þorde fallast vitnenn og Þördur þä sijku sekur vid Palma sem Pälme være vid Þord eff satt være.[6])

---

1) [heffde beitt annars land 63. 2) [b. v. b. 3) [fallist eijdur 63. 4) [falla og 63. 5) [sl. 63. 6) [sl. 63.

[Vtnefndur og samþycktur þesse domur aff Þorde Gudmundssyne. sem þä hafde kongsens ummbod yfer Þuerärþinge.[1])

---

232. 10. október 1569. í Heynesi.

DÓMR dæmir rétt fangaða þá menn, sem ekki vilja lög standa (ágrip).

Lbs. 68, 4to., bls. 334, skr. ca. 1690. — AM. 60, 8vo., II, bl. 16 b—17 a, skr. ca 1661—90 (styttra ágrip).

Domur umm þä sem ecke vilia log standa dæmdur ä Heynese dag 10. Octobris 1569.

Voru dömsmenn Þorsteirn Sigvatsson. Erlendur Gudbrandsson. Vilhialmur Oddsson. Sæmundur Sigvatsson. Sigurdur Paalsson og Rafn Þorbiarnarson.

Jtem dæmdu þä alla riettfangada sem nochrar sannar saker heffdu og ecke villdu log standa [þar kongs ummbodsmadur tilkreffde ad forfallalausu.[2])

utnefndur og samþichtur af Þorde Gudmundssyne þesse dömur.

---

233. 2. nóvember 1569. að Skarði.

HALLDÓRA BJARNADÓTTIR lofar að átelja ekki skipti föður síns og Odds bónda Tómassonar.

AM. Apogr. 4757 b „Ex orig. komnum frä Sira Þördi ä Stadarstad, enn til hanns frä Borg i Borgarfirdi. Jnnsiglen eru øll 5 burtu“.

Þat giaurum vier Sira Magnus Þordarsson. Gudmundur Jonsson. Jon Sigurdzson. Raugnvalldur Eyolfsson. og Svein Sigmundsson. godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi: at ä Skardi a Skardsstraund. umm veturenn. næsta dag effter allra heilagra messu. þa lidid var frä Gudz hingadburd. m. d. lx og ix. är. at Hall-

1) [Samþ(yckti) 63. 2) [þa syslumadur krefdi þess 60.

dora Biarnnadotter lofadi med liuflegu hand[aban]di. er hun þä þar hafdi vid Odd bonda Thummasson. at hun skylldi alldri klaga edur lata klaga upp ä neina þa peninga. jarder eda lausafie. sem sinn fader Biarne Vigfussonn. sem gud hanns sal nädi. hafdi sellt edur feingit fyrnefndum Odde Tummassyne fræn[da] sijnum. helldur hitt. at hun gaf hann þar um aulldungis kvittánn og akiærulausann. ef hun kynne edur mætti þar nockra tiltølu til eiga. Hier i mot lofadi fyrnefndur Oddur og hans sonur Biarnne. at styrkia adurskrifada Halldoru. so leingi sem Gud þä til ennti. og hun lieti sier at gödu verda. Og til sanninda hier um setium vier fyrnefnder menn vor insigle fyrer þetta bref hvert skrifat var ä Skardi a Skardzstrond. ä sama are sem fyr seiger.

---

**234.** **3. nóvember 1569.** **í Saurbæ.**

**HANNES BJÖRNSSON kvittar Eggert Hannesson um fjárgæzlu fyrir sig og systr sínar á arfi foreldra sinna og um útgreiðslu peninga Steinunnar Jónsdóttur.**

AM. Fasc. LVI, 28, frumrit á skinni. Innsiglið er dottið frá. Bréfið er m. h. Eggerts Hannessonar. — AM. Apogr. 4753 b m. h. Árna Magnússonar.

Quittun Eggerttz Hannessonar fyrir vmbodz peningum barna Biornz heitinz Hannessonar og suo þeim peningumm sem jnn hofdu komit hia honum af peningumm Steinunar Jonsdottur.[1])

Jhesus.

Þad giore eg Hannes Biornsson Godum monnum kunnigt med þessu minu oppnu breffi. þad eg medkennunnst ad minn fodurbroder Eggertt Hannesson hefur mier vt greitt og golldid suo sem mier vel likar alla þä peninga quika og dauda. lausafie og fastaeigner sem hann hefur til eignar vmbodz haftt og mier og minumm

1) Utan á bréfinu m. sömu h. sem bréfið sjálft, þ. e. Eggerts sjálfs.

systrum fiellu til erfda eppter ffodur vorn og modur. hefur eg fyrskrifadur Hannes Biornsson sialfur þessa peninga af honum og hanz afuendingarmonnum medtekid og medtaka latid j minna hlut og meira til fullrar og allrar anægu[1]) sem fyrr meir greiner et cetera. Suo og medkenunst eg adur greindur Hanes Biornsson ad þratt neffndur Eggert Hannesson hefur mier og vtgreitt og golldid alla þä peninga quika og dauda j minna hlut og meira. sem jnn hofdu komit hia honum af peningum Steinunnar Jonsdottur magkonu minnar eppter þui sem mier vel likar og anæger. Og þui giore eg adr greindr Hannes Biornsson og gef tittskrifadann Eggertt Hannesson og alla hanz erfing[i]a og eppterkomendr quitta og olldungis akierulausa fyrir mier og minum systrum og suo ollumm vorumm orfumm og eppterkomendumm vmm medferd og halld ä vorum peningum þeim hann hefur til vmbodz haftt sem fyrr meir greiner med sama hætti skal hann og quittur af mier vmm peningagialld vid mic vegna Steinvnnar. Og til sanninda hier vmm ad suo er og halldast skal sem fyrr skrifad stendur. þä festi eg opptt nefndur Hannes Biornsson mitt jncigle nedan fyrir þetta quittunarbreff huertt skrifad var j Saurbæg ä Raudasandi aa fimtudæginn næstann eppter allra heilagra messo þä lidid var fra Jesu Christi hingad Burd M. d. lx. og ix ar.

---

235. 9. nóvember 1569. á Grund.

TESTAMENTUM Þorsteins Guðmundssonar.

AM. Apogr. 4082, m. h. Jóns Magnússonar á Sólheimum „Ex transcripto“ „ä pappir, og fest saman vid transcriptadann urskurd Orms løgmanns Stullasonar, sem under er transkrifftar vitned og tvø jnnsigle“. Úrskurðrinn er 28. dec. 1569, en transscriptum sýnist vera 13. sept. 1570; er það ártalslaust.

Jhesus.

Jn nomine domini amen. Þad medkiennist ec Geir-

1) Svo.

mundur prestur Jonsson at ec var þar j hia staddur j litlu badstofunni at Grvnd j Eyiafirdi at heidur[ligur] dandi mann Þorsteinn Gudmundzson var krankur j likama enn heill at vite giordi hann sitt testamentum ä midvikudaginn næstan fyrir Marteinsmessu vm veturinn mier og odrvm godvm monnvm hia verondvm þa lidit var fra gudz bvrd Jesu Christi M d lx og ix ar. J fyrstu gaf hann sig gudi almattugvm j valld og hanz sæta syni Jhesu Christo og vnder arnann. bæn og framistodu fyrir sier vnder hanz himneska faudur og hanz blezudu eingla. vardveizlu heilagz anda et cetera.

Jtem j fyrstu sem hier seiger. jatadi hann og medkiendist at hann hefdi gefit og golldit sinne kvinnu hustru Þorvnni Jonsdottur suo heitande jardir Tinda og Hlid epter þui sem þeirra kaupmalabref jnnehelldur og hann ynni henni best at niota sinna peninga. svo jatadi hann at hann giæfi syni sinvm Asmundi Þorsteinssyni jardernar er svo heita Skerdingsstadi og Brecku med þeim kvgilldvm sem þar med eru.

J þridiv grein lofadi [og] lysti hvstrv Þorvn Jonsdotter at hvn giæfi greindann Þorstein aulldvngiz kvittann vm þa peninga sem hann hefdi golldit og vtlagt af sinvm peningvm vegna Oddz sonar sins sem ero xl^c kongsvalldinv og xx^c Þorleifi heitnvm Grimzsyni en x hundrud Olufu dottur sinni. lofadi greind hvstrv Þorunn so framt sinne kvittann sem hanz erfingiar hielldi allann fyrskrifadann giorning og þetta testamentvm i allann mata obrigdvliga halldast skylldi og næstann fimtudag epter medtok hann gudz holld og blod Jesu Christi gudz sonar og bifaladi sig j gudz hendur og alla sina frændur og vine og velgiorningsmenn og bad þa alla fyrir Jesu Christi skulld sierdeiliz sina erfingia og born þessa sina testamentvm [giord] og frivilia j allann mata hallda enn ecki i moti tala og sagdist hann med þessvm sinvm sidasta vilia bifala oss alla vnder gvdz vernd og blessvn Jesu Christi. Og til sannligz vitnis vil ec hier epter sveria ef þurfa þikier.

Og til sanninda hier vm set ec mitt jnncigli fyrir þetta

testamentvm bref hvert er giort var j sama stad og dag og ari sem fyr seigier.

---

236. 25. nóvember 1569. að Brjánslæk.

JARÐASKIPTABRÉF.

AM. Apogr. 4743 b „Ex orig. Hlidarend. Brefed er med hendi Eggerts løgmanns Hannessonar“.

Jhesus.

Þad giorum vier Magnus prestur Eyiolfsson. Olafur Jonsson. Fuse Helgason. Helge Filpusson Gödum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi. ad þa er lidid var frä hingadburde vors liufa lausnara Jesu Christi M d. lx og ix ara. aa fostudæginn næstann epter Andresmessu vm veturinn a Brianslæk a Bardastrond. þä vorum vier þar j hiä. säum og heyrdum þar uppa ord og handaband þessara manna af eirnne alfu Eggert Hannesson. enn af annare alfu Torfi Andresson. enn þad faldist og skildist vnder þessu þeirra handabandi. ad adurnefndur Eggert Hannesson selldi fyr greindum Torfa Andressyne adur skrifadann gard Brianslæk ä Bardastrond firer .xxxc. bonda eignina j þessum garde. og þar til jordena Arnorstade. og þar til ij quillde firer xxc. Somuleidis jordena Hamar ä Hiardarnese firer vjc. Ligg[i]a þessar badar jarder j fyr greindz stadar kirkiu sokn. Hier j möte gallt og selldi tittnefndur Torfi Andresson medur raade og fullnadar samþycke sinnar kiæru modur Gudrunar Biornzdottur. optnefndum Eggert Hannessyne jordena Höl og Litlueyre. bädar fyrer lxc. er ligg[i]a j Billdudal j Otradals kirkiu sokn. og hier til jordina Rakknadal firer vjc. er liggur j Patregxfirde j Saudlausdals kirkiu sokn. sellde huor odrum þessar fyrskrifadar jarder vndann sier og sijnum Erfingium. enn þad vnder þann sem keypte og hanz erfingia til æuenligrar eignar. nada og nytsemda. medur ollum þeim gognum og gædum sem ollum fyr greindum jordum fylger og fylgt hefur ad fornu og nygu[1]) bæde

1) Svo.

til sios og landz. allt til skilid. enn ecki neitt vndann tekid. epter þuj sem loginn frekast lofa og framast vtvijsa og huor þeirra vm sig var fremst eigandi ad ordinn. epter løgmäle. Skilde bæde Eggert og Torfi suo til j þessu þeirra handabandi og kaupi ad þad skylldi mætast ad jofnu. fyrst Lækur ä Bardastrond og Höll j Billdudal. þar næst Arnorstader og þar til ij quilldi. og Litlaeyre j Billdudal. þar med skyllde mætast Hamar a Hiardarnese og Racknadalur j Patregxfirde. för allur þesse fyrskrifadur kaupskapur framm fyrgreindra manna ä medal. epter þuj sem loginn aa vijsa. Skylldu huorutuegg[i]u hallda sijnu kaupe til laga og suara lagariptingu fyrer þad sem sellt hafde edur hanz erfing[i]ar. Og til meire audsyningar. stadfestu og sannz vitnisburdar hier vm ad suo j sannleika er sem fyr stendur skrifad þa festum vier fyr nefnder menn og kaupvottar vor jnsigle med jncigle Eggertz Hannessonar firer þetta kaupbref huert skrifad var j sama stad og a sama äre og deige sem fyr seiger.

---

237. 26. nóvember 1569. á Bakka.
JARÐASKIPTABRÉF.

AM. Apogr. 4744 b, m. h. Styrs Þorvaldssonar „Ex originali sira Pals Ketlssonar“.

Þat giorum vær Hialmur Sueinzson. Jon Jonsson og Brandur Sveinsson godum monnum kunnigt med þessu voro opnu brefi at arum epter Gudz burd M. d. lx. ix. a Holum j Eyiafirdi ä Clemenzmessodag[1]) um veturinn vorum vær hia. saum og heyrdum ä ord og handaband Sera Biarnar Gijslasonar. og Jons bonda Marteinssonar at svo fyrir skildu at nefndur Jon fieck søgdum sera Bijrni til fullrar eignar jordina Hallgilstadi j Fnioskadal j Hälzkirkiu sokn fyrer xxxvjc. j stadin jardanna Palmholltz og Krokstada. enn j stadinn jardarinnar

1) þ. 23. nóv.

Fijfelgerdis fieck greindur Jon fyrnefndum Sera Bijrni jørdina Skoga j Fnioskadal j Häls kyrkiu sokn fyrir xxc. til fullrar eignar. saker þess at fyrgreindar jarder Palmhollt. Krokstader og Fijfelgerdi høfdu gengit af nefndum sera Bijrni. Svo og gallt ädurnefndur Jon fyrgreindum sera Birni jørdina nedra Villingadal fyrir x malnytukugilldi oc iijc j jørdune Gijlsaa fyrir iii½ malnytu kugilldi er optnefndur Jon medkiendist at þratt nefndr sera Biorn atti adur hia Jone. Skylldi optnefndur Sera Biørn eignazt fyrgreindar jarder med øllum þeim gøgnum og giædum sem þeim hafa fylgt at fornu og nyu og adur nefndr Jon og hans eiginnkvinna Gudbiørg Ellendzdotter og hennar sonur Einar Grijmsson urdu fremst eigandi at. Samþyckti fyrrnefnd Gudbiørg og hennar sonur fyr nefndr Einar allan fyrgreindan kaupskap og giørning med handsølum vid oftnefndan sera Biorn. Svo og lofadi ädurnefnd Gudbiørg at svara sera Birni lagariftingum ä ädurgreindum jørdum med svo lätanda skilmala. Ef jørdin Hallgilzstader kynni med løgum af at ganga tijdt nefndum Sera Bijrni. þa skylldi Gudbiørg fä honum þar i stadinn adra jafngoda jørd. eda .xx. malnytukugilldi og .xxc. j gelldum nautum og saudum. oc .x. jupïnndali.[1]) Enn ef jørdin Skogar kynne af at ganga. þa skylldi adurgreind Gudbiørg fa sera Bijrni þar i stadinn adra iafngoda xx hundrada jørd. eda xvj mälnytu kugilldi. og þar til fiogur hundrud j gielldum nautum og saudum. Enn ef jørdinn Villingadalur kynni af at ganga. þa skylldi þratt nefnd Gudbiørg fa Sera Bijrni þar i stadinn adra jafngoda jørd eda .x. malnytu kugilldi. Enn ef iardarparturinn j Gijlsä kynni af at ganga. þa skylldi þrattnefndur Jon Marteinzson svara optnefndum sera Bijrni ødrum jardarparti jafngodum eda .iiij. malnytukugilldi. Enn tijdt nefndur sera Biørn lofadi at hallda øllum ädurgreindum jørdum til laga. Og til sanninda hier umm setium vær vor jnnsigli fyrir þetta bref er skrifad var a Backa i Øxnadal. þrimur døgum sijdar enn fyʀ seigiʀ.

1) „ita scriptum est. non vero juchind". (AM.).

Snorre p. Hallzson[1]) svo fellda peninga med Hialltastadarkirkiu sem hier eptir stendur skrifad.

J fyrstu 6 kugilldi Bufiaar. eirn tiu aura kapal. eirn ketil bættann. iij trog. eckirt mathellt. iij upgiordarkerølld[2]) med sama moti. eitt xx skiolna keralld med tveimur giordum j þrem stodum loggbrotid.

Jtem inan kirkiu ein messuklædi gomul og lasin. eitt alltarisklædi med brvn. ljitill dukur aa alltarinu. fiorar kluckur med tveimur körbiollum. voru tvær kolflausar. hueriar ec selldi kirkiunni fyrir ketil. vo onnur af þeim 16 merkur og 20. onnur 12 merkur einar. Jtem eirn kalekur lasin med tini og vaxi samanbættur. nockrar fär bokaskrædur gamlar. eirn bokastockur.

---

289. í júní 1570.

TRANSSKRIPT eða vidisse af bréfum um erfðamál eftir sira Björn Jónsson á Melstað.

Frumbréfasafn JS. nr. 15, brot af frumrituðu vidisse á skinni, sem bæði hefir verið skorið utan af og neðan af, svo að ekkert af bréfunum er þar heilt, og blaðið blakkt og máð. Þar i hafa verið þessi bréf:

1. Skiptabréf Kristófers Þrándarsonar og Axels Júls á eignum sira Bjarnar Jónssonar 23. júní 1551, Dipl. Isl. XII. nr. 145.
2. Kvittunarbréf Páls Hvítfelds til Jóns Magnússonar 5. júlí 1553, Dipl. Isl. XII. nr. 328.
3. Vitnisburðr Þormóðar Arasonar 22. maí 1567.
4. — Einars Sigurðssonar 29. apr. 1567.
5. — Jóns Brandssonar 4. maí 1567.
6. — Páls Grímssonar 27. mars 1568.
7. — Arngríms Jónssonar 10. apr. 1568.
8. Sveinsstaðadómr Þorvalds Björnssonar 26. apr. 1568 (að eins niðrlag).
9. Alþingisdómr Orms lögmanns Sturlusonar 30. júní 1569 (bréfaðr 25. sept.). — Alþb. Ísl. I, bls. 51—52.

[Vier epter skrifader menn ...............] laugrettumenn. Þollakur Einarsson og Olafur Gislason prestar medkennunz med þessu voru opnu brefi ad vier

1) Halldzson c. 2) Hér þrýtr c.

haufum sied og yfer lesid suo latandi bref med heilum og o[skøddum hangandi innsiglum ord epter ord sem fyrr skrifad sten]dur og haufum vier giorla at gaad og rannsakad og saman lesid bædi þeirra transkriptum hier aa þessum brefum fyrr skrifad[1]) eru oc so þessi haufudbref jnsiglud oc hliod[andi ......] ord epter ord sem hin er med jnsiglunum eru. þeirra manna sem eru fyrir skrifader. oc til sanninda hier um setium uier fyrr skrifader menn wor jnsigli fyrir þetta tran-[skriptarbref er giort var ........] dag junij anno 15 og 70[2]) aar.

---

290. 1. júlí 1570. á Öxarárþingi.
á Þingvelli og í Miðfelli.

DÓMR.

Bps. Skalh. VIII, 18, frumrit bréfsins á skinni. — AM. Apogr. 2605 eftir frumritinu, og er uppskriftin gerð 1711. — Prentað í Alþb. Ísl. I. bls. 35—6.

Hofstada Domur 1570.[3])

Ollum monnum þeim sem þetta bref siä edur heyra senda Arnngrimur Jonsson. Þorer Sueinsson. Magnus Petursson. Gudmundur Ormsson. Fuse Jonsson og Magnus Einarson kuediu Gudz og sijna. kunnigtt giørande ad ärum eptter Gudz burd M. d. lxx. laugardaginn næstann fyrir visitationem Marie a almenniligu Auxaraarþinge vorum vier j dom nefnder af Heidarligum monnum Herra Orme Stullasyne laugmanne fyrir nordan og vestan og Þorde Gudmundssyne laugmanne fyrir sunnann og austan aa Jslande til ad skoda og ransaka og fullnadardom aa ad leggia vmm þä äkiæru sem Herra Gisle Jonsson Superintendens Skalholltz sticktis klagade til Sugurdar Þolleifssonar og Þordar Þolleifssonar. ad Þordur Þolleifsson hefde sellt jordina Hofstade sem ad domkirkiunnar eign væri og verid hefde. Enn biskup

1) Svo. 2) Svo (15 og 70) = 1570. 3) Utan á frumritinu. — Domur um Hofstade ä Myrum 1570, — m. h. Árna Magnússonar í 2605.

Augmundur hefde og feingid Sijra Þolleife heitnum Eirickssyne. Enn þad biuijsadist ad þesse fyrr greind jord hefde ad gomlu og nyiu verid domkirkiunnar eignn. Þui leist oss Biskup Augmundur þa jord feingid hafa Þolleife heitnum Eirickssyne sem hann aatte eeki. fyrst eeke kom aunnur fasta eignn jgen. edur adrer jafngoder peningar domkirkiunne til handa.

Þui j Gudz nafne amen ad aullu so profudu og fyrir oss komnu sierdeilis heilax anda nad tilkalladre dæmdum vier fyrr greinder domsmenn med fullu doms atkuæde fyrr nefnda jord Hofstade vnder domkirkiuna apttur og Herra Gisla Jonsson þessa jord frialsliga mega ad sier taka domkirkiunnar vegna. nema þui ad eins ad þad biuijsist ad domkirkian hefde fulla peninga vppborid fyrir tijttnefnda jord. Enn þeim brædrum anduirde sitt apttür af þui godze sem þeirra fader aatte.

Samþyekttu fyrr greinder laugmenn þennann dom med oss fyrr skrifudum domsmonnum og settu sijn jnsigle med vorum jnsiglum fyrir þetta domsbref huertt ad skrifad var j sama stad. deige og aare sem fyrr seiger.

Anno 1575. ä alþinge var um þessa iörd Hofstade ä Myrum í Alftanesshrepp ä ny domur utnefndur epter fyrerskipan höfudsmannsins Johans Buckholt. Var þä þesse nærverande domur metinn so sem ecki löglegur. og dæmdest iörden Sigurdi Þorleifssyne og hans samörfum.1)

---

291. **1. júlí—10. ágúst 1570. á Þingvelli að Miðfelli.**
**22. marz 1596. á Járngerðarstöðum.**

LANDAMERKI Geitabergs í Svínadal.

AM. Fasc. LXIX, 18, frumritað transscriptum á skinni, ritað á uppskafningsblað úr gamalli latínubók, fallið niðr í feljar. Á blað, sem liggr utan um skinnsneplana, ritar Árni: „füageirar ur Geitabergsbrefi 1596. Er transscriptum yfir 3 vitnisburdi 1570". Allmikið má enn lesa úr tætlum þessum, og með stuðningi uppskriftar í AM. Apogr. 1681, m. h. Páls Hákonarsonar frá árabilinu 1703—12 má fá bréfin heil. Það eitt er sett hér í hornklofa,

1) Ritað utan á frumritið m. h. Árna Magnússonar.

er þá var úr fallið og Páll hefir sett að tilgátu. Þau skörð, sem Páll hefir ekki fyllt, er hér sett í eftir líkindum, og þess getið neðanmáls. Önnur uppskrift er og í AM. Apogr. 1681, m. h. Hans Beckers.

Landamerkiabrief Geitabergs j Svina[dal].

Þad giore eg Jon prestur Þorleifsson godum monnum kunugt med þessu mijnu opnu brie[fi] ad aa Geitabergi i Saurbæar kyrkiu sokn ä Hualfiardarstrond var eg t[ilkva]dd[r] umm þann handsaladann giorning sem þar fram for ad eg skylld[i fullnadar] vtinisburd vmm bera ä millum þeirra Ellens Þoruardssonar [og Jons Sugurds]sonar vmm þä þrætu sem þeir hofdu haft vm liti[nn] jardar [part sin ä milli aa millum] Geitabergs og Draghals. lagdi herra Ellendr þad j gudz [hendur med godra manna] tillogum og sinum sialfs eiginlegum vilia ad su akæra skyll[de med ollu utgiord fyrer] sier og ollum sinum logligum erfingium og efterkomendum til æf[inligrar eignar] til Geitabergs lan[d]s. Og til meiri audsyningar hier vm set ec mitt in[sigli fyrer] þetta vitnisburdarbrief. huert skrifad var ä Þinguelli sunudæginn næstan epter[1]) Peturs Messo og Pals arum epter gudz burd 1570.

Þad giori eg Gu[d]mundur Ormson godum monnum kunigt med þessu minu opnu briefi ad ä [Gei]tabergi j Saurbæar kirkiu sokn. aa Hualfiardarstrond var ec vid stad[d]ur og heyrdi og sa ä þann handsaladan giorning er þar for þa framm j millum þeirra Ellinds Þoruardssonar[2]) og Jons Sugurdssonar vmm þa akiæru er þeir hofdu haft vmm [li]tinn jardar p[art] sin ä milli ä millum Geitabergs og Draghals. lagdi herra Ellendur þd j gud[z] hendur med godra manna tillogum og sinum sialfeienligum vilia ad su akiæra skilldi med ollu vt giord fyrir sier og ollum sinum logligum eptерkomendum til æfinligrar eignar til Geitabergs lands. Og [til] meiri bijvisingar hier vm set ec mitt jnsigli

1) fyrer, uppskr. báðar (= 25. júní), sem hlýtr að vera rangt; rotið úr LXIX, 18. 2) Þorualssonar, transskr.

firir þetta vitnisburdarbrief. huert ed skrifad var ä Þingvelle sunudægin næstan epter Peturs Messo og Pals arum epter gudz bvrd 1570.

Suo[felldan] vitnisburd ber ec Magnus Jonson ad ec var iij sumur aa Geitabergi hia [Sigur]di hetnum Olafssyne er þa atte jordina Geitaberg og þar hafdi þ[ä selfør fra[1]) jnnra Holmi. heyrda ec alldri tuimæli ä leika huorki eingium. skogi [nie beit.[1]) suo og heyrda ee bondan Rogualld þvi lysa ad hann hefdi peninga [vpp borid fyrir[1]) þann skogar bruna sem Guidny ä D[rag]shalsi giordi j greindu tak[marki. Somuleidis vi]ssa ec ad Kornahlid fyldi[2]) Geitab[ergi og var þ]adan br[ukud og beitt og[3]) taladi þar eingin vpp ä. Og til sannenda hier vm þrycki eg [mitt innsigle ä þetta] vitnisburdarbrief. huert ed skrifad var j Midfelli j Hrunama[nnahrepp þ]ann 10. d. Augusti Anno domini 1570.

Þad medkiennunst vier Þorleifur Sugurdsson og Jon Gudlugxson og Kietill Gudmundson ad vier hofum suo felld jnsiglud brief lesid ord epter ord sem hier fyrir ofan skrifad stendur. Og til sannenda hier vmm setium vier [vor] jnsigli fyrir vorar medkeningar. Skrifath ä J[a]rngerdarstodum þann anan og xx dag marci. Anno 1596.

---

292. 10. júlí 1570. í Botni.

SAMÞYKKI Þóreyjar Ólafsdóttur á jarðaskiptum Arngríms Björnssonar, bónda sins, við Eggert lögmann Hannesson.

Bæjarskjalabók, bls. 89—90, skr. ca. 1730—40, stafrétt eftir frumriti á kálfskinn.

Jhesus.

Þad giaurum vier Jon Ellindsson. Magnus Jonsson

1) [rotið úr; sett hér að tilgátu; ekki fyllt eyðan í uppskriftunum. 2) Svo. 3) [rotið úr; sett hér að tilgátu; eyða i uppskriftunum báðum.

prestar og Ormur Jonsson leikmann godum monnum kunnigtt med þessu voru opnv Brefi ad a þann tijunda dag Julij manadar þa lidit uar fra hingatburd uors herra Jhesu Christi m d lxx ara þa uorum vier þar j hia og saum og heyrdum þar upp a ad Þorey Olafsdotter medkendizt ad hon hefdi fulltt og alltt samþycki til lagtt og sitt lof og leyfi til gefid þad ad sinn bondi Arngrimur Biornsson hefdi selltt Eggertt Hannessyni þa tuo jardar partta sem hann atte a Uestfiaurdum sem ero xc j Lambauatne a Raudasandi og viijc j Kirkivboli j Kollsuijk huertt kaup ad fyrgreind Þorey Olafs-Dotter nv med fullnadar handabandi styrkti og stadfesti upp a ny uid fyrr greindan Eggertt Hannesson ad halldast skylldi til æfinligrar og obrigdiligrar stadfestu fyrir sier og sinum erfingivm og epterkomendum. enn hier j moti skylldi Þorey eignast xviijc j iordune Hafafelli j Borgarfirdi epter þuj sem kaupbref þeirra Eggerttz og Arngrims utuisar. Suo og medkendizt fyrgreind Þorey j þessu handabandi Eggerttz og hennar ad Eggertt hefdi sier gefit fyrir upplag a þessum paurttum an allz bitalings sem Arngrimur hafdi Eggertt selltt og fyr ero greinder gamalltt naut og vj stikur klædis og hier epter uilivm vier sueria ef þurfa þiker. Og til sanninda hier um festum uier fyrgreinder menn vor jnsigli fyrir þetta uortt uitnisburdarbref huertt skrifad uar j nedra Botni j Hualfirdi a sama Deigi og fyr seigier.

---

293. 13. júlí 1570. á Möðruvöllum.

REIKNINGR Möðruvallaklaustrs.

AM. Fasc. LVI, 31, frumrit á skinni (nú í þjóðskjalasafni). Af 6 innsiglum er 2. og 6. innsiglið fyrir. — Eftirrit frá 1637 er í Isl., Færö og Grönland, Suppl. II, 44 (nú í þjóðskjalasafni).

Þetta er Reikningur Maudruvallaklausturs.[1])
Þat giorvm vier Biornn Gislason. Gudmundur Skijda-

1) Utan á bréfinu m. samtíða h. Í Supplem. II, 44 stendr: So miked Jnventarium liet Odmur Stullason afhenda mijnum Saluga

son. Olafur Arnason. Þorgeir Gunnasson prestar. Hialmur Sueinsson og Haldan Einarsson leikmenn Godum monnum kunnigt þa lidit var fra Christz hingatburd m. d. lxx þann xiija dag Julij Afenti Gudmundur Nichulasson j loglign vmbodi Orms Stullasonar Benedict Halldorssyni Modruuallaklaustur epter skipan Johans Bockholtz haufudsmanns yfer Islandi.

J fyrstu jnnan gätta.

J sudurskiemmu .v. kistur lasnar. ij erkur. ij trefaut. iij vernisfot. ij vatzkallar. ij munnlaugar. mustardzkuernn med stein. piparkuern fanyt. ij smioriarnu. stigi. ix fiordungar vllar og v merkur. tunno hanc. ix vætter smiors i kistum.

Jtem i storustofu ij beckiarklædi. vij faut heil. xix skierbord vppa gamla vijsu. i kista og ij loklausar. i ork. konnustoll. salltsier. iiij bord. ij forsæti.

Jtem i buri vij storkierulld miog gomul. xvj smakierulld matheil. xx skaler. xx spæner vonder. i ausa. ein skyrgrind. ij siur. i vixlaskur og ij brotner. ij flotar. iiij smakierulld onyt vij og xx trog med illum og godum. og vi til einkis. iiij fotur.

J Sualbarda ein ork. ein kista. ij pottar og i lijtill brotinn og bættur. i kietill tecur tunno. og ecki minna enn hnefagat a honum. annar tekur iii½ fiordung med vi botum. fiordungskietill med iiij botum.

J störa skäla iij reckiouoder. i sterk. ij fornar. iiij sængur med hægindum. vij sængarhrer onyt. ij aklædi gomul. iiij hægindi vond. ij badkufar. ein kista. vij tinkonnur gamlar og lasnar. ein tint j svndur.

J ytri skiemmu .v. klyfberar reidder. og i oreiddur. torfkrokar vpp a hest. i reip og einhogldungur. pall lasin. ein øxi litil. skeri. i nafar. i krakur. i lar. huerfusteinn litill. ij reknr varlausar. Rekstedie. hornnasog.

Jtem frijder peningar. kyr xv. vi atta uetra. ix yngri. Asaudur x½ kugilldi. og i ær.

Mödur Faudur Benedict Halldorssyne heijma ä Modruvalla Claustre; sýnir þetta, að sú uppskrift er frá Halldóri lögmanni Ólafssyni.

i gamall kapall meiddur. annar tuæuetur.

Afgreiddi adurnefndur Gudmundur Nichulasson Benedict Halldorssyni þessa fyrrskrifada peninga oss asiaandi og vid uerandi enn ongua adra kuika edur dauda suo vær vissum. Og. til sanninda hier vm setium vier [fyrskrifader menn vor inncigli fyrir þetta vortt viduruistarbref At þessum Reikninge huer skrifadur var sama stad Modruuollum deigi og ari sem fyr seiger.[1])

---

294. 17. júlí 1570. í Skálholti.

KAUPMÁLABRÉF Þorvarðs Þórólfssonar og Vilborgar Gísladóttur.

AM. Apogr. 4772 b „Ex originali Einars Jsleifssonar ä Reykium." — Ágrip m. h. Einars Ísleifssonar er i Jbskj. AM. Kjósars. 2, staðfest af honum og öðrum manni að Reykjum i Mosfellssveit 6. júlí 1705.

Þad giørumm vier Jön Kräkzson. Þordur Jonsson. Stephan Hallkiellsson prestar Skälhollts Biskupsdæmis. Snæbiorn Halldorsson. Magnus Jonsson og Þorer Sveinsson svarner løgriettumenn Gödum mønnumm kunnigt med þessu voru opnu brefe. vier medkiennunst at arum effter guds burd M D lxx þann attunda sunnudag Trinitatis[2]) i Timburstofunne i Skalhollte heirdum vier og saum med odrum fleirum fromumm monnumm. leikum og lærdumm þa for soddan giorningur og handsol framm ä millum herra Gisla Jonssonar S[uperintendentis] S[kalholltsstiglis] vegna sinar dottur Vilborgar af einne alfu. Enn af annare Þorolfs bonda Eyolfssonar vegna sins sonar Þorvards Þorolfssonar þä ed adur greindur herra Gisle. giffte sijna dottur Vilborgu adur nefndum Þorvarde. at herra Gisle gaf sinne dottur til heimanmundar lx hundrud i jordum og lausafie med so ordna peninga: Innstavog sem er ad dyrleika fiorum hundrudum og xx er liggur ä Akranese. i Garda kirkiu sokn. og xxc i Gudnabakka. þar til xujc j þarflegum pening-

1) [Aftan á bréfinu. 2) þ. e. 16. júlí.

um fridum og ofridum sem er i maluitukugilldum, nautum, saudum og hestum. Hier i möt gaf greindur Þorolfur med jäyrde og samþycke sinnar heidursqvinnu Margrietar Ellendsdottur sinum syne Þorvarde hundrad hundrada i sofelldum peningum sem eru Sudurreiker .xl. hundrudum er liggur i Mosfells kirkiu sokn. og þar til jordena Skaga fimtige hundrudumm er liggur ä Akranese i Garda kirkiu sokn. þar til xxxc i øllum þarfligum peningum frïdum og ofrïdum. Jtem gaf greindur Þorvardur med jayrde og samþicke sins fødurs Þorolfs og sinnar mödur Margretar fiördungsgiøf ür greindum peningumm at tilskilldum xx hundrudum upp i greinda jørd Skaga og þar til xc i øllum gödum þarfligum peningum og hier upp a skillde herra Gisle sijna dottur Vilborgu mälakonu. hver mäle var at hæd niutijger hundrud i gard greinds Þorvards. svofallenn sem ädur er greint. og hier ofan a for ein riett festing framm effter logmale. Og til sannenda hier um setiumm vier vor jnnsigle fyrer þetta giorningsbref skrifad i sama stad. deige sidar enn fyr seiger.

---

295. 17. júlí 1570. í Glaumbæ.

JARÐASKIPTABRÉF.

AM. Apogr. 636 „Ex tabula membranea, qvam communicavit Haldorus Einari. Jnnsigle synast alldri ad hafa hier vid komid enn skriftarformed er hier um de anno 1560—70“ (AM.).

Þad giorum wid Arngrimur Jonsson. Einar Jonsson. Þorualldur Eireksson Godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi arum epter hingatburd vors herra Jhesu Christi M d lxx.[1]) a midsumars sunnudagin[2]) at Glombæ j Skagafirdi vorum vier i hia saum og heyrdum aa ord oc handaband þeirra brædra er Jon Halldorsson selldi Þordi Halldorssyni halfa jordina Leifstadi med

1) „arstaled er mäd. L. er skirt. enn þad sem epter kemur synest ad vera xx. helldur enn xv. annad hvert er þad. imo þad synast ad vera xx“ (AM.). 2) þ. e. 16. júlí.

þui sem hun aa med Riettu. Hier i moti gaf Þordur Joni jordina Solvanes med þeim Gognum og giædum sem henni aa med Riettu at fylgia. J annari grein heyrdum vier og säum aa ord og handaband Elinár Gudmundardottur og suo Þordar. at hun gaf honum til fullrar eignar jordina Nyabæ j Eystri dolum j Guddala krkiu sokn med þui er hun a med riettu. og x malnytu kugilldi er hun atti hia honum. Hier med gieck[1]) i borgan vid Þord at hann skilldi eiga til giptingar lxc i jordu og xxc i godum peningum. þar med skilldi hann skullda-laus af henni [i] vor i fardogum. Samþycktu þennann giorning Brodursyner hennar Jon og Gudmundur vid Elina[1]) med handsolum. Og til sannenda hier wm setium vier vor jnncigli fyrer þenna giorning er skrifadur war i sama stad. deigi sidar enn fyrr seigir.

---

296. 2. ágúst 1570. á Mýrum.

HÉRAÐSDÓMR um vitni og eiðatökur vegna gjafar Katrínar Hannesdóttur til Guðrúnar, systur sinnar, og barna hennar.

AM. Apogr. 4771 b „Ex originali Þorbiargar Sigurdardottur ä Kulu". Árni segir til innsigla.

Ollum mønunum þeim sem þetta bref sia edur heyra sendum vier[1]) Torfe Sigfusson. Þorleifur Biarnarson.[1]) Gudmundur Helgason. Þordur Sigfusson. Olafur Þorgautsson. Biarne Jonsson quediu gudz og sina[1]) kunnigt giørande med þessu voru opnu brefe þa er lidet var fra gudz burd M. d. lxx. är. a midvikudaginn næstann fyrir Olafsmesso enn sidare. a Myrum j Dyrafirde a almenniligu hieradzþiuge vorum vier j dom nefnder af heidarlegum dandismanne Jone bonda Olafssyne er þa hafde bifalning og umbod af herra Egerth Hannessyne yfer Jsafiardarsyslu ad jafnfullu og hann sialfur [ad] skoda. reyna og ransaka og med skynsemd fullnadar doms adkvæde aa ad leggia hvert afl ad hafa skyllde

1) Svo.

sa alþingisdömur. sem dæmdur var j sumar a alþinge[1]) og Þorlakur bonde Einarsson bar þar framm fyrir oss. huar svo stod j mille annara orda at Þorlakur Einarsson skyllde sin vitne hafa leitt jnnann mänadar ad forfallalausu þa heim kiemur j hierad fyrir kongs umbodzmanne yfer Jsafiardarsyslu nærverande Magnuse bonda Jonssyne edur hans løgligum umbodzmanne. Kom þar framm fyrir oss þad fyrsta ad Þorlakur bonde Einarsson hefdi sent j Augur til Magnusar bonda Jonssonar iij menn skiælliga at giøra hønum avisan aa ok[2]) fullann bodskap nær at þinga ætte um þessar eidatøkur sem alþingisdömur jnne helldur. ok[2]) vitnenn skulo leidast sem sïna vitnesburde hafa þar ut um gefit um þä giof sem Katrinn heitinn Hannesdotter. sem gud hennar sal nade. gaf Gudrunu systur sinne og hennar børnum. sem reiknadist hennar lauggiauf upp j þä jørd sem þar var tilskilinn. Kom þar fram fyrir oss þesser enu sømu menn sem sender voru j Augur og baru þad oss til eyrna at bondenn Magnus hafde þa einginn þau forføll framme haft ad hann mætte eige j þennann stad og dag koma sem til være settur um þessar þrattskrifadar eidatøkur. J annare grein kom þar framm fyrir oss sendebrief Magnusar bonda Jonssonar suo latanda ad hann hefde feingit bref Þorlaks bonda Einarssonar at þar være aakvaddur ad nær til tïme var. tileinkadur aa millum sin og bondans Þorlaks um jørdina Breidadal og komu þar eingenn forfaull til helldur hans lofan ad hann skyllde j þennann stad og dag koma. Kom þar enn j þridiu grein framm fyrir oss afbotunarbref Magnus Jonssonar huer[2]) hann talldi sin fyrstu forfoll. þad ad hann hefde haft kaun aa bakinno og være eeke ut sprungit. Jtem þau aunnur forfoll at hann hefde miekla fyrirhyggiu ad bitala sinar skullder og giøra sinn reikningsskap nu j þessare viku. Jtem þau eno þridiu ad hann hefde lofat sig sudur til Gufudals ad helginne epter. hvad oss virdist einginn løgleg forfaull fram hafa komit fyrir oss af hans hende bondans

1) Alþb. I, 25—6. 2) Svo.

Magnusar suo þesser eidar mætte eige takast. epter þvi sem alþingisdomurinn jnne helldur og þar aa avisar. þvi kunnum vier ecke þennann alþingisdöm j neiru mäta ad riufa. edur reyngia helldur virdest hann oss j allan mata [myndugur] og skiæligur ad vitnum leiddum ok[1]) eidunum aunnum[1]) ad nærverande skilvisum mon[n]um. þo ecke sie beggia løgmanna jnnsigle fyrir þessum alþingisdöme. Og ad heilax anda näd tilkalladre og vær aller j doms sæte sitiande ad svo profudu ok fyrir oss komnu. þä dæmdum vier med fullu doms atkvæde Jon bonda Olafsson epter sinne bifalningu rettiliga þessa eida mega taka epter sinum jnnsigludum vitnisburdum. sem sig hafa hier til bodit ollum oss aa heyrondum domsmønnum og fleirum ødrum dugandismønnum sem hier voru saman komner. Og til sanninda hier um setur fyrrnefndur bifalningsmann Jon bonde Olafsson sitt jnnsigle med vorum fyrrgreindra domsmanna jnnsiglum fyrir þetta domsbref hvertt ed giørtt ok skrifad var aa sama aare og deige og fyrr seiger.

---

297. 2. ágúst 1570. í Ögri.

JÓN yngri Gislason fær Jóni eldra murta, bróður sínum, hálfa Æðey í próventu með sér.

AM. Apogr. 5889, m. h. Jóns Magnússonar á Sólheimum „Ex originali“ „a pergament“. — AM. Apogr. 4763 b, ágrip m. h. Árna Magnússonar „Ex originali Ragneidar Jonsdottur i Grøf“.

Medkiennum vid eptirskrifader menn Magnus Jonson og Olafur Gijslason fyrer ollum ath þä lijdit var fra Gudz burd. M d lxx þann xxx dag Jvlii j Ogre i Jsafirde vorum vid i hia saum og heyrdum a ord og handsol þessara manna og tueggia brædra af eirne alfu Jons murta Gijslasonar og Jons yngra Gijslasonar. ath Jon yngre fieck i sama skildaga og handabandi Jone elldra halfa jordina Ædey med ollum þeim gognum og giædum sem þessare jordu hefur fylgt og fylger til fullrar eign-

1) Svo.

ar vndan sier og sinum erfingium en vnder Jon elldra og hans erfingia til æuennligrar eignar. hier i mot skildi Jon yngre sier mat og fot og æuennligtt frammfære sem godum monnum þætte hann vel halldin. hia Jone murta og hans erfingium. og þessu jatadi Jon murti suo at vid fyrskrifadir vottar heyrdum. Samþyckta jeg Olafur Gijslason þessa profentugiof og arfsal Jons yngra brodur mins og allann þenan giorning og skildaga suo eg og miner erfingiar skulum þar alldre vpp ä tala fra þessum deigi. Og til saninda hier vm set eg Magnus Jonsson. Olafur Gijslason. Joñ murti Gijslason og Jon yngre Gijslason vor jnsigli fyrer þetta bref huortt skrifat var i sama stad og are þrem nottum sidar en fyr seigir.

---

298. 7. ágúst 1570. á Grund.

SAMNINGR Þórunnar Jónsdóttur og Þorbergs Bessasoar um afgreiðslu skuldar hennar við hann.

AM. Apogr. 256 m. h. Styrs Þorvaldssonar „Ex origin. membr“. Árni segir til innsigla. — AM. 255, 4to., bls. 230—1 og 287—9.

Ollum þeim godum monnum sem þetta bref sia edur heyra sendum vier Olafur prestur Arnason. Magnus Arnason. Halldor Þorlaksson. Magnus Þorgrijmsson og Tumas Þorkelsson kuediu Gudz og vora. kunnigt giorandi at þa lidit var fra holldgan Jhesu Christi M. d. lxx. ära ä Grund j Eyafijrdi þann vij. dag Augusti mänadar. vorum vier hia. saum og heyrdum ä ord og handsol heidursamligra manna. J fyrstu af einne älfu hustru Þörunnar Jonsdottur og af an[n]are Þorbergs Bessasonar og hanz kuinnu Helgu Sigurdardottur. at suo fyrir skildu: j fyrstu at allur sä Giorningur. sem nefnd Þorun og Þorbergur høfdu giort ädur sijn ä mille. skyllde stodugur og obrijdeligur standa sa sem syndist med brefum og jnsiglum um jordina Grund j Eyafijrde. Sømuleidis umm arf efter Jsleif heitinn Sigurdsson. enn fyrir þad at Þorbergur hafde eige feingit þad hundrad hundrada og .xxxc. i jordum sem Þorunn hafdi hon-

um lofad Þorbergi fyrir þad af honum hafde geingit Höf. ytra Brecka. sydre Brecka. og Hraun. hveriar allar liggia ä Hofdastrønd. og reiknast hundrad hundrada og xxxc. Hier fyrir gallt Þorun Þorbergi jordina Aungulstade j Eyafirde fyrer lxc. og jørdina Biork þar næsta fyrir xxc. þar til lofade Þorunn tveimur .xxx. hundrada jordum ef hun kynne þær fä. elligar jordinne Fiosatungu fyrir lxc. med þvi skilorde at Þorbergur fäi þa jord Fiosatungu Þuride dottur sinne til eignar. enn Þorunn halldi. bygge eda Bü ä hafe nefndre jordu Fiosatungu svo leinge. og þar til ad Þuridur giptist. enn giallda Þorberge eda Þuride .ijc. j landskylld. og suara þurfamannatiund. biskupstiund og presttiund ärliga a medann Þorunn helldur Fiosatungu. Hier til skyllde Þorun giallda .xxc. jord. enn ä medann su jord være ei golldinn. lofade sira Sigurdur Jonsson ad giallda Þorberge eda hanz umbodsmanne afgialld af sinne .xxc. jordu þeirre er Mylastader heita; hier til lofadi Þorunn .xxc. j lausa fie. og gialldist j haust og ad vore. hier med skyllde allur þeirra peninga Reikningskapur klär og kuittur og med ollu ätolulaus hiedan j fra. og þetta samþyckte Helga kvinna Þorbergs og hanz syner Sigurdur og Jsleifur elldre med handsolum ad þessu holdnu. skyllde Þorbergur þeim jordum hallda til laga sem Þorun feinge honum. enn gangi þær jarder af Þorberge med løgum. hveriar helst Þorun fær honum. þa suare Þorun eda hennar arfar odrum jafndyrum jordum än klogunar. Og til sanninda hier umm. setium vier vor jnsigle fyrir þetta bref. hvert giort var j sama stad. är og dag sem fyrr seiger.

---

299. 12. ágúst 1570. á Múla.

DÓMR um tilkall Eydalakirkju á hendr erfingjum síra Konráðs Steingrímssonar (brot).

Bibl. Bodl., Oxford, Coll. FM. 127, 4to., skr. ca. 1640.

Domur um Eydala kirkiu godts.

Þad giorum vier Einar Ar[n]ason. Jon Biarnason of-

ficialis.[1]) Magnus Jonsson. Finnbogi Tumason. Hialmur[2]) Eijnarsson.[3]) prestar. Jtem Magnus Kietilsson. Jon Biornsson. Asbiorn Arnason. Jon Gijslason og Steingrijmur Gunnarsson. logrettumenn. og Jon Biornsson. godum monnum kunnugtt med þessu voru opnu briefi. ad laugardaginn effter Laurentij dag þa lided var fra vors herra Christi fædingu 1570 ar a Mula j Skriddal a þijngstad riettum. vorum vier j dom nefnder af heidarligum dandismanne Eyreki Bonda Arnasyne er þa hafdi vors nadugasta herra kongsins syslu j Mulaþijngi. til ad skoda og rannsaka og fullnadardoms atkvædi a ad leggia vm þa akiæru er herra Gijsle Jonsson stefndi þar a þijnginu Birne Skieggiasyne er þa hafdi loglegt vmbod vegna sinnar kvinnu Þordijsar Þorsteinsdotter[1]) og hennar barna erfingia sijra Codrans heitins Steingrijmssonar. og þui dæmdum vier fyrrnefndan Biorn riettelega fyrir kalladan.

J fyrstu Bijuijsadi herra Gijsli ad Eydala kirkiu vantadi vppa sinn reikningskap hia erfingium sijra Codrans xxijc betur.[1]) þar j xvij malnytu kugillde og vc j gielldfie.

Jtem bar Biorn fram kaupmalabref sinnar konu er giortt hafdi verid med [honum og] þessari konu sijra Codrans. huortt so uar hliodande ad henni hafdi giefid verid j sinn heimannmund .xxxc. j fostu og lausu [og ad] hann skillde giefa henni j tilgiof xvjc[4]) [og var] þar j .xijc. jord. Enn vier meigum sannliga ........[5])

---

**300.** 12. ágúst 1570. undir Staðarfelli.
16. júlí 1575. á Skarði.

## JARÐASKIPTABRÉF (ágrip).

AM. Apogr. 4775 b, m. h. Árna Magnússonar „Ex originalibus Þorgrims Jonssonar i Reykiahlid". Lýsir Árni innsiglum fyrra bréfsins, og um hið síðara ágripið segir hann, að það sé gert „Ex originali".

1) Svo. 2) Hialmar, hdr. 3) Hér vantar nafn eins prests til. 4) xvjc hundrud, hdr. 5) Niðrlag vantar.

Anno 1570. xj. Aug. ä Skardzstrønd. toku þeir høndum saman Biarne bonde Oddzson og Arne Gislason. og endurnyudu þann kaupskap. sem þeir høfdu adr haft sin ä mille um iardernar i Bolungarvik. i svo mata. ad Biarni Oddzson. med samþycke hans kvinnu Sigridar Þorleifsdottur. sellde Arna Gislasyne iørdina *Os* xxiiij c. *Hanhol* xij c. vj c i *Gili*. allz xlij c. hveriar liggia i Bolungarvik i Hols kirkiu sokn. hier i mot gaf Arne Biarna og hans kvinnu *Belgsdal* i Saurbæ fyrir xxiiij c. og þar til xviij c. i malnytu og øllum godum peningum. Vid stadder voru Oddur Thumasson. Sigmundur Þorolfsson. Sigurdur Arnfinnzson. Halldor Þordarson og Sveinn Sigmundzson. og giøra hier um bref undan sinum innsiglum under Stadarfelle ä Medalfellzstrønd ä sama äre deige sidar enn fyrr seiger.

Anno 1575. Lagardagenn næstan fyrer Thorlaksmesso um sumarit ä Skardi ä Skardzstrønd. medkenner Biarne Oddzson sig ad hafa utteked alla þä peninga sem Arne bonde Gislason atte ad giallda honum i millum þeir[ra] iarda er Biarne sellde Arna i Bolungarvik. og þeir[rar] sem Arne sellde honum. so sem kaupbref þar um giørt utvïsar. Og gefur Biarne Arna b[onda] Gislason kvittan og akiærulausann hier um fyrer sier og sinum erfingium.

---

301. 16. ágúst 1570. í Saurbæ.

DÓMR um afhending eignarskjala fyrir Kalastöðum.

Bréfabók Brynjólfs byskups: AM. 273, fol., bls. 274 og Lbs. 1082, 4to., bls. 649—51, í transscripto Odds skólameistara Eyjólfssonar og fimm annarra, gerðu í Skálholti 1662, eftir frumriti.

Domur umm Kalastadabref.

Aullum þeim mønnum sem þetta bref siä edur heyra. senda Gudmundur Hallsson. Einar Oddsson. Þorsteirn Helgason. Gisle Sigurdsson. Teitur Arnason og Gudmundur Helgason. kvediu Gudz og sina. kunnugt giør-

andi ad þä lidid var fra Gudz burd. 1570 är. næsta daginn epter Mariumessu fyrre umm sumarid ä Saurbæ ä Hvalfiardarstrønd. vorum ver i dom nefndir af Einari Eirekssyne. er þä þar þingadi i vmmbodi logmannsinz Þordar Gudmundssonar. thil ad skoda og rannsaka. og fullnadardomz atkvædi ä ad leggia. umm þä äkæru er Vigfus Jonsson kærdi thil Pälz Bødvarssonar. J fyrstu stefndi ädur greindur Vigfus fyrnefndum Päli fyrer løg. þar strax stundarstefnu fyrir oss fyrer þä søk. ad hann og hanz fadir Bødvar hielldu fyrer sier þeim brefum er þeir høfdu optgreindum Vigfuse ädur lofad. og villdu þä ecki uti läta. Bar Vigfus Jönsson þar framm fyrer oss vitnesburdárbref med tveimur hängandi jnnsiglum hvertt so innihiellt. ad ädur greindir fedgar Bødvar og Päll hefdi lofad med handsolum ad fä Vigfusi j hendur þau bref og skilriki sem þeir hefdi fyrer jordinni Kalastodum þegar ad ädur greindir fedgar hefdi medtekid þau iij^c sem ad þeir brædur Vigfus og Asmundur hefdi þeim lofad fyrir þessi ädurgreind bref. og jardar upplag. Og nu i sama mäta medkendist ädur greindur Päll fyrer oss. ad hann og hannz fadir Sira Bodvar hefdu medtekid þessi iij^c af opt greindum brædrum Asmundi og Vigfusi effter þvi sem þeim hefdi vel änægt. Þvj i Gudz nafni Amen ad so pröfudu og fyrir oss komnu. dæmdum ver ädur greindir dömzmenn. med fullu dömz atkvædi ädur greinda fedga Bødvar og Päl skyllduga ad vera. ad leggia framm i hendur Vigfusi Jönssyne innann hälfs mänadar. ad heyrdum dömenum. aull þau bref er þeir hefdi fyrer jørdunni Kalastodum. og Vigfus[1]) mätti thil bata koma. Enn villdu þeir ecki þessi bref framm leggia og ecki þennan döm hallda. þä dæmdum vier opt greinda fedga skyllduga ad koma ä Saurbæarþing næst þä þingad er fyrer løgmanninn edur hannz ummbodzmann. og þä skyllduga þar ad svara dömrofum. og fyrer handsalzrof.

Samþickte þennan vorn dom med oss fyrskrifudum dömzmønnum ädur greindur Einar Eireksson. og

1) Svo.

setti sitt innsigle med vorum fyrrgreindra dömzmanna innsiglum fyrer þetta dömzbref. hvertt ed skrifad var i sama stad. äre og deigi sem fyr seigir.

---

302. 21. ágúst 1570. við Hofsós.

VIDISSE (ágrip), sbr. nr. 162.

AM. Apogr. 4773 b, m. h. Árna Magnússonar.

Jon bondi Jonsson. Jon Grimsson. Olafur Tumasson. Þordur Þorleifsson. Jon Palsson transscribera ex originalibus 2 doma um Audbrecku utnefnda af Eggert Hannessyne løgmanne 1557. ä Alþinge. og um hausted i Eyafirde. Þetta þeirra vidisse er daterad vid Hofsös ä mänudagin næstan fyrir Bartolomei Apostoli dag anno M. D. lxx.

Utan ä brefed er skrifad mann coæva:

*Domur um Audbrecku. enn hofutdomurinn er hia Joni Marteinssyni oc Joni Jonzsyni.*

---

303. 30. ágúst 1570. í Odda.

ÁREIÐ á landamerki í milli Odda og Selalækjar.

Eftir uppskrift síra Bjarna Hallgrímssonar í Odda meðal Oddaskjala í þjóðskjalasafni: „Þetta framan skrifad er riett Copierad efter Bók Biskupsens Mag. Þordar Thorlakssonar sem er j Skalhollte. Til vitnes eru underskrifud nofn ad Skalhollte þann 25. Julij Anno 1682. (under hafa skrifad) [Gisle] Alfsson Eh. .... Jonsson". Er uppskrift síra Bjarna frá ca. 1712. — Lbs. 68, 4to., bls. 280—82, skrifað ca. 1680.

Areid midlum Odda og Selalækiar.

Anno 1570 midvikudagenn epter hinn 14[1]) sunnudag Trinitatis var eg j Odda j Arveriahrepp. þa kom fyrer mig Herra Erasmus Wilhialmsson er þa hiellt Oddastad og qvartadi miog fast um mikla þrætu a landamerkium millum Odda og Schalhølltzdomkirkiu jardar Selalæki-

1) 15, 68.

ar. Þvi nefnda eg til þessa danumenn lærda og leika. fyrst sira Jon Biarnason official. sira Jon Jonsson og annann sira Jon Jonsson. Jtem Snæbiorn Halldorsson. Ørnolf Olafsson. Torfa Jonsson. Solmund Jonsson. Magnus Ellendsson. Þorvard Þorolfsson. Biorn Biornsson. Paal Halldorsson og Arna Gislason med fleijrum ødrum godum monnum. lofudum vid bader Herra Gisle og Herra Erasmus med handsolum þad ad hallda a millum Odda og Selalækiar sem þessum firrnefndum godum mønnum þætte riettast. Þvi ridum vier j fyrstu ad þeim smalaskala sem stendst gagnvart ä vid Bæardyrnar a Biolu. sijdann tokum vier oss bein[a] stefnu fra smalaskalanum austur a sandana. ad eirne þufu sem ad stendur fyrer nedan Lâmbhaga. hvor þufa stendst a vid adurnefndann smalaskala og so riett a Biolu bæ ad kalla. J. þessare nefndre þufu fundum vier rietta lyritta. ad gomlu nidurlagda. sijdann tokum vier oss stefnu ofann j þann gardsenda enn efra sem gengur yfer um nesed. hvor nedra gards ende liggur framm j Ranga ena Eystre. hvor gards ende æ hefur vered landamerke j millum Lambhaga og Odda. Þvi leitst oss so best fara ad varda være hladinn a efra endanum þessa gards. vissum vier ecke annad sannara. enn þesse landamerke sonn vera mundi j kringum Odda upp fra stadnum. Þo vilium vier þessarre vorre areid skiöta til skynsamare manna ef þurfa þiker.

---

304. 4. september 1570. á Mýrum.
20. december 1570. í Saurbæ.

SÁTT um landamerki i milli Núps og Alviðru.

JS. 222, 4to., bls. 395—6, skrifað ca. 1750.

Gnúps Bref.

J nafne heilagrar þrenningar. þa medkennunst vier epterskrifader menn Jön Olafsson. Þorleifur Biarnason. Olafur Þorgautsson. Sveirn Jónsson. Þordur Sigfusson. Jon Grimsson. og giorum gödum mønnum kunn-

ugt med þessu voru opnu brefe. ad ä þann fiorda dag Septembrismanadar. þa lided var fra hingadburd vors liufa lausnara Jesu Christi MDLXX ara ä Myrum i Dyrafirde. þa vorum vier þar i hia og heyrdum þar uppa ord og handaband þessara effterskrifadra manna. sem var af eirnre halfu Þorlakur bonde Einarsson. enn af annare halfu Eggert Hannesson. Enn þad falldest og skilldest under þessu þeirra handabande ad þeir med sier sømdu og nidursettu med sinn gödann vilia. og med voru og annara gödra manna tillage þa langvarande þrætu og agreining sem vered hafde um landamerke i langa tima i mille Gnups og Alvidru er liggia i Dyrafijrde. þa i fyrstu var so til skiled. ad Gnupur skyllde eiga allt land med allre jardarhøfn og fie þvi ollu sem þar kynne ad finnast i jordu og ä. og ecke fyndest eigande ad. fra garde þeim sem geingur ofann ur fialle og ofann i Gnupsä fyrer jnnann lambhaga. og ut i læk þann sem heiter Kalldalækur. so sem sagdur lækur helldur nu fra sinne uppsprettu. og til siöfar ofann hia Føgrutraud. Enn i annann mäta fra sinne uppsprettu rietta sionhending upp effter leitenu. og so riett upp effter hlijdenne ä fiall upp. so hvørke skillde steckia ut ä nie jnn ä hvørkis land fyrrgreindra jarda. Enn Alvidra skillde eiga land allt utann ad fyrrgreindum læk og fyrrskrifudum takmørkum bæde til fialls og fiøru. Svo og skillde Alvidra eiga fyrer alla þa sem þar kynnu ad bua. hvort þeir eru fleijre eda færre. a hvoriu äre frialsa beit fyrer allann þeirra pening vetur og sumar. haust og vor. hatt og lagt i fyrrskrifadann part. sem er ä [mille] greinds Kalldalækiar og fyrrskrifads gards þess sem geingur ur fialle og ofann i Gnupsä sem fyrr seiger. Hier med skillde og aller þeir sem i Alvidru biggia a hvøriu äre hafa frialsann torfskurd til Elldevidartaks i fyrrskrifudum parte. so sem þeim þætte sier vel þarfnast til sins buss a hvoriu äre. og þar med frelse þann Elldevid hijrda og þurka. og sidann heim til sin flytia. Hier med skyllde Alvidra eiga allann Reka vidar og hvala. og allt annad hvad ä land kynne ad

bera fra greindum Kalldalæk og jnn i midia Gnupsä. þar med skillde Alvidrumenn eiga met frelse veide i Gnupsä. ad jafnfrialsu sem Gnupsmenn þa þeir villdu veida sem i Alvidru eru. nedann fra siö og upp ad fyrr greindum garde þeim meigenn sem Gnupsland er. enn vijst ei leingra framm effter anne. I annare grein skylldu og aller þeir sem i Alvidru bigge. hvørt þeir være marger eda faer. a hveriu äre hafa frialsa selfør med allann sinn pening ä Gnupsdal hvørt är fra vordøgum. og so langt framm ä haust sem þeir villdu. Skilldu og Alvidrumenn meiga lata reka og renna sina peninga um sumar hvert ä fyrrsøgdum tima. hätt og lagt. nedarlega og framarlega ä fyrrsogdum Gnupsdal. utann lata varda sinum peninge þeim Eingium. sem Gnupsmenn liete sialfer varda[1]) sier til slægna. Hier med skilldu Alvidrumenn hafa frialsa þiodgotu ä Gnupsdal til sinna þarfenda. hvert helldur þeir fære ed efra edur nedra um dalenn ä medann þeir hefdu i selenu. enn beita þo hvørke Eingiar nie taudur þeirra sem under Gnupe være. Svo og skilldu Alvidrumenn hafa selstødu ä Gnupsdal þar sem ad fornu hafde vered. og þar meiga giora hus effter þørfum sinum. og hafa þar til frialsa stungu og ristu þar a dalnum. lingrif og hrijsrif a fyrrsogd hus til tröds effter þorfum. hier med torfskurd til Elldevidartaks so sem þeim þætte þarfna hvert är ä medann være vered i selenu. Skilldu Alvidrumenn meiga lata sin selhus ad frialsu standa þar ä dalnum hvert är. Svo og skilldu Gnupsmenn med frialsu meiga hafa skipa uppsatur i fulla naudsyn i Alvidruland þar hia Kalldalæk. enn lata þo ei leingur standa enn skemst mætte þeir sem under Gnupe eru. utann þeir leifdu þeim sem Alvidru ættu.

Og til meire audsyningar. stadfestu og sanns vitnesburdar hier um ad so i sannleika er sem hier fyrer skrifad stendur. þa festum vær fyrrskrifader giørningsvottar vor jnnsigle fyrer þetta giorningsbref. hvørt

[1]) vare, hdr.

skrifad var i Saurbæ ä Raudasande þann 20. d. Decembris ä sama are sem fyrr seiger.

---

305. 5. sept. 1570. á Grenjaðarstöðum.
VITNISBURÐR um landamerki Héðinshöfða.

AM. Fasc. LVI, 32, frumrit á skinni. Brot er fyrir af innsiglinu. — AM. Apogr. 83. Er uppskrift sú fyrst staðfest i Skálholti 10. dec. 1707 af Arngrími Bjarnasyni, Snorra Jónssyni og Þórði Þórðarsyni, og enn aftur 6. maí 1711 af Þorleifi Arasyni, Gísla Bjarnasyni, Grími Magnússyni og Magnúsi Einarssyni. — „Þetta bref gef eg Monsr. Bryniolfi Þördarsyne. [þvi þad er öefad contra Hedinshøfda.[1]) Þad er med hendi Sira Sigurdar ä Greniadarstad“ (AM.).

[Um landamerke Hiedinshøfda.[2]) [vm Baeka.[3])

Þad giore ee Jon Ormsson mins nadugasta herra kongsins eidsuare og þar med suarinn logrettumann godvm monnum kunnigt med þessu minu opnv brefi at ee uar uppuæxtarmadur j sydre Tungu a Tiornese hia fodur minum Orme Jonssyne er hann þar bu hafdi noekur ar. Stefann heitin Stullason bio a Hiedinshofda og uar ee þar nætur margar og heyrdi ee alldrei annad enn Hiedinshofdi ætti eeki leingra sudur enn j Reydaraa fyrir nedan gliufur og heyrdi ee oppt Stefan Stullason og faudur minn um Hiedinshofda landamerki ræda og aungnan heyrdi ee þa annat hallda. Og til sannenda hier um set ee mitt jneigle fyrir þetta vitnisburdarbref huortt ed skrifad uar a Greniadarstodum j Adalreykiadal þridiudaginn næstan fyrir Mariumesso enu seirne um sumarid arum epter gudz burd .M. d. lxx.

---

306. 10. september 1570. á Hvoli.
JARÐASKIPTABRÉF.

AM. Fasc. LXVIII, 16, frumrit á skinni. Þvengir og för 4 innsigla, en nú innsigli ekkert. — Jbskj. AM. Dalasýsla 11 („Fra

1) [„þad er övist“, ath. AM. 2) [utan á bréfinu m. h. Árna. 3) [Utan á bréfinu m. gamalli h.

Skardi á Skardströnd", AM.), uppskrift staðfest af tveim mönnum að Skarði 19. mai 1704. — AM. Apogr. 5908.

Kavpbref millvm Ellendz og Asmvndar vm Kleyfa.

Jn nomine domine[1]) amen for suo felldur giorningur og kaupskapur fram á sydra Hvole j Huolhrepp svnnvdægin næstann epter natiuitas sancte Marie þa lidit var fra gvdz burd. m.d.lxx ar j mille þeirra Ellendz bonda Jonssonar og Asmundar Þolleifssonar hans mags sem hier seiger: J fyrstv faldist þad og skildist vnder þeirra handabandi ad adur skrifadur Asmundur selldi Ellindi bonda jordina Kleifar er liggur j Gilsfirdi i Gardzdalz[1]) kyrkivsokn med aullum þeim gaugnum og giædum sem greindre jordu filger og filgt hefur ad fornu og nyiu. Hier i mot gaf Ellendur bondi Asmundi Þolleifssyni jordina Mijdey er liggur j Vomulastada kyrkiusokn med aullum þeim gaugnum og giædum sem greindre jordu fylger og fyllt hefur ad fornu og nyiu og hann vard fremst eigandi ad. Enn ef suo kyne til ad bera ad nockur klaugun kiæmi vpp á Mijdey af nockurs manz hendi þa skyllde ttitt[1]) nefndur Asmundur edur hans erfingiar eiga ad Ellendi bonda edur hans erfingium adra .xxc. jord þa sem honum vel likadi ad taka eda sina aptur. Worv þesser kaupuottar hier til kallader: Biorn bondi Þolleifsson og sira Ion Ionsson. Eireikur Biornson.[2]) Sigmundur Þorolfsson. Snorre Arnorsson og Biarnhiedin Marcusson og settv sin insigle fyrer þetta kaupbref huert ed skrifad var i sama stad og dag sem fyr seiger.

---

307. 16. sept. 1570. á Grenjaðarstöðum.

VITNISBURÐR um landamerki Bakka á Tjörnesi.

Bps. Hol. Fasc. V, 13, frumrit á skinni. Innsiglið er dottið frá.

Vm Backa 1570.

Þad giore eg Oddur Asmundzson mins nadugasta herra

---

1) Svo. 2) flagnað.

kongsins eidsuare og þar med suarinn logrettumann godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefi at ec hefi verid vpp alinn j Skordum aa Tiornnese[1]) og þar verid og til uitad mest allann minn alldur og er ec nu lxx. ara gamall og hefi ec alldrei annad heyrt ne vitad enn jordinn Backi aa Tiornesi[1]) ætti allt land vt fra sier vti Reydaraa sem suo kallast. bio minn faudurbroder Stefan Stullason aa Hiedinshofda j morg ar. kom ec þar þa opt og til vissi og heyrdi ec alldrei ne vissi hann eigna sier eda jordune Hiedinshofda leingra sudur enn j þa Reydaraa sem nu fellur hun. hygg ec hann lieti þo ei telia af sier j þann tima. og alldrei heyrda ec þad talad eda eignad af nockrum manne leingra sudur enn j þa Reydaraa fyr enn þa Þorsteinn bondi bio aa Hiedinshofda nu fyrir vel xx arum. og þo fylgdi hann þui alldrei fram nei[1] hafdi þad leingra sudur. Og til sannenda hier um set ec mitt jncigli fyrir þetta Bref Skrifad a Greniadarstodum þann .xui. dag septembris arum epter gudz burd M. d. lxx.

---

308. 20. september 1570. í Haga.

VIRÐING Hagakirkju á Barðaströnd.

AM. Apogr. 1134 „Aptan af Störu Transscripto frä Haga ä Bardastrond giordu 1586“ (AM.), 5. maí.

Anno M d lxx. Enn aa deigi Septembris enum xx. ad krofu Eggerttz Hannessonar. voru þessir menn j metum og verdlage kirkiunnar ad Haga. Jon Loptzson. Ellendur Þordarson. Sueirn Þorbiarnarson. Magnus Jonsson. kirkna þionar. Helge Jonsson. Jon Sueinsson. Pietur Bardarson. j[2]) hafde þä Eggertth tekid vid kirkiune oc gardinum: Enn sira Magnus Eyolfsson sleptt. kom oss þad saman epter vorre skynsemi ella fauitzku at munde sama kirkia virdast vid god viijc an þaks og þilia.

Kirkiunnar ornament var þä suo felltt jn primis ij

1) Svo. 2) Svo, Apogr.

messuklæde sæmilig alfær. enn ein fanyt brun an liereptz. blamerktur dukur fangaliettur. korkapu slitur. eirn sloppur foutzklædi lasid. eirn kaleikur j tueim paurttum med sterkri patino. xxij bækur miog fangaliettar. klucka ein kolflaus. Ofær kopar vatzkall. litill koparhialmur heill. ein koparpipa litil.

---

309. 22. september 1570. í Brimum.

BRIMAMENN beiðast milligöngu Dr. Jóakims Hineks við konung um sigling á Búðir og kvarta undan rupli Hans Gronewoldts þar.

Ríkisskjalasafnið í Brimum, eftir uppskrift 1933 frá H. Christ, aðstoðarmanni þar.

Ehrwerdige Hochgelerde undt Ehrbahr I. Ehrw. syn unser gantz willige Deinste jeder tydt thovoren bereidt, gunstige Her. Iuwen Ehrw. muge uns unsern notturfften nha deinstlich klagende nicht bergen. Offte woll von der Kon. Maytt. tho Dennemark unsern gsten. Hern mytt hierbevoren de Haven Bodenstede in Isslandt belegen mitt allen ohren Kopmanss Gerechtieheiten unde tho behoringe ahne jemandts(?) vorhinderunge jahrlikss thogebruken und darsulvig thohandelen unde thowandelen jegen eine namhaffte Pension underdenigst aff gepachtett. De Inselken gebohrnuss an ohre Kon. Maytt. tho gnedigen gestalten allemall in underdenigster gudtwillicheidt entrichtett hebben. Datt doch deme tho jegen nhu ..(?).. verschienen Iahre ein Schipper von Hamborg mitt nahmen Hanss Gronewoldt tho gefahren. und by Hochstgedachter Kon. Maytt. so viele subreptitie tho wege gebracht. datt ohre Kon. Maytt. ohme de Nothaven Stoppe so sick gantz nha an vobemelte unse Haven Bodenstede ahnlett (: wowoll vor einem Iahr geringess :) (?) tho gebruken gnedigss vorgunstigett. Welcken unss dan der order an unsern handell unde wandell tho merklichen beschwer und vorfange geworden(?)

In gnedigster und gunstiger erwegung dan im solcke

Haven Stoppe sunst nemandt demede(?) bemelten Gronewoldte. damidt unse handelen Inwahner de Haven und Vogdie Bodenstede De he sick ock unde synen handell vorwandte unss averst affwendich gemakett befehlen(?) Dorher wy dan an unser handteringe und neringe dergestaldt affbrok nehme. datt unss solckess ahne besondere beschwerung und entliken vorderff thoerdragen unmögelick.

Dewyle wy dan de underdenigste hapening undt thoversicht scheppen. dat ohre Kon. Maytt. desser Dinge gelegenheid(?) und umme? (welcke Gronewolde ungetwivelt in der forde beholden) underdenigst wehren berichtett wurden. datt dann ohre Kon. Maytt. mehrbemelten von Hamborg unss thom vorfange in dessen gnedigst nicht wilfohret hedden. Und averst dessen dinge der Kon. Maytt. dorch gude Hern und sonderlick durch I. Ehrw. nochmall notturftlich ..(?).. berichtett und bewogen. und wie bey den unsern underdenigst vorbaden werden.

Demenha bidde wy dienstlick I. Ehrw. sick gunstiglick nicht beschweren willen. an hochstgedachte Kon. Mayt. unss Iuwe Ehrw. vorbidtlicke schriffte gunstiglick mede thodelen. darmede ohre Kon. Maytt. disse gelegenheid behertzigendt gnedigst geruht unss by unser verpachteden Haven und Vogedei Bodenstedt ahre menniglikge Indranck offte vorhinderinge jegen danckbahrlicke erlegung der jehrlicken Pension. gnedigst thobeschützigen und andere(?). so sick under gesterveden(?) scheine und gesochten(?) behelp..(?).. unss undt unse handteringe tho merckliken beschwer und nhadeele dar hen in thodrengen vorhebbenss. davon gnedigt affthowisen.

Dessen tho ohren Kon. Maytt. wie ock tho I. Ehrw. wie unss underdenigst undt deinstlick erwesen. undt seind negest befehlinge Godess dess almechtigen in koninglicken und Ehrbaren wolstande ernstes unses vermogendess thovordenende gantzwillich. Datum Bremen. den 22 ten Septembris Ao 1570.

I. Ehrw. gantzwillige Borger tho Bremen
Christoffer Bonefast(?)
Vassmer Bade
Iohan Hudeman
Iohan Libbe und
Christoffer Meier
vor sick undt in nahmen ohre mede freunde unde Rehdere de Haven Bodenstede in Isslandt.

Redicta.

Wess ock sunst gunstiger Her I. Ehrw. hievor lest vorthonemen will gerahde dancken. darmede disse Dinge tho guden wegen befordert. und wy dessen oick euern koninglichen Schirm vorgewissert werden mochten. Wilen I. Ehrw. wy hiemede deinstlick hingestellett. ock gentzlick vormittelt(?) hebben. Dess deinsticken erledenss(?). jegen I. Ehrw. dermahlen unss danckbarlick thoverholdenn. datt sick I. Ehrw. derwegen jegen uns nicht schall hebben thobeschweren. Datum 22. VII bris.

[Utanáskrift:]

Dem Ehrwerdigen hochgelerden und Ehrbaren herrn Ioachim Hincken der Rechten Doctoren. Domdeken der Kercken tho Bremen. Praweste tho Bucken unde Osterholte. unsern gunstigen Hern.

---

310. 27. september 1570. á Bessastöðum.

JOHANN BOCKHOLT kvittar Henrik Gerkens um afhending kvikfjár Þingeyraklaustrs.

AM. Fasc. LXXVI, E. II, 4, transscriptum á pappír frá 11. apr. 1619. — AM. Apogr. 663.

Jeg Johan Bucholtt konglig Maiestatis Befalnijngsmand offer Jslandt kiendis oc gior ffor alle vidurligt meth thete mitt obene Bref att jich haffer annamed och vppbaredt paa høigbemelthe konijnglig Matz mijn nade herris wegne Aff Erlig mannde Heinrek Gerkijns thrij-

sindstiuffe gamble gieldffare oc thrij fijre vinther gamle oxen som hand aff Thingøre klosthurs jnuentarium hijd til form konings maiestatis Behoff senth og fforschickid haffuer. Til ydermeiri vidnisbyrdt haffuer jeg thryckt mitt signeth her nedenn paa thenne kuittanndize som Er giffuet og skriffuid paa konglig Maiestatis gaardt thenn 27 dag Septembris Anno 1570.

Þad medkiennunst vier Epterskrifader menn Þordur Gudmundsson. Einar Eireksson og Jllugi Wigfusson ad uier hofum sied og yfer lesid suo laatandi bref ord Epter ord sem hier fyrir ofann skrifad steudur med Eigin handskrift Johans Bucholits og hans veniulegu signeti nedan fyrir þriktu. Og til sannarligs merkis hier vm þa skrifum vier uorar handskrifter og setium vor signeth her fyrir nedann þessa vora medkiennijng huor skrifud var a Huijtaruollum þann 4 dag Septembris Anno 1607.

---

311. 6. október 1570. að Kirkjulæk.

SJÖTTARDÓMR, kvaddr af Árna Gíslasyni, kongs umboðsmanni í Rangárþingi, um umboð Guðnýjar Jónsdóttur.

Lbs. 720, 8vo., bl. 27—8, skr. ca. 1600—20, m. h. Björns Guðmundssonar í Þykkvaskógi. Ritháttr er nokkuð afkáralegr um sumt, og er ekki fylgt hér út í æsar. — Brot af dómabók í þjóðskjalasafni (áðr í Landsb. 119, 4to.), bls. 181—2, m. h. síra Torfa Snæbjarnarsonar á Kirkjubóli í Langadal 1624—9. — Lbs. 790, 4to., bls. 213—14, skr. ca. 1642. — Lbs. 67, 4to., bl. 134 b—5 b, m. h. síra Jóns Erlendssonar í Villingaholti ca. 1650. — Auk þessa eru til mörg ónýt ágrip af dómi þessum, svo sem í Lbs. 65, 4to. I, 88; AM. 196, 4to., bl. 118 a—b; Ny kgl. Saml. 1945, 4to., bl. 55 b og 3999 a; Lbs. 6, fol., bl. 239; Lbs. 68, 4to., bl. 172, og enn víðar. — Í AM. 211 c, 4to., bls. 139—40, skr. ca. 1700, er að vísu uppskrift af dómi þessum, en afbökuð í ýmsu, og hér ekki tekin til greina.

Domur hustru Gudnyar Jonsdottur.

Þad giorum vier Biorn Þolleifsson. Pietur Þorleifsson. Jon Eyrijckson. Nijckulas Biornsson. Jon Brannson.

